ANDLEGIR

# SÁLMAR OG KVÆÐI

ÞESS

GUÐHRÆDDA KENNIMANNS OG ÞJÓÐSKÁLDS

## HALLGRÍMS PÉTURSSONAR.



---

ELLEFTA ÚTGÁFA.

---

REYKJAVÍK 1857.

Prentað í prentsmiðju Íslands, á hennar kostnað,
hjá EINARI ÞÓRÐARSYNI.

Inntak

ættar- og æfi-sögu

sáluga prestsins

# HALLGRÍMS PÉTURSSONAR,

ritað af sáluga stiptprófasti

Mag. Hálfdáni Einarssyni.

---

Sveinbjörn prestur þórðarson og þórdísar Finnbogadóttur var meðal fyrirtakspresta í Hólastipti í sinni tíð. þegar hann var djákn, fèkk Jón biskup Vilhjálmsson honum sitt fullkomið umboð í þíngeyjarsýslu, sem brjef, þar um gjört fimmtudaginn í páskaviku 1431, sýnir. Árið 1463 var hann orðinn *Officialis*, og sama embætti hafði hann 1483, en deyði 1490, eptir það hann hafði haldið Múlastað í 22 ár. Síra Sveinbjörn átti mörg börn (annálar segja 50), meðal hverra telst Sigurður (faðir Helgu, er barnamóðir var Jóns biskups Arasonar) og Hallgrímur, sem faðir var: 1) síra þorláks á Staðarbakka, föður Guðbrands biskups; 2) síra Einars á Útskálum, hvers synir voru: a) Guðmundur skólameistari á Hólum, síðan prestur á Staðastað og prófastur í Snæfellsnessýslu og b) síra Bergsveinn á Útskálum; 3) síra Gamalíels, föður síra

Bjarna, fyrst skólameistara á Hólum, og síðan prests að Grenjaðarstað; síra Gissurar og þorkels Hóla-ráðsmanns; 4) þorkels, er faðir var a) síra Odds á Hofi í Vopnafirði, föður Bjarna á Bustarfelli, sýslumanns í Múlaþíngi og b) Ólafs, föður Ólafs skólameistara á Hólum, og síðan prests að Grímstúngum, hvar hann missti embættið; 5) síra Gissurar á Staðarbakka, föður síra Pèturs í Vestmannaeyjum, hvers synir voru þeir síra Gissur, síra Arngrímur og Gísli, er myrtur var í Eyjunum 1692; 6) Guðmundar, er faðir var a) Hallgríms í Gröf á Höfðaströnd, föður Pèturs, föður síra Hallgríms — og b) þorbjargar, kvinnu síra Jóns Sveinssonar í Holti í Önundarfirði, prófasts í Vestur-Ísafjarðarsýslu og hálfbróður Mag. Brynjólfs biskups í Skálholti; 7) Guðnýjar, er var móðir síra þorláks Ívarssonar í Heydölum. Móðir síra Hallgríms er nefnd Sólveig, en systkin hans voru a) Páll; hans synir Hallur og Guðmundur, faðir Mad. Guðrúnar á Hraunum í Fljótum; b) Guðríður, af hverri komnir eru prófastarnir síra H. Eldjárnsson á Grenjaðarstað, síra E. Jónsson á Hrafnagili og margir fleiri.

Pètur Hallgrímsson var sakir ættar tekinn að Hólum af Guðbrandi biskupi, og

var þar hríngjari; honum fylgdi sonur hans Hallgrímur, fæddur 1614 eða þar um bil; hefir hann lært þar að lesa og skrifa. Sá margfróði lögmaður Páll Vídalín skrifar (*in Recensu Scriptorum & Poëtarum Seculi* XVI. & XVII.), hann hafi nokkurn tíma í skóla verið, og lagt þar fyrsta grundvöll bóklegra mennta. Tjáist, að Hallgrímur hafi misst skólann, en fyrir einhverra náúnga sinna tilhlutun siglt til Glükkstaðar, og komizt síðan til Kaupmannahafnar, hvar hann hafi þjónað hjá járnsmiði nokkrum, en að Mag. Brynjólfur, síðar biskup, hafi feingið hann þaðan lausan, annaðhvort 1631, þegar hann í annað sinn sigldi heðan, eptir hans 2 ára hjerverff, eður -- hvað líklegra virðist — ári síðar[1], áð-

1) Reisusálm, er hèr við bætist og svo byrjar: „Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín,“ finn eg í 3 sálmakverum Msc. með þessari fyrirskript: „Reisusálmur Hallgríms Pèturssonar, kveðinn í Kaupmannahöfn árið 1632, þá hann vildi reisa þaðan til Íslands“. Sè nú þetta rètt, hefir hann frá járnsmiðnum losazt líklega árið 1632; en þar hann hafði í föðurlandi sínu lært að lesa og skrifa, samt í Hólaskóla numið nokkuð í latínu, svo hefir Mag. Brynjólfi sýnzt Hallgrími gagnvænlegast, að hann byrjaði aptur með lærdóm sinn, einkum þar hann hefir fundið hjá honum góð-

ur hann inngekk *Conrectoratum* í Hróarskeldu, og flutt svo mál hans, að hann var inntekinn í Vorfrúar-skóla í Kaupmannahöfn; tók Hallgrímur þar þvílíkum framförum, að árið 1636 var hann kominn í svo nefnda meistara Lectsíu. Fyrir guðrækilega umsorgun og örlæti Kristjáns konúngs IV. komu 38 persónur til Kaupmannahafnar frá Tyrkjum af fólki því, er hernumið var, og héðan af landi flutt 1627; en þar fólk þetta skildi lítið eða ekkert í dönsku, þurfti það með, því væri einhver íslenzkur feinginn, sem styrkti það í þess kristindómi; var þess vegna Hallgrímur feinginn til að lesa og tala fyrir því guðs orð. Meðal þessa útleysta fólks var Guðríður Símonsdóttir (er sögð gipt hafi verið Eyjólfi nokkrum, og haldið áður til í Stakkagerði í Vestmannaeyjum), til hverrar hann fékk þann ástarþokka, að vorið 1637, þegar þetta ánauðuga fólk skyldi reisa frá Danmörku, yfirgaf Hallgrímur skólann og fór með Guðríði út híngað; komu þau út í Keflavík, og var Hallgrímur þá púlsmaður hjá dönskum um sumarið; en eptir þeirra burtsiglíngu hafði hann hvergi hæli. Guðríður ól barn í Ytri-Njarðvík, hjá Grími Bergssyni, en þá taldist

---

ar námsgáfur; því það sýnist fjærri líkindum, að með öllu ólærður handverks-dreingur hefði heldur til mennta en annars handverks settur verið.

svo til, að maður hennar var dauður, áður en hún tók við barninu, svo brotið reiknaðist frillulífi. Snèrist þá svo fyrir Hallgrími, að hann varð áhángandi Árna á Ytra-Hólmi á Akranesi, syni Gísla Þórðarsonar lögmanns, svo hann skaut skjóli yfir hann, það eptir var sumarsins, og reyndist honum síðan hinn mesti hjálparmaður.

Skömmu eptir þetta mun Hallgrímur hafa gipzt Guðríði, og síðan í mestu fátækt uppihaldið sèr einhversstaðar á Suðurnesjum (í koti nokkru, Baulufæti þá kölluðu, hefi eg sèð skrifað, hvar um þó ekkert víst álykta), annaðhvort á vegum Árna, eður í Hvalsnesshverfi, undir skjóli bóndans þar, Þorleifs Jónssonar, til þess hann eptir undirlagi Mag. Brynjólfs biskups — því bágt var um þær mundir að fá presta til Hvalsness-sókna, þar sá rómur hefir á legið, að Torfi Erlendsson, þá hèraðsdómari í Gullbríngusýslu, og aðrir stórbokkar í Hvalsness-sóknum, hefðu ekki látið presta sína ofdátt —, kann ske og fyrir áeggjun og tillögur Árna eða Þorleifs, fór til Skálholts og vígðist 1644 til Hvalsness-sókna, var og árið eptir innstefndur í *Synodi*-rèttinn á alþíngi, og undirskrifar *Protocolinn*, eins líka Hvalsness *Visitatiu* 1646; bjó hann þá á Hvalsnesi og mun þar búið hafa, svo leingi sem hann var þar prestur, hvað eg meina verið hafa 6 eður

7 ár; því 1650 deyði síra Ólafur Böðvarsson, prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, er þann stað hafði haldið frá 1623, en síra Hallgrími var veittur staðurinn 8. apr. 1651, af Mattias Söffrínssyni, er umboðsmaður var höfuðsmannsins Henriks Bjelkes, og tók hann við staðnum í fardögum sama ár af ekkju síra Ólafs, Guðríði Rafnsdóttur; stendur og í Saurbæjar-kirkju *Visitatiu*, gjörðri af Mag. Brynjólfi 1661 þann 9. sept., að síra Hallgrímur hafi staðinn haldið á 11. ár; en ekkja Ólafs mun hafa notið náðarársins, ef ekki eptir konúngsbr. um prestaekkna náðarár af 3. maí 1650, þá eptir *Ordinantiunnar* hljóðun, og á henni grunduðu *Synodali* Mag. Brynjólfs af 1639. Eptir það nú síra Hallgrímur var kominn að Saurbæ, vegnaði honum sæmilega til þess 1662 þ. 15. ág., þá um nóttina upp brunnu öll prestakallsins innanbæjarhús og mikíð af búshlutum; komst allt fólk af, utan aðkomandi förukarl, og sagður forn í skapi, Ólafur Pálsson, sonarsonur síra Böðvars Eyjólfssonar í Saurbæ. Margir góðir menn urðu þá til að hjálpa síra Hallgrími, svo staðurinn varð uppbyggður sama haust. Fáum árum eptir, nefnilega 1665 eða 1666, varð hann líkþrár, en fór þó til alþíngis þetta síðara ár, og urðu margir til að gjöra honum gott; en árið 1667 þreingdi svo að honum holdsveikin, að hann kaus sèr

fyrir kapilán síra Torfa Jónsson frá Reykholti og gaf upp við hann hálfan staðinn, en bjó sjálfur á öðrum helmíngi staðarins. Síra Torfi deyði um sumarmál 1668, en eptir hann kom síra Hannes Björnsson, sem áður hafði prestur verið í Ferjubakka-þíngum; bjó hann ásamt síra Hallgrími í Saurbæ hið fyrsta árið, en tók við stað og kirkju 1669. Fór fram afhendíngin þ. 5. maí, en var staðfest af biskupi þ. 8. s. m. Með staðnum afhenti síra Hallgrímur jarðirnar: Katanes, Staðarhöfða og Óss-partinn, en hèlt eptir Forstiklu, Hrafnabjörgum og Skálatánga. Sama ár flutti síra Hallgrímur sig að Kalastöðum, hvar hann bjó í 2 ár og síðan að Forstiklu' hvar hann bjó til dauðadags. Nú þó síra Hallgrímur væri orðinn veikur og kominn frá Saurbæ, var hann þó um þessar mundir og leingi fram eptir á fótum og nokkurn veginn ferðafær, því bæði anno 1668 reisti hann til alþíngis, og var þá í *Synodo,* og 1669 er hann einnin á alþíngi og undirskrifar með öðrum 22 stiptisins prestum auðmjúka bæn þeirra til Mag. Brynjólfs, að halda við biskupsembættið framvegis. Hin síðustu missiri varð hann kararmaður og nærri blindur, en bar þó sinn þúnga veikleika með þolinmæði og orti í honum marga andríka og hjartnæma sálma. Að lyktum, þá hann var sextugur að aldri, enduðust hans stríðsdagar

fyrir sáluhjálplegan afgáng, sem skeði eptir veturnætur, eður þann 27. okt. 1674; var hann jarðaður fyrir framan miðjar kirkjudyr í Saurbæ þ. 31. s. m., en nú er sagt leg hans sè að mestu leyti innan kirkju, þar hún síðan hefir verið leingd fram[1].

Síra Hallgrímur var að ytra áliti stór og ei liðlega vaxinn, dökkur á hár og brún, eingínn raddmaður, en hversdagslega skemmtinn og glaðsinna; án viðhafnar tilbreytni, liðugur og orðheppinn í kveðskap; andríkur og orðhagur

[1]) Yfir þetta nafnfræga sálmaskáld er árið 1821 lagður að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd prýðilega úthöggvinn líksteinn af þjóðhaga-smiðnum Jakobi Snorrasyni á Húsafelli, úr þeirri ágætu steinategund, hverri ferðasaga þeirra Eggerts og Bjarna lýsir í § 133, að finnist í Húsafellsfjalli. Líksteinsins áhöggna letur er þetta:

Lèt. stein. þenna. landshöfðíngi.
Sárast. saknaður. — hverr. sannri. trú.
Af. alúð. unni. — ættmenn. rista.
Eptir. sinn. dag. að. auldnum. moldum.
Háleits. sálmaskálds.
HALLGRÍMS. fræga.
Saurbæar. prests. PÈTURSSONAR.

---

Lifi. beggja. minníng. í. landi. blessuð.
MDCCCXXI.
M. St.

prèdikari: velskiljandi þýzku, dönsku, latínu og sitt móðurmál.

Börn síra Hallgríms og Guðríðar dóu flestöll úng; eitt þeirra hèt Steinunn, sem varð hálfs fjórða árs, hverja sagt er hann hafi mikillega tregað vegna náms og gáfna, er strax lètu sig í ljósi hjá henni. Annað Eyjólfur, er giptist Þóru, dóttur Guðmundar Narfasonar á Hálsi í Kjós og Guðrúnar elztu Ormsdóttur frá Eyjum. Þeirra börn: a) Magnús, þjónaði prentverki í Skálholti, sigldi og giptist utanlands, og b) Guðrún, er giptist Þorleifi syni Jóns nokkurs Indriðasonar. Guðmundur er og talinn sonur síra Hallgríms; mun hafa dáið úngur og ókvæntur, þar ei er getið hans afkomenda. Guðríður var, eptir dauða síra Hallgríms, hjá syni sínum Eyjólfi, er bjó á Ferstiklu eptir föður sinn, til þess hann dó 1679, á sínu 42. aldursári, en eptir dauða hans fór hún að Saurbæ til síra Hannesar, og deyði þar 1682, ári ýngri en hálfníræð, grafin 20. des., hvar eptir hún sýnist fædd 1598 og gipt vera síra Hallgrími, þá hana skorti vetur á fertugan.

---

Eptirfylgir með fám orðum að minnast á þau skrif, sem eptir þenna guðsmann, síra Hallgrím, liggja og honum almennilega eignuð eru.

Í sundurlausri ræðu hefir hann saman skrifað: *Diarium christianum* eður daglega iðkun af öllum drottins dagsverkum, með samburði guðs tíu boðorða við sköpunarverkin og minníngu nafnsins Jesú. Lèt hann bæklíng þenna frá sèr út gánga 1660. Einnig: Sjö guðrækilegar umþeinkíngar, eður eintal kristins manns við sjálfan sig hvern dag í vikunni, kvöld og morgna, og hefir hann báða þessa bæklínga *dedicerað* Eggert Björnssyni á Skarði á Skarðsströnd, sýslumanni í Barðastrandarsýslu, og eru þeir nokkrum sinnum prentaðir. Út af *Diario* hefir kveðið sálma sá vel gáfaði kennimann síra Jón Sigmundsson, en Vikuþaunkunum hefir í sálma snúið síra Eiríkur Hallsson í Höfða. Hjá mèr eru Vikubænir síra Hallgrími eignaðar, er vel mættu fylgja þessum bæklíngum, ef menn fyrir víst vissu þær væru verk síra Hallgríms og óafbakaðar. Þessi guðsmaður hefir einnig *commenterað* yfir nokkrar vísur úr vorum fornsögum, einkum sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar, en þó einhverjum þyki það hans verk ei hið fullkomnasta, þá er aðgætandi, auk þess vèr erum allir menn og vorum ófullkomlegleika fylgir jafnan einhver annmarki, að vera má síra Hallgrímur hafi ei gefið sèr stundir, eða haft þær, til að halda

áfram með sama vandaverk, og skiljast svo við það, að grandskyggnustu menn gætu eingin missmíði á séð[1].

Í bundinni ræðu hefir síra Hallgrímur miklu fleira gjört, og sérhvað af því með þeirri snilld og ágæti út fært, að hann fyrir laungu hefir forþénað eitt hið ypparsta sæti meðal þessa lands höfuðskálda; þar hann með fögrum og hagkvæmum orðum í liðugasta kveðskap, án fordyldar og affarasniðs, fram setur sína velgrunduðu þánka um þvílíkt efni, sem optast snertir hjartnæmustu atriði vorrar trúar, kristilegt framferði mannanna og framfarir þeirra í andlegum efnum. Eitt hið ypparsta og uppbyggilegasta verk, sem í ljóðum hefir samið verið og í þessu landi út geingið, eru hans fimmtíu sálmar út af pínu og dauða drottins vors Jesú Krists, með textans útskýríngu. Og svo sem þeir höndla um hið huggunarríkasta efni

---

[1]) Páll lögmaður Vídalín, vel tilfallinn dómari í greindu efni skrifar þannig hér um l. c.: Commentarium etiam reliquit in nonnulla veterum poëmata, quæ Historiæ Olai Tryggonis f. inserta sunt, in quo laudabilem etiam operam præstitisse videtur, pleraque enim feliciter eruit, haud scio an omnia, glaciem certe fregit maximæ difficultatis, stravitque ad cetera viam, et dolendum, quod tam pauca id genus poëmata tractaverit.

og innibinda í sèr merg og kjarna vors kristindóms, svo hefir hann mest ástundað að vanda þá, og víst nokkurra ára tíma til þess brúkað — sumir segja 10 (og vænast hèr til vitnisburðar síra Hannesar Björnssonar, hverjum hèr um mátti nokkurn veginn kunnugt vera), aðrir færra. — Þetta sitt ágæta verk fullkomnaði hann 1660, sem sýnir formáli og *approbatio* síra Jóns Jónssonar á Melum, dagsett 7. marz sama ár. Það sýnir og *dedicatio* til Kristínar Jónsdóttur í Einarsnesi og Helgu Árnadóttur í Hítardal, dagsett 5. maí nefnt ár; mèr þykir og líkleg sú tilgáta, að hann hafi ei lengi látið undan dragast að sýna sálmana sínum velgjörðamanni Mag Brynjólfi biskupi, heldur jafnvel fyrstum manna, og undir eins *offererað* þá dóttur hans, eins og hann í marz á s. á. gaf þá og tilsendi Ragnhildi Árnadóttur í Kaldaðarnesi, hvert *autographum* prófasturinn síra Vigfús í Hítardal skrifar sig í höndum haft hafa með formála Jóns prófasts. Sú 1. *editio* þessara sálma út kom á Hólum í Hjaltadal 1666, hvorki góð nè fullkomin, þar meðal annars vöntuðu 2 vers í þann 15. sálm og hið 3. í þann 8. Sú bezta *editio* meinast hin 4. í Skálholti 1690. Þessir sálmar hafa að vísu (til 1773) 15 sinnum prent-

[1]) Þessara sálma 27. útgáfa var prentuð síðast í Reykjavík 1851.

aðir verið[1] og það með *citatis biblicis* 1704, og hefir *editor*, Mag. Björn biskup Þorleifsson viljað lagfæra þá í tveim stöðum (nefnil. það 18. vers þess 14. sálms og hið 12. vers í þeim 16. sálmi), og þó Mag. Björn biskup hafi gjört þessa umbreytíngu í beztu meiníngu, þá lagðist það ei svo út fyrir honum, og hefir henni því ei fylgt verið í enum síðari *editionibus*. Miklu framar hafa nokkrir merkilegir menn annaðhvort reynt til að snúa þeim í framandi túngumál, eða með prèdikunum út af þeim viljað þeirra inntak ljósara gjöra fyrir almúga; hver fyrirtekt að vísu lofleg er, þó sálmarnir sjálfir fram setji skiljanlega, þó í færri orðum, þjóðskáldsins þánka. Á latínsk vers hafa gjört tilraun að snúa nokkrum þessum sálmum Mag. Jón biskup Vídalín, eitt hið bezta látínuskáld hèr á landi verið hefir, bróðir hans Þórður, og Jón Þorkelsson, nokkur ár *rector* í Skálholts skóla[1]. Guðmundur, sonur

[1]) Árið 1778 út kom í Kaupmannahöfn latínsk útleggíng þessara passíusálma, undir sömu lögum, sem hinna frumkveðnu, gjörð af Kolbeini presti Þorsteinssyni til Miðdals í Árnessýslu, að öllu leyti á kostnað, eins og sú útgáfa öll, þáveranda amtmanns, síðan stiptamtmanns Ólafs Stephánssonar, sem varð gefins út býtt hèr og erlendis víða.

M. St.

síra Guðmundar Jóns (lærða) sonar, gáfumaður og skáld sæmilegt — er þènti leingi hjá hennar majestet Sophíu Amalíu, og varð fógeti hennar í Lágalandi (Laaland), allt til hennar dauða 1685, en bjó þar eptir í þèttmerski stutta stund, síðan í Glückstadt, og lifði víst til ársins 1688 — byrjaði að út leggja þessa passíusálma á þýzku, en hvort hann hefir til endzt að fullkomna það áform sitt, er mèr að vísu óljóst[1]. Út af passíusálmum þessum hafa saman tekið 50 húslestra þeir æruverðugu gáfumenn: síra Guðmundur Ísleifsson, prófastur í Barðastrandarsýslu og seinast prestur á Íngjaldshóli; síra Jón Sigmundsson, hvers áður er getið; síra Vigfús Jónsson á Stöð, er deyði 1761; síra Jón Jónsson, síðast prestur til Staðarhóls og Hvolssafnaða, hvers verk þrykkt er á Hólum í Hjaltadal 1766[2]. það er og merkilegt, að þessir passíusálmar eru ei

[1]) Hjörleifur prófastur þórðarson, síðast prestur til Valþjófsstaðar í Norðurmúlasýslu, hefir snúið sálmum þessum á látínsk *hexametrisk* vers, prentuð í Kaupmannahöfn.

[2]) Vigfús prófastur Erlendsson, síðast prestur að Setbergi í Eyrarsveit, hefir saman tekið 50 húslestra út af þessum passíusálmum, nefnda Píslarþánkar, prentaða á Hólum 1773 og 1779.

einasta — eg hefði nær því sagt — í hverju húsi hèr á landi iðkaðir, heldur og hefir þeirra verðugu hrósi á lopt haldið meðal framandi þjóða sá nafnfrægi *Historiographus Regius* Þormóður Torfason *in Serie R. & D. D. L. I. Cap. II.*, er þó sonur var Torfa sýslumanns Erlendssonar, mótstöðumanns síra Hallgríms, og kapteinn Magnús Arason hafði þá gjarnan á sèr, og fundust þeir á honum dauðum, þegar hann drukknaði við Hrappsey á Breiðafirði 19. jan. 1728, og — hvað meira er — að Magnús virti svo minníngu síra Hallgríms, að hann ásetti sèr að innkaupa líkstein yfir hann, með latínskri *inscription*[1] og setja fyrir neðan hana þau 5

[1]) Þessi *inscription* hljóðar þannig. eptir því sem mèr hana meðdeildi í Kaupmannahöfn 1754 Stud. Antiqu. J. Ólafsson.

D. T. O. M. S.

Monumentum. Viri. in. perennem. patriæ. suæ. Islandiæ. gloriam. nati. in. perenne. ecclesiæ. Christi. quæ. vivit. in. Islandia. aut. victura. est. emolumentum. Sacerdotio. functi. &. eodem. suo. Sacerdotio. sancte. defuncti. Dni. HALLGRIMI PETRI. F. Ecclesiarum. primo. Hvalsnesensis. &. hinc. Saurbæensis. in. Hvaltjarðarströnd. pastoris. dum. vixit. vigilantissimi. atque. in. eo. ipso. officio. summo. cum. honore. mortui. posuit.

*M. Arason.*

síðustu vers þess 25. passíusálms, snúruð af honum á latínsk ljóðmæli. Hèr að auk hefir síra Hallgrímur ort 1656 sálma út af fyrri Samúels-bók og af þeirri síðari til Abners dauða, eða til þess 3. vers í þeim 2. sálmi, hvert verk þeir mjög velgáfuðu menn Sigurður Gíslason og síra Jón Eyjólfson eldri á Gilsbakka færðu vel til enda. þeir eru prentaðir (á Hólum) 1747. Líka svo hefir síra Hallgrímur kveðið salma út af historíu Jónasar spámanns og kvæði af Bíleam, hvorttveggja prentað með vísnabókinni 1748. Af rímnaflokkum eptir síra Hallgrím eru 1) af Lyklapètri og Magelóna; 2) af Flóres og Leó (þar Bjarni Jónsson skáldi hætti við í hinni 16. rímu, þar svo byrjar: „Hleiðólfs bát eg hrindi á mar, heldur en leingur standi“); 3) af Krókarefi. Auk þess, sem nú er upp talið, hefir hann marga sálma, kvæði og gamanvísur eptir sig látið, sem að nokkru leyti finnast í þessu kveri og að nokkru leyti liggur enn þá hjá mèr og öðrum, sem vissra orsaka vegna ekki að þessu sinni þrykkjast kann.

1. Þunda guðs vel fèkk vandað,
Vitur í *sálma-ritum*,
Meðferð *Hallgrímur* hirðir
Herrans sauða ótrauður,
*Son Pèturs*, sem ábata
Sízt rýrði Kristí dýrðar,
Ólatur, í dúk sveita
Ei fól gjöf himna jöfurs.
2. Borðlögð heldur hugði,
Hún minna skyld' ei vinna
Arð um *Ísa-jörðu*,
En náð hafði þáða.
Því er sál hins sæla
Sezt í fögnuð beztan;
En vèr eptir finnum
Ágæzt merkin verka.
3. Eitt sinn, opt þó mætti
Áður líta fjölnýtu
Stef hins ljóða-ljúfa,
Löguð mennt, vera prentuð,
Biskup *Gísli* þann geisla
Guðfræðis ekki mæðist

Landi láta tendrast;
Letrað fátt varð betra.

4. Hèr er hugvits rýrum
Hægt til bent að menntast;
Hèr er hug óvörum
Hermt frá andar grandi;
Hèr er hugar-sárum
Huggan trú vel búin;
Hèr er hugar-skærum
Heitið dýrðarveitíng.

5. Ættmanns hróðra-háttum
Hróður vert er bjóðist;
Fár hefir fegur skrifað
Forðum ljóð vorrar þjóðar;
Nokkrir nærri hrukku,
Nýtur ber af ýtum,
Mangi má ske leingi
Megi jafnast við *Nafna*.

6. Breiðið mót eyrun bæði,
Blíður *Íslands* lýður!
Breiðið að hendur báðar!
Býður guð sitt orð tíðum:
Breiðið út hjörtun hraðir.
Hlýðið *sálma* smíðum!

Breiðið varir viður,
Víða saunginn prýðið!
7. Lýsi oss það ljósið,
Ljós máttum bezt kjósa;
Kjósum veg, sem vísar,
Vís er oss þá prísinn,
Prís í himna húsi,
Hús það rækjum fúsir;
Fúsa loks að leysast
Leysi guð frá hneisu!

---

*Encausto formas veteres pinxere tabellis.*
*Nostras hic vates carmine conspicitur.*
*Ipse suae pictor mentis (nil ora moramur)*
*Vivus erat scriptis entheus ille senex.*

Ita posuit ipsius
ex sorore pronepos & cognominis
H. ELDJARNI F.

---

## EPITAPHIUM.

1. Hèr liggur *skáld,* er skyldug
Skáld stæra forprís skæran,
Skáldmæli' um *Krist,* þá kvaldist,

Kærust vann skáld það næra.
Ei skáldum *Ísa-foldar*
Æru skáldin svo færa,
Sem skáldi því glaðir gjalda,
Græc skálds hrós frábærast.

2. Eitt ljós *Snælands* ætta
Ættmanns voru hættir;
Hætt þá særðu sóttir,
Sótt vann trúar þróttur.
Þróttsæll dó í drottni
Drottins píslarvottur;
Vott þess firðar frèttu
Frètt með sannleiks rèttri.

3. Lifir *skáld* lopti ofar,
Lifir *skálds* önd dyggð þrifin,
Lifir *skálds* nafn í lofi,
Lifir *skálds* gröf hrós yfir.
Lifi *skálds* minníng ljúfa!
Lifi *skálds* stærsti bifur!
Lifi *skálds* ljóða-gjafir!
Lifi *skálds* merkis-skrifin!

# FYRSTI PARTURINN
innihaldandi
nokkra sálma og kvæði
út af heilagri ritníngu.

---

## Sálmur um sköpun veraldar.
Af 1. Mós. b. 1. kap.

Lag: Óvinnanleg borg er vor guð.

Í upphafi fyrir sitt eilíft orð Almáttugur guð skapti Himin og líka hèr með jörð Af hreinum guðdómskrapti, Fagurt ljós, firmament, Flóð og þurrlendið hent, Grös, jurtir, grænkuð trè Gaf þeim og frjóvseme, Með ilm og aldin-sapti.

2. Sól, túngl og stjörnur setti hann Sjálfur á festíng skæra, Líka svo fuglinn lèttfæran, Um loptin kann sig hræra; Í flóði fiska-kyn, Fènað og dýrin hin, Skepnur skríðandi' um fold, Skapti seinast af mold Mann og hans kvinnu kæra.

3. Himininn klár og hýr þá var, Hreinan gefandi ljóma, Jörðin án mæðu ávöxt

bar, Með alls kyns aldin-blóma, Skepnurnar allar eins Ei kenndu nokkurs meins, Maðurinn hafði' um heim Herradóm yfir þeim Í sælu, rèttlæti' og sóma.

4. Svo er nú drottins orðið eitt, Sem öllu við makt heldur; Án þess að gjört er ekki neitt, Almætti hans því veldur; Það orðið eilíft er, Allt gott færir með sèr, Hver, sèr þar heldur við, Hreppir eilífan frið, Gleðst þar af hugur hrelldur.

5. Jesús er eilíft orðið það, Einka lausnarinn góði, Fyrir hvern allt að er skapað, Af sviptir sorgar móði; Hann öllu heldur við, Hann sannan gefur frið, Hann slítur hryggðar bönd, Hann bætir meinin vönd; Fögnum þeim friðarsjóði.

6. Jesús er gleði eilíf ein Öllum þeim, á hann treysta; Hann er sú bezta bótin hrein, Bönd synda kann afleysta; Vor bótin bezt til sanns, Bæn heyrir syndugs manns, Hann bætir böl og þrá, Burt sviptir hryggðum frá, Gefandi náðar neista.

7. Ó! hvað opt verð eg orðlaus hèr, Eymdir mínar því valda; Líknarorð, Jesú! legg þú mèr, Lát mig ei synda gjalda;

Gleð þú mitt sorgfullt sinn, Sætasti Jesú minn. Láttu mig þjóna þèr Með þýðri lofgjörð hèr Nú og um aldir alda.

## Inntak úr historíu af Balaam.

**4. Mós. b. 23. og 24. kap.**

Með lag, sem Súsönnu kvæði.

Þá Ísraelslýður einka fríður af Egyptó Út rèð gánga, eyðimörk lánga yfir dró, Á Móabsvöllum þreyttur þó Þá um síðir landtjöldum sló.

2. Móabíta og Medíaníta mönnum þá Stýrði karskur, kænn og vaskur kóngur sá, Balak hèt, sem birta má, Bægja vill þeim landinu frá.

3. Ei sèr treysti hann með hreysti' að halda stríð, Ángri mæddist, af því hræddist Ísraelslýð; Við sína menn hann sagði' um hríð: „Senn mun búin ófriðartíð.

4. Ísraels múgur mannvals drjúgur Móabs láð Allt mun eyða, auðæfum sneyða' og auka' oss háð, Eins og fè, sem ei er gáð, Upp vill ræta jurtir og sáð".

5. Um þann tíð hjá Arams lýð var einn sá mann, Bókin efnir beint og nefnir Bala-

am þann, Spádóms-mennt og konstir kann: Kóngurinn vill, að fundinn sè hann.

6. Síðan beiddi' og svo til reiddi sendimenn, Að Balaam fyndi' „og fljótt með skyndi' í fjarlægð senn Honum segið orð mín enn: Ómakslaunin geld eg þèr tvenn.

7. Af Egyptalandi fólk flýjandi flokkum tveim, Ógna lið með sorga-sið mig sækir heim, Bið èg þú komir að bölva þeim, Bæði færðu virðíng' og seim".

8. Móabs æðstir herrar hæstir hlýddu gram, Stórar háfur, gersemisgáfur greiða nam, Bráðlega hittu Balaam, Báru síðan erindin fram.

9. Balaam þýður beiddi blíður: „bíðið hèr, Á morgun svarið, fyr en farið, fáið þèr, Þegar vís eg orðinn er Alls, sem drottinn kunngjörir mèr".

10. Þessa nóttu þegar í óttu um þenna hag Guð spyr hratt, það segi' eg satt, með svoddan slag: „Hvaða menn með hefndar plag Híngað komu til þín í dag?"

11. Balaam sagði, senn að bragði: „sendi mèr Balak menn, og biður mig enn að

bjarga sèr, Af Egyptalandi ógna-her Innfallinn í ríkið hans er.

12. Það eg fregna', hann þykist ei megna þeim á mót, Fá vill mig að frelsa sig og fremja blót, Svo bölvan yfir þá falli fljót, Og fólkið hreppi afdrifin ljót".

13. Hèr um skýrir hann, sem stýrir hauðri' og heim: „Þó þèr bjóði buðlúng rjóði brenndan seim, Lát þá sjálfa hverfa heim, Hvergi skaltu fara með þeim".

14. Við Móabs menn að morgni senn hann mælti í stað: „Yður búið, burtu snúið", Balaam kvað, „Gjöri' eg ei það, sem buðlúng bað, Bannað hefir drottinn mèr það".

15. Þessir gánga leið svo lánga, að ljóðin tjá, Balaams svörum, sínum förum sögðu frá. Kynlega við það Balak brá, Bjó til aðra sendimenn þá.

16. Öðlíng kyrri eins og fyrri upp á sló, Af sínum vinum vildari hinum valdi þó. Til Balaams seggja dróttin dró, Dýrar gáfur kóngurinn bjó.

17. Spámann fundu fróðir í lundu, og fluttu þar Erindin sín með orðin fín,

sem ásett var, Skíra gull og gersemar; Gaf þeim aptur Balaam svar:

18. „Þeim, yður sendi' af sinni hendi segið þèr: Þó húsin full með glóðrautt gull hann gæfi mèr, Mun eg ei gjöra' hið minnsta hèr, Meir en drottins befalníng er".

19. Sömu nótt, þá seggja drótt í svefni var, Balaam beiddi, guð honum greiddi glöggt andsvar: „Til Móabs lands þú með þeim far, Minnstu, hvað eg skipa þèr þar".

20. Ösnu býr og bráðlega snýr með brögnum þá. Eingill hreinn af himni einn, sem hèr skal tjá, Miðri leið þeim mætti á, Mátti' hann ekki Balaam sjá.

21. Asnan hneigir út af vegi, er eingil sèr; Balaam hryggðist hart og styggðist, hún var þver. Himnabúinn fríður fer Fram á leið, þar girðíng ein er.

22. Sinn var garður hár og harður á hverja hlið. Eingill merkur stór og sterkur stóð í mið; Fóturinn kreistist vegginn við, Varð að gánga þannig á snið.

23. Enn fór leingra' á einstig þreingra eingill skær; Asnan veginn eingan veginn

arkað fær. Balaam hana bistur slær, Á bæði knèn því fellur hún nær.

24. Ösnu munni einn, er kunni, upp lauk þá, Himins og láða hæstur dáða herrann sá, Fèkk hún mál og fljótt nam tjá: „Fyrir hvað gjörðir þú mig að slá?"

25. Balaam rjóður, reiðimóður, rètt svo tèr: „Ertu slegin, af því veginn ekki fer; Hefði' eg spjót í hendi mèr, Hefna skyldi dauðinn á þèr".

26. „Eg þín asna, lima-lasna, lúin og þreytt, Frá barndóm þínum bar þig á mínu baki greitt, Hvenær gjörði' eg eins þèr eitt?" „Aldrei fyrri", sagði hann, „neitt".

27. Um þá stundu opnast mundu' hans augun þá Af drottins ráði, rètt svo tjáði ritníng frá, Blessaðan eingil Balaam sá Með brugðnu sverði veginum hjá.

28. Mjög sig hneigði mjúkt og beygði maðurinn brátt. Eingill traustur, tryggur, hraustur talaði hátt: „Hvar fyrir slóstu þrisvar þrátt Þína ösnu' af reiðinnar mátt?

29. Ef hún eigi viki' úr vegi, að vísu hèr Henni hægt eg hefði vægt, en hefnt

á þèr, Vegur þinn ei þóknast mèr". Þar á móti Balaam tèr:

30. „Eg ei þekkti', og það mig blekkti', að þú varst nær; Vík eg frá, ef væri sá þinn vilji kær". Aptur svarar eingill skær: „Orðlof þú til reisunnar fær.

31. Varast skaltu um fram allt", kvað eingill greitt, „Að mæla par fyrir þeingil þar, þó þess sè beitt; Talaðu' ekki annað neitt, Utan hvað eg skikka þèr eitt".

32. Balaam, frá eg, ferðast þá og finnur fljótt Móabs gram, sá gleðjast nam í geðinu hljótt, Bað hann vildi búast skjótt, Og bölvun leggja' á Ísraels drótt.

33. Á fjalls hæðum ei fjærstæðum ölturin há Byggðu sjö, og firna-fe þar fórna á; Til var reynt um tíma þrjá; Takast ekki bölvanin má.

34. Við offrið hvurt gekk Balaam burt frá brögnum snar, Með sama hætti honum mætti herrann þar, Mátti hann ei mæla par Móti því, sem tilskikkað var.

35. Balak reiddist beint og beiddist brátt í stað: Hvorki þessa hata nè blessa',

hilmir kvað, Spámann komst svo orði að: „Ekki leyfir drottinn mèr það“.

36. Spádóm blíðan furðu-fríðan fèkk hann tjáð, Það er rètt með rökum sett í ritníng skráð; Kóngi lagði' hann kænsku-ráð, Kom því seinna refsíngin bráð.

37. Ferðast heim af fundi þeim, sem frá er tèð. Ísrael hart á heiðna snart þá herja rèð, Eyddu fólki' en eignast fèð; Einnig fèll þar Balaam með.

---

## Historía af Jónasi spámanni.

### Fyrri sálmurinn.

Tón: Nú bið eg, guð! þú náðir mig.

Til Jónas spámanns talaði guð: „Tak þig strax upp, sem eg þèr bauð; Bráðlega ferð þín byrjuð sè Í borg þá stóru Níníve, Þú skalt færa þeim fregnir þær, Fordjörfun strax sè búin nær, Hróp þeirra synda heyri' eg þrátt, Hefnd og refsíng þeim kemur brátt“.

2. Þar eptir Jónas þeinkti víst, Þángað vildi hann ferðast sízt, Drottni hugðist að flýja frá, Forðast svo mætti skikkun þá; Leigði sèr far og gjald til gaf, Gekk

strax á skip og lagði í haf, Ætlaði svo í annað land, Um herrans boð ei sinnti grand.

3. Sem þeir nú landi sigldu frá, Sjórinn tók mjög að ýfast þá, Ofur-stormvindur í einum svip Yfir dreif bæði menn og skip; Farminum hratt þeir hrundu út, Hver bað sinn guð með trega' og sút. Jónas í lyptíng lá og svaf, Lítið sig allt um þetta gaf.

4. Skipherrann um það undrast vann, Ofan gekk þá og vakti hann, Sagði: „hvar fyrir sefur þú? Sár lífsnauð að oss geingur nú, Rís upp og þegar þinn guð bið, Ef það má ske, hann veiti lið, Úrræðalausir allir vèr Í þessum stormi töpumst hèr".

5. Af hjarta báðu' og hètu þeir, Hættur stormvindur óx því meir; Ásamt þeim kom, það einhvers völd Yfir þá leiddu hefndargjöld; Hlutfalli varpa hratt í stað, Hjá Jónas síðast lenti það. Óttast mjög, þegar svoddan sjá, Svo við hann allir ræddu þá:

6. „Seg oss, hvað helzt þú hefir gjört, Frá hverri þjóð þú kominn ert, Eða hver

til þess eru rök, Oss hendir slíkt fyri' þína sök?“ „Eg er“, kvað hann, „ebreskur mann, Og svo trúi á drottin þann, Hver himin skapti, heim og sjó, Hvers befalníng' eg gleymdi þó“.

7. Sem hann hið sanna hermdi frá, Hræddir úr máta spurðu þá: „Gjörðu nú sjálfur gjörla' á skil, Gjöra hvað eigum við þig til?“ „Varpið mèr“, sagð' hann, „sjóinn í, Svo verðið þèr úr háska frí; Eg veit, að minna vegna hèr Vindurinn þessi kominn er“.

8. Mótróður þúngan þreyttu þeir, Þá óx stormurinn lángtum meir; Grátandi báðu' af geystum móð: „Guð reikni' oss ei til þess manns blóð“. Svo var Jónas í sjóinn sökkt; Samstundis veðrið mæddist snöggt. Mennirnir óttast mjög við það, Miskunar sèrhver drottin bað.

9. Drottinn sendi einn hvalfisk hratt, Hann kom þángað, sem Jónas datt, Upp svelgði manninn í sinn kvið, Ei stóð þar síðan leingi við. Hann bað og grèt með beiskri þrá; Bænheyrði guð andvörpun

þá. Þrjá daga luktur lá hann þar, Líka svo nætur eins margar.

10. Fyrir guðs orð og almátt hans Aptur fiskurinn rann til lands, Ósködduðum með öllu þó Upp á þurrt landið Jóna spjó. Mikil er, drottinn! miskun þín, Minnstu hèr einnig líka mín, Svo eg frelsaður sýngi þèr Sanna lofgjörð, sem skyldugt er.

## Síðari sálmurinn.

Tón: Náttúran öll og eðli manns.

Annað sinn drottinn eptir það Aptur við Jónas sagði: „Í Níníve þann stóra stað Strax skaltu fara' að bragði, Orðsendíng ber, sem birti eg þèr, Borgarmönnum þar inni; Hann ferðast þá, sem fljótast má; Festi það boð í minni.

2. Þriggja dagferða staðurinn stór Stendur að Níníve væri; Eina dagleið svo út af fór Alvarlega sem bæri, Kallandi hratt:" eg segi það satt, Svo vill drottinn til haga, Borg yðar há umturnast á Innan fjörutíu daga".

3. Bráðlega trúðu borgarmenn, Boð-

skap drottins þá feingu; Úngir og gamlir allir senn Íklæddir sekkjum geingu. Kóngurinn þá, er svoddan sá, Sinn búníng af sèr lagði, Í ösku sat og grátið gat, Gaf skikkun slíka' og sagði:

4. „Ei skulu menn og mállaus dýr Matar nè fæðis neyta, Hver, sem hèr innan borgar býr, Biðji með iðrun heita; Af leggið brátt á allan hátt Illsku og synd margfalda; Má ske drottenn minnist vor enn, Svo megum lífi halda“.

5. En sem guð drottinn alla sá Yfirbót Níníve-manna, Miskunar hrærðist herrann þá, Hann elskar trúna sanna, Ángra sig lèt, það áður hèt, Illsku þeirra að hefna, veitti þeim grið, gaf líkn og frið Gæzkunnar sinnar vegna.

6. Jónas fèkk sèð, sú fordjörfun, Sem fyrir spáð hann hafði, Yfir þá koma ekki mun, Ógæfan leingi tafði; Honum það mest misþóknaðest, mælti með hryggu bragði: „Eg vissi það, og þar kom að, Sem þánkinn mèr áður sagði.

7. Þitt sinni, drottinn! þekki' eg bert, Því vildi' eg undan flýja, Mönnunum jafn-

an mildur ert, Sem mót þèr syndir drýgja; Iðrist þeir nú, þeim þyrmir þú, Þó látir hefnd tilsegja; Spádómsorð það fyrst fann ei stað, Fýsir mig helzt að deyja".

8. Andsvar af drottni aptur fèkk, Að sinnar reiði gætti. Strax síðan burt úr staðnum gekk Sturlaður með þeim hætti; Hreysiskorn þar, því hitinn var, Yfir höfði sèr hann byggði, Og vildi fá með sanni að sjá, Hvað sinn spádómur dygði.

9. Drottinn lèt vaxa ljósan lund, Lángt sínar greinir breiddi, Sá rann þar upp í samri stund, Sæt blómstur þó fram leiddi. Við þetta gras gladdist Jónas, Geðfróa sèr það taldi; Þá sólin hrein sárheitt að skein, Sig í þess skugga faldi.

10. Guð drottinn lèt þá lundinn þann Lítinn orm stínga kunna, Upp visnaði með öllu hann, Ofan fèll strax til grunna; Austanvind greitt, sólskin sárheitt, Senda rèð herrann mildi. Jónas þreyttest og þjáðist mest, Þá sagðist deyja vildi.

11. „Þykist þú, Jónas! reiðast rètt?“ Ræddi guð með þeim hætti, „Þenna lund hafðir þú ei sett, Þín hönd hann ekkert

hætti; Á einni nótt sá upp rann skjótt Aðra þó strax visnaði, Mjög þannig hèr úr máta þèr Mislíkar svoddan skaði.

12. Skyldi eg ekki öllu meir Af venda reiði minni? Tólf sinnum tíu þúsund þeir Þar eru í staðnum inni, Sem eingin skil skynjuðu til Að skipta' um vinstri' og hægri; Nú sjáðu hèr, næsta er mèr Náðin en reiðin þægri.

---

Nokkrar saungvísur
af þeim sèrlegustu
## Krists kraptaverkum.

### I. Um brúðkaupið í Kana. Jóh. 2.

Lagið er, sem við ekkjuró.

Á Galíleu láði Ljóst í Kana-stað Með gegnd og góðu ráði Gjörðist brúðkaup það, Móðir drottins dvaldist þar, Jesús, og svo sveinar hans, Sjálfur boðinn var.

2. Þá nam drykkur þverra, Þetta María sèr, Hún gekk til vors herra, Hógvær þannig tèr: „Son minn kær, þar vantar vín". „Hvað hef' eg með þig?" Kristur kvað, „Komin er stund ei mín".

3. Við þènara þýðust sagði: „Það, sem býður hann, Gjörið brátt að bragði". Birti' eg atburð þann: Steinker sex þar stóðu rètt, Tóku mæla tvo eður þrjá, Til hreinsunar sett.

4. Bölið trúi' eg batni, Býður Jesús enn: „Farið og fljótt af vatni Fyllið kerin senn". Barmafull þeir bera þau inn; Kæmeistaranum færa fyrst Frelsarinn bauð um sinn.

5. Vatn að víni orðið Víst hann smakkar þá, Gekk svo beint fyrir borðið, Brúðgumann kallar á, Hann vissi ekki, hvaðan það var; Öðruvísi, en er nú skeð, Oss til haga bar.

6. Vant er vínið bezta, Að veita allra fyrst, Þar til geðið gesta Gleðst með heiður og lyst; Lèttara síðan bjóða ber. En þú hefir það hið góða geymt, Og gefið seinast hèr.

7. Jesú jarteikn fyrsta, Jóhannes segir það; Hjóna hjartað tvista Hann í þessum stað Gladdi, og sýndi sína dýrð. Honum sè bæði heiður og þökk Af huga' og munni skýrð!

II. Um konúngsmanninn af Kapernaum,
Jóh. 4.

Tón: Gæzku guðs vjer prísum.

Kóngsmann frá Kapernaum Kom einn til Jesú þar, Þá fyrir dögum fáum Frelsarinn geinginn var Beint inn í Kana-borg, Og sagði, son sinn væri Sjúkur og dauða nærri, Því bar hann þúnga sorg.

2. „Trauðlega trúað fáið", Talaði Jesús þá, „Nema þèr nokkur sjáið Nýstárleg jarteikn há". Aptur þá anzar hinn: „Háskinn er harla bráður, Herra! kom þú nú áður, En sálast sonur minn".

3. Huggæði herrann mæddi, Hans nauðsyn gjörla sèr, Við föðurinn frá eg svo ræddi: „Far þú, son þinn lifer". Maðurinn merkti það; Trúði því eina orði, Á það sig reiða þorði, Gekk svo glaður af stað.

4. Hans þjónar honum mættu Heimleiðis vegi á, Húsbóndans hjartað kættu, Hugglaðir mæltu þá: „Sonur þinn lifir ljóst". Hann spyr, nær sorgin sjatnað, Og sóttin hefði batnað; Þeir anza með eingan þjóst:

5. Senn um sjöunda tíma, Svo bar það til í gær, Köldunnar sárum svíma Sviptist hann öllum nær". Þá fornam faðirinn, Í sama mund svoddan skeði, Sem Jesús honum tèði: „Sjá, lifir sonur þinn".

6. Hèr við hann varð mjög glaður Og vel í trúnni hress; Hver hans heimilismaður Honum fylgdi til þess, Krapt herrans kenndu bert. Það Jesú jarteikn annað Jóhannes hefir sannað Í Galíleu gert.

III. Um þann, sem þrjátíu og átta ár lá sjúkur. Jóh. 5.

Með lag, sem píslarminníng.

Heilög var þá haldin ein Hátíð Gyðínganna, Sonur guðs, sem græðir mein, Gánga rèð sjálfur með Til Jerúsalem; svo er skeð Að sið Ísraelsmanna.

2. Í borginni var brunnur sá, Betesda að heiti, Fordyr voru fimm þar á; Fèkkst þeim skjót heilsubót, Sem mæddu alls kyns meinin ljót, Og margir trú' eg þess neyti.

3. Eingill drottins eina tíð Upp rèð

vatnið hræra, Svo hver helzt af sjúkum lýð, Sem að bar fyrstan þar, Ef sig þvoði, alheill var, Eins og barnið skæra.

4. Í fordyrunum, sem frá er greint, Fjöldi sjúkra lýða Var og beið, svo vissi beint, Nær vatnið skært yrði hrært, því lækna vildi lífið sært Af laungum sóttarkvíða.

5. Meðal þeirra sjúkdóms-sár Sagt er maður væri, Þrjátíu öll og átta ár Aumur neyð þúnga leið, Eptir lækníng blíðri beið; Bölið trú' eg hann særi.

6. Þegar Jesús þenna sá, Þar að glöggt nam hyggja, Að leingi hafði þúnga þrá Þolað hann; mæla vann Herrann við þann veika mann: „Viltu lækníng þiggja?"

7. Svara nam hinn sjúki brátt, Sárum haldinn kvíða: „Einn verð eg því eptir þrátt, Einginn hèr bjargar mèr, Annar jafnan fyrri fer, Frekt hlýt eg að bíða".

8. Herrann, þegar heyrði það, Um hann í brjósti kenndi: „Gakktu hèðan heill í stað". Hinn þess naut, minnkar þraut. „Þína sæng þú ber á braut"; Í burtu maðurinn vendi.

9. Sem nú Júðar sáu það, Hann sæng á herðar lagði, Honum gáfu þeir höstugt svar: „Hátíð sú ein er nú, Boðorðin því brýtur þú?“ Beint hann aptur sagði:

10. „Sá, sem hefir mig heilan gjört, Hèðan bauð eg færi; Sjálfur við mig sagði bert: „Sjáðu hèr, tak með þèr þína sæng, því frjáls þú fer“. Þeir frèttu, hver hann væri.

11. Maðurinn kvaðst ei þekkja þann Nè þeim þar framar gegna; Því herrann burtu víkja vann, Þá var hans bætt meinið hætt, Fekk hann þess ei framar gætt Fólks mergðarinnar vegna.

12. Í musterinu maðurinn sá Mætti vorum herra: „Sóttlaus ertu“, sagði' hann þá, „Syndga' ei nú framar þú, Að þig hendi' ei ánauð sú, Nè annað hálfu verra“.

## IV. Um storminn og þann óða mann. Mark. 6.

Tón: gæzku guðs vèr prísum.

Ljúfur með lærisveinum Lausnarinn stè á skip, Hvirfilvind óvart einum Yfir sló þegar í svip; Ókyrrðist hauður og haf,

Undir áföllum lágu, Einga mannhjálp því sáu, En herrann sjálfur svaf.

2. Í þeim lífsháska hræddir Hann fóru' að vekja brátt, Af móð og ekka mæddir Mæltu svo allir hátt: „Hjálpa oss, herra kær! Lát þig ei lítt um varða, Að lægja storminn harða, Svo ekki sökkvum vær.

3. Hann vaknar víst og ræðir Við þá alla senn: „Hvað er það yður hræðir Helzt of veiktrúa menn?“ Og settist upp við það. Þá bauð, að vindurinn þegði, Þjótandi vatn sig legði; Blæ-logn varð strax í stað.

4. Undrast allir við þetta, Er atburð líta þann, Hver annan hèr um frètta: „Hvílíkur er þessi mann? Strax þá hann talar til Höfuðskepnanna, honum Hlýða, svo framar vonum, Hans einu orði í vil.

5. Lendíng í logni feingu Við landið Gadará; Skjótt, er frá skipinu geingu, Skeði tilburður sá, Að kom þar óður mann Af illum öndum hrakinn, Ólmur, vitstola, nakinn; Greinir svo glöggt um hann.

6. Úr járni' og böndum bæði Brotizt opt hafði sá Með grimmd og ógna-æði,

Svo einginn ferðast má Um þann almenníngs stig, Dvalizt á dökkvum heiðum Í dauðra manna leiðum, Lemjandi sjálfan sig.

7. Fram fyrir Jesú fætur Falla hann gjörði brátt; Andinn mjög illa lætur, Æpandi kallar hátt: „Hvað hefi' eg þó með þig, Sanni guðs sonurinn kæri! Svo, fyrr en tíminn væri, Kæmir að kvelja mig?"

8. Þá sagði græðarinn góði: „Grein mèr þitt heiti þó". Andinn mælti af móði: „Mitt nafn er Legíó". Það hafa hyggnir menn Sex þúsund saman teiknað, Sex hundruð þar með reiknað, Sextíu' og sex til enn.

9. Djöflar af döprum trega, Dæmdir í heljar vist, Báðu mjög mikillega Mildastan Jesúm Krist, Fyrst þaðan færi út, Að hann ræki þá ekki Í undirdjúpanna hlekki Með kaldri kvöl og sút.

10. Frelsarans leyfi feingu, Að fara' í svínin þar, Sem um þær grundir geingu, Girnd sú djöflanna var; Þau voru tvö þúsund; Öll strax með ógn og kvíða

Út í vatnið hýða, ‚Og sukku' á samri stund.

11. Svín-hirðar fullir sorgar Settu á flótta heim, Báru þá fregn til borgar Um bagann, sem varð fyrir þeim; Hinir, sem hlýddu á, Undrast og ótta feingu, Almennt úr staðnum geingu, Svoddan tilburð að sjá.

12. Hann, sem var áður óður, Og einga skynsemd bar, Sat nú siðferðisgóður, Sannheill hjá Jesú þar; Landsmenn þá litu hann, Hinir, sem hjá voru staddir, Í huga' og sinni gladdir, Sögðu þeim allan sann.

13. Herrann blind-heimskir báðu Burt að víkja um sinn; Sálargagnsins ei gáðu, Þeim gramdist fjárskaðinn; Svo villtir voru þeir, Hjálparvon sæla hrepptu, Henni viljandi slepptu, En möttu svínin meir.

14. Hann, hver eð læknazt hafði Hèr, sem var áður tèð, Lausnarann leyfis krafði, Að líka færi með; En Jesús sló því af: „Far heldur heim til þinna, Hjálpræðið skalt þeim kynna, Sem guð þèr sjálfur gaf".

V. Um kraptaverk Krists á brauðum milli 5000 manna. Jóh. 6.

Með lag: Einn herra eg bezt ætti.

Yfir um vatnið eina, Sem er í Galíleá, Jesús með sína sveina Sjálfur ferðaðist þá, Tíberías nokkuð nærri (Nafn þetta staðurinn bar), Páskum víst var ei fjærri, Að venju Gyðínga þar.

2. Fylgdi þeim múgur manna Mikill á þeirri tíð, Góðvild hans sáu sanna Við sjúkan og auman lýð; Upp á fjallshæðir einar Endurlausnarinn gekk, Líka hans lærisveinar, Litla stund hvíld þar fèkk.

3. Upp leit hann ljóst að bragði, Lýðs fjölda mikinn sèr, Við Filippum frá eg sagði: „Fólkið matlystugt er; Til kaups hvar máttu meina Menn fái brauðum náð?“ Svo vildi sveininn reyna, Þó sjálfur vissi nóg ráð.

4. Filippus tók að telja: „Tvö hundruð peninga verð Fram þó menn feingi' að selja, Fullnægja mun ei gerð“. Andreas á það heyrir, Einn bróðir Símonar, Vildi ráð veita fleiri, Viðstaddur gaf til svar:

5. „Úngmenni eitt eg kenndi“, Andreas mæla rèð, „Fimm byggbrauð hefir í hendi, Hèr og tvo fiska með, Hvað skal það þó fyrir þessa?“ Þá talar Jesús hátt: „Segið, þeir fái sèr sessa Saman í riðlum brátt.

6. Herrann rèð brauðin blessa, Braut og til himins leit, Fram báru fæðu þessa Fyri svo marga sveit; Allir þeir urðu saddir, Eins af fiskunum með, Og vel í geðinu gladdir, Guðs verk svo feingu sèð.

7. „Leifunum saman safnið“, Sonur guðs þannig tèr, „Og eingu af þeim hafnið, Svo ekkert spillist hèr“. Er það ei undur að heyra, Allt þetta svo til bar, Afgángs var öllu meira, En efnið í fyrstu var?

8. Tólf karfir fullar feingu (Frá eg svo skriptin tèr), Og þær leifar af geingu, Svo ekkert spilltist hèr; Fimm þúsund fæddi’ hin hreina Forsjónin mildigjörn, Karlmenn upp talda eina, Fyrir utan konur og börn.

9. Um kvöldið lèt lærisveina Landinu halda frá, Hann var eptir alleina, Ástarbæn gjörði þá. Mótviðri megnt þá þjáði

Mjög dimmt af nóttu þó; Jesús þar glöggt að gáði, Gekk á þeim djúpa sjó.

10. Nær um fjórðu eykt nætur Nálgaðist Jesús þá; Þeir hafa' á þessu gætur, Þóttust forynju sjá, Upp kalla ótta mæddir, En Jesús anzar kær: „Verið allir óhræddir, Eg er hèr sjálfur nær".

11. Pètur svaraði' og sagði: „Sèrtu það, herra minn! Bjóð þú eg komi' að bragði Beint nú á fundinn þinn". „Far þú", kvað frelsarinn mildi; Forlèt hinn skipið þá, Og gekk, sem greiðast vildi, Glaðlega sjónum á.

12. Báran rèð brátt að stökkva, Bilaði Pètur traust, Hann tók þá senn að sökkva, Sagði með hárri raust: „Hjálpa mèr, herrann blíði". Hann Jesús að sèr dró, Og spyr, því tæpt hann tryði, Til skipsins geingu þó.

13. Orð sitt og búsráð bæði Blessi oss Jesús hreinn, Svo lífs og sálar fæði Seðji þá hvern og einn. Sjá til, eg sökkvi eigi Í synda dauðann hèr, Heldur að hjálpast megi, Haltu við trúna mèr.

## VI. Um þann, er blindur var fæddur.

Jóh. 9.

Lagið: Faðir á himna hæð.

Jesús frá Júða lýð Úr Jerúsalem þá tíð Út gekk, sá öll mein græðir, Um það Jóhannes ræðir.

2. Sat maður sjónlaus þar, Sá blindur fæddur var, Hartnærri herrans vegi Á helgum sabbats degi.

3. Lærisveinar hann sjá, Svo spurðu herrann þá: „Hvort eigin mun illska' hans valda, Eða foreldra gjalda?"

4. „Hvorki (kvað herrann snjallt) Hann sín nè þeirra galt; Guðs verk eiga auglýsast Og á honum að prísast.

5. Verk guðs mèr vinna ber Víst, meðan dagurinn er; Iðju mann einga fremur, Yfir þá nóttin kemur.

6. Eg er ljós heimsins hreint", Herrann talaði beint, „Meðan umgeingni mína Hjá mönnum læt eg skína".

7. Herrann þá hrækti' á jörð, Heilnæm var lækníng gjörð, Saur hrærði saman að bragði, Svo við hans augu lagði.

8. Hann bauð þeim blinda þá, Í brunni

Sílóá þvo sèr skjótlega skyldi, Ef skíra sjón öðlast vildi.

9. Hann gekk og gjörði svo, Greitt nam sín augu þvo, Heilskyggn kom þá heim aptur; Herrans því olli kraptur.

10. Náttúran borin blind Blekkt er af margri synd; Minn Jesús mig upp lýsi, Mèr á hjálparveg vísi.

## VII. Um Lazarum af dauða uppvakinn.

Jóh. 11.

Lagið: Upp á fjallið Jesús vendi.

Jóhannes segir með svoddan hætti: „Sjúkur maður eitt sinn lá, Lazarus, það sorgum sætti, Sá var í Bethaníá; Systur tvær er innt hann ætti, Önnur nefndist Maríá.

2. Hún var það, sem herrans fætur Hentuglega smyrja rèð, Hári sínu svanninn mætur Síðan aptur þurrkar með, Orði lífsins gaf að gætur; Í guðspjallinu svo er tèð.

3. Marta einnig önnur heitir, Orði drottins hèlt sèr að; Lausnaranum, sem lækníng veitir, Lètu segja þegar í stað:

„Sá, þú elskar, sóttin þreytir;“ Svaraði Jesús upp á það:

4. „Ekki' er svoddan sóttin eina Send honum til dauða fyrst, Heldur að drottins dýrðin hreina Dásamlega auglýsist“; Öll þau systkyn', eg má greina, Elskuð voru þó af Krist.

5. Dagana tvo þar tefja rèði, Tilsett var það herrans ráð, Að vilja guðs sú skikkan skeði, Hann skamtar tíma' af sinni náð; Fylgdarmönnum frelsarinn tèði: „Förum nú á Gyðínga láð“.

6. Postular svara með gegndar gildi Gjörla senn á þessa lund: „Gyðínga-fólk þig grýta vildi, Þá gekkstu þar um eina stund; Hvar fyrir girnist meistarinn mildi Meir að koma' á þeirra fund?“

7. „Tímar eru tólf í degi“, Talaði spekin guðdómlig, „Birtu njóta maður megi, Mun sá gánga rèttan stig; Hinn, sem ljósið hefir eigi, Hrasar opt og meiðir sig.

8. Lazarus vor vinur sefur, Vekja fer eg aptur hann“, Þeir segja: „batnað honum hefur, Hvíld og værð ef finna kann“;

Þenna skilníng þánkinn gefur þeim um svefn náttúrlegan.

9. Lausnarinn þeim ljóst nam gegna: „Lazarus dauður er til sanns, En eg fagna yðar vegna, Að ei var eg þar í byggðum lands, Vèr skulum þetta framar fregna, Förum nú og vitjum hans.

10. Tómas postuli tók að segja, Tvíburi sá nefndur var, Lærisveina hug vill hneigja, Hann gaf fyrir alla svar: „Látum oss fara' og líka deyja Ljóst með honum einnig þar“.

11. Kom af guðdóms krapti högum Kristur til Bethaníá, Lazarus fyrir fjórum dögum Framliðinn í gröfinni lá, Úr borg og nánum byggðarlögum Bar að marga Gyðínga þá.

12. Þessir gættu góðrar skyldu, Geingu' í sorgar-húsið inn, Geðsvölunar máli mildu Mæltu (svo eg ritað finn), Hrelldar systur hugga vildu, Harmandi' eptir bróður sinn.

13. Marta heyrði, meistarinn kæri Mildur kæmi' um þetta skeið, Og í nánd að vísu væri, Vildi gánga heim á leið,

Móti honum frá' eg hún færi Fyrst, en María eptir beið.

14. Ángruð Jesú andsvör greiðir: „Ef þú hefðir verið hèr, Bróðir minn (því nauðsyn neyðir) Nú lifði, sá dauður er; En eg veit, hvað um þú beiðir, Allt mun drottinn gefa þèr“.

15. Aptur Jesús anza náði: „Upp skal rísa bróðir þinn“. „Vissulega“, vífið tjáði, „Veit eg af því, herra minn! Hann mun verða lífs á láði, Þá ljómar efsti dagurinn“.

16. „Upprisan og einnig lífið, Er eg“, sagði Jesús þá; „Efalausir um það blífið Allir, sem mig trúið á, Þó fundið hafið heljar kífið, Hver mèr treystir, lifir sá.

17. Sá, hèr lifir enn með anda, Og á mig treystir heimi í, Hættulegt má hel ei granda, Hann skal verða dauða-frí, Sviptur öllum sálar vanda, Segðu mèr, ef trúir því?“

18. „Trúi' eg þú sèrt“, Kvað svanninn grætti, Sonur guðs með helgum sið, Og Kristur sá, Sem koma ætti, Að kvitta' af syndum mannkynið“. Samtal þeirra' að sinni hætti, Svo skildist hún herrann við.

19. Marta hrindir hörðum móði, Heimleiðis með skyndi fer, Við Maríu gjörði mæla' í hljóði: „Meistarinn er kominn hèr, Bíður þín sá græðarinn góði Og gjörir boðskap eptir þèr".

20. Upp stóð María' og með skyndi Út gekk frá þeim múga manns, Svo hún dýrstan drottin fyndi, Dundi vatnið hvarmaranns; Þá var Jesús þýður í lyndi Þar sem María kom til hans.

21. Fólkið sèr, að fljótt úr máta Frá þeim víkur gefni líns, Allra þeirra ein var gáta, Sem efnið greinir hróðrar míns: „Eflaust út hún gekk að gráta Hjá gröfinni hans bróður síns".

22. Til herrans kom með hryggðar talið, Hjartað mæddi sorgin stinn, Ángur í brjósti fann hún falið, Fèll á knè og ræddi' um sinn: „Hefðir þú hjá oss, drottinn! dvalið, Dauður væri' ei bróðir minn".

23. Þegar hann sá, að sorgar-pláta Sárt um hennar brjóstið lá, Fólkið allt í annan máta Ángrað leit þar standa

hjá, Sonur guðs tók sjálfur að gráta, Í sínum anda gramdist þá.

24. Sín á milli margur ræddi: „Má nú sjá hans elsku-geð, Sá, sem blindan gjörla græddi, Gat hann ekki við því sèð, Að dauðinn svo yfir einn mann æddi?" Almúginn það mæla rèð.

25. Lazarus hvar lagdur væri, Lausnarinn svo spurði að; En þeir svara svo, sem bæri: „Sjá þú, herra! þenna stað". Miskun trúi' eg hjartað hræri, Hryggðist Jesús enn við það.

26. Til grafarinnar herrann hreini Hèr næst sjálfur gánga vann, Hún var byrgð með stórum steini, Strax bauð þeim af taka þann, Svo þeir gjörðu, sem eg greini; Sagði Marta þá við hann:

27. „Líkið finn eg fúlna' um síðir, Fjóra daga hèr það lá". Orðum þessum herrann hlýðir, Henni aptur gegndi þá: „Sagdi' eg ekki, ef þú tryðir, Að þú mundir guðs dýrð sjá?"

28. Til himins leit þá lausnarinn mildi, „Lofuð sè, faðir! gæzkan sú, Hvers eg af þèr óska vildi, Um það mig bænheyrir

þú, Eg tala, svo fólkið trúa skyldi, Til þeirra mig sendir nú“.

29. Lausnarinn kallar ljósum hljómi: „Lazarus, þú kom hèr út“. Hinn dauði hlýddi drottins rómi Döprum reyrður líkbandshnút; „Leysið hann“: kvað herrann frómi, „Svo hèðan gángi firrtur sút“.

30. Júðar margir trúa tóku, Táknið slíkt er sáu þeir, Ljúfum Jesú lotníng jóku, Lofstír þessi aldrei deyr; Faríseamir svika-klóku Sig forhertu æ því meir.

31. Því eg treysti, og það er mín trúa, Þú ert, Jesú! lífið mitt, Þá hèðan burt frá heim skal snúa, Held eg mèr við orðið þitt; Sálunni virztu sælu' að búa, Svo hún verði' af nauðum kvitt.

---

Stutt innihald

pínu og dauða.

## drottins vors Jesú Krists.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Mèr er af hjarta minnistætt Miskunarverkið það, Jesús var staddur í hryggð-

um hætt, Harmandi þrisvar bað; Gyðínga lið þó geingi' að hrætt, Greip hann og batt í stað, Sálin hans var af sorgum grætt, Sár pínan gekk þar að.

2. Hann hefir dregið, hrakt og hrjáð Harðsvíruð Júða drótt, Með lygum, spotti, hróp' og háð, Hrækjandi á hann skjótt, Var honum hvorki værð nè náð Veitt um þá dimmu nótt; Allt hann fordæmdi andlegt ráð; Ei gekk sú ræðan hljótt.

3. Heiðnum dómara' í hendur fèkk Herrann sú grimma þjóð, Almúginn fram þar allur gekk, Æpti með samfelld hljóð: „Fær hann á kross og kvala-bekk, Komi' yfir oss hans blóð", Morðíngja lífgjöf meir var þekk, Mjög hætt þá kvölin stóð.

4. Ó, hvað grátlegt aumkunar-vert Eitt var, sem þar til bar: við harðan stólpann streingdur þvert Stóð vor lausnarinn þar, Hæsta guðssonar holdið bert Húðstrýkt með svipum var, Æðar, skinn, hörund og svo skert, óskaddað fannst ei par.

5. Þyrnikórónan sviða-sár Sundur

hans ennið sleit, Blóðið upp fyllti augun klár Og allan sjónar-reit; Frelsarinn bæði fölur og blár, Forsmán hverjum, hann leit; Lastorð slög, spèlni spott og dár Sparaði' ei þræla-sveit.

6. Trè fimmtán fóta lángt var ljóst Lagt á hans herðar hratt, Breitt fjögra álna þúngt með þjóst, Það herma bækur satt, Uppgefinn var með örmætt brjóst, Undir því þrisvar datt, Um síðir fram þá ferðin dróst Á fjallið Golgata bratt.

7. Særður í kulda klæðlaus þó Kristur sat lánga tíð, Á meðan öll til böðullinn bjó Bana-verkfærin stríð, Örþyrstum munni einn að dró Edik, gallblandað níð, Oddbrotna nagla öldin sló Í hönd og fót um síð.

8. Krossfestan hæddu höfðíngjar, Og hver, sem þar gekk hjá, Harmkvæli þúng og háðúng bar Herrann um tíma þrjá, Síðan burtslitin sálin var Syndlausu holdi frá, Hjartað sárbeittur broddur skar, Blóð og vatn rann út þá.

9. Lastorð og brigzl framliðinn fèkk, Falsara sögðu hann, Flokkur prestanna

fyrir því gekk, Fundu landsdómarann, Báðu, að geymd sè gröfin þekk; Gánga svo ella kann, Lærisveinarnir fylltir flekk Flytji burt líkamann.

10. Hermenn vopnaða hann lèt strax Halda mjög sterkan vörð; Þar vakti inn til þriðja dags Þjóðin sú illsku-hörð. Drottinn reis upp til dýrðar hags Frá dauðum þegar úr jörð Og sannrar guðs dýrðar samfèlags. Sè honum þakkargjörð.

11. Gleym ekki þessu, sál mín sæl! Svoddan vel merkja skalt, Sonurinn fyrir sekan þræl Saklaus leið þetta allt; Slíkri hans elsku hrósa', og hæl, Af huga' og munni snjallt; Sigurvers Kristí sýng og mæl, Sætt fagnandi ávallt.

12. Ljúfasti Jesú! lof sè þèr, Sem leiðst þann sára deyð, Hvar með þú hefir hjálpað mèr Úr hættri kvöl og neyð; Lát þú mig jafnan lifa, sem ber, Lasta-bönd af mèr greið, Elsku-faðm þinn, þess óska' eg hèr, Yfir sál mína breið.

## Út af upprisuhistoríunni.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Hjartað fagnar og hugur minn, Herrann Jesús er upprisinn, Kvöl þó á krossi ætti; Árla sunnudags er það skeð, Áður en sólin lýsa réð, Af guðs dýrðar almætti; Þýður, Fríður, Eingill kemur, kraptinn fremur, klárt eg greini, Af gröfinni velti þeim stóra steini.

2. Jarðskjálfti mikill skeði þar, Skærasta ljóma eingill bar; Varðmenn þá svoddan sáu, Ótta miklum yfir þá sló, Afl og styrkleika frá þeim dró, Líka sem dauðir lágu; Þegar Vegar Ljósið skapta lífsins krapta loksins feingu, Heim í borgina hryggvir geingu.

3. Höfuðprestana hittu senn, Hermdu öll þessi tíðinden, Hinir þeim hètu gáfum. Segið: „að lærisveinarner, Sóttu líkamann burt með sèr, Þegar vèr þreyttir sváfum"; Hraðir, Glaðir Gjaldið þiggja, þar að hyggja, síðan sögðu, Líka sem Júðar þeim ráðin lögðu.

4. Áður en dagurinn upp rann klár, Út geingu' af staðnum kvinnur þrjár, María

Magðalena, Móðir Jakobs hins minna var Með þeim líka Salóme þar, Þær hugðust Kristi þèna, Hryggvar, Dyggvar Lausnarans vildu, að ljúfri skyldu, líkið smyrja, Hver rèð aðra þá hljótt að spyrja:

5. „Hver mun burt velta hörðum stein? Hindrar sá oss á marga grein; Þegar sem litu þángað, Opin stóð gröf, en eingill var Alhvítu klæddur líni þar, Hræðsla rèð hjartað fánga". „Hljóðar, Móðar, Hryggvar kvinnur", sagði svinnur, „syrgið eigi, Upprisinn Jesúm eg yður segi".

6. Kvinnurnar glaðar geingu heim, Græðarinn Jesús mætti þeim, Segjandi: „verið sælar"; Þær fèllu síðan fram til sanns, Á fætur kysstu lausnarans; Hann rèð hýrlega' að mæla: „Eg bið, Að þið Mínum blíðum bræðrum þýðum brátt það innið, Í Galíleu þèr fyrst mig finnið".

7. Magðalena á meðan fer Mjög fljótt Þángað, sem Pètur er, Og Jóhannes með honum, Sagði: „líkamann sælastan Sjá hvergi eg nè finna kann, Burttekinn væri' hann vonum;" Báðir, Þjáðir, Undrast

þetta, er það frètta, og án tafar Út þángað geingu öll til grafar.

8. Fyrstur Jóhannes fram kom þar, Fornam, að gröfin opin var; Pètur þá greitt inn geingur, Sáu þar lögð línklæðin mjúk, Líka og Jesú sveitadúk, Forundrun af því feingu, Allskjótt Og fljótt, Aptur snúa og því trúa öllu' að sönnu, Burt muni líkið borið af mönnum.

9. Æpandi María úti stóð, Inn í gröfina horfði fljóð, Einglum tveim gaf að gætur; Varð hún nú hrædd og við leit þá, Vaktarann garðsins hugðist sjá; Hann spyr strax, hvað hún grætur. Hún kvað: „Helzt það, Minn herra þýður, hjartans blíður hèr finnst eigi, Efnið sorgar eg það segi.

10. Hafir þú borið hann burt með þèr, Bið eg þú, herra! segir mèr, Svo eg hann þángað sæki". Maðurinn svarar: „María!" „Meistari!" sagði hún aptur þá. Ei leyfði á sèr tæki; Öll hryggð Og styggð Snýst í gleði, skjótt það skeði, er Kristum kenndi; Heim til postula hana sendi.

11. Hún kom strax og þeim kunn-

gjörðe, Kristur af dauða risinn sè, Atburði alla sagði; Hinar konurnar hermdu með, Þær hefðu líka Jesúm sèð Lífs og í ljúfu bragði. Þetta Rètta Villu hèldu, hug sinn hrelldu herrans sveinar, Sjónhverfíngar það sögðu einar.

12. Til Emaus geingu einir tveir, Um herrans pínu tala þeir, Það skeði' á þessum degi; En svo til bar, sem segi' eg frá, Sjálfur Jesús nálægðist þá, Þó að hann þekktu eigi. Hann spyr Hugkyr: „Hvaða hjalið, hryggðartalið hafið bræður?“ Kleófas anzar með klökkri ræðu:

13. „Ertu einn svo ókenndur mann Í Jerúsalem, að gjörning þann, Sem er fyri skömmu skeður, Veiztu ekki?“ en hann spyr að; Honum Kleófas sagði það: „Jesús, sem oss var meður, Hæstur, Æðstur Af spádóms orðum og gæzku-gjörðum fyri guði' og mönnum, Á krossi deyddur, það sjálfir sönnum.

14. En nú í morgun árla víst, Áður en fèkk af degi lýst, Kvinnur frá oss út geingu, Lifanda sögðust líta hann, Lík-

legt það eingum virðast kann, Felmt af því allir feingu". Heimska, Gleymska Kvað þá báða kóngur dáða, kenndi síðan, Kristur svo hefði hlotið að líða.

15. Alla ritníng út leggja rèð, Opnaði þeirra hugskot með, Skriptina glöggt svo skilja. Kauptúnið allir nálgast nú, Nær því enduð var leiðin sú, Gánga lèzt leingra vilja. Beiddu, Neyddu Krist að bíða, kváðu líða' á kvöldið næsta, Inn með þeim geingur mildin hæsta.

16. Settist til borðs og brauðið þar Blessaði, sem hans siður var, Og síðan að þeim rètti. Báðir í senn hann þekktu þá, Þeirra sjónum hvarf burtu frá; Harmi úr huga lètti; Hraðir, Glaðir Postulum hinum, herrans vinum hèr frá sögðu, Eingan trúnað þeir á það lögðu.

17. Á sömu stundu það svo til bar, sjálfur Jesús var kominn þar, Og mitt í miðið stendur, Þeim óskar friðar þessu næst, Þá var dyrunum aptur læst, sjá lèt á sínar hendur. En þeir Því meir Urðu fegnir, óttaslegnir, og því trúa, Grát rèð öllum í gleði snúa.

18. Ekki var Tómas þá með þeim; En þegar seinna hann kom heim, Þeir sögðu allt hið sanna; „Aldreì trúi' eg,“ hann anza rèð, „Utan að nagla-förin sèð Fái með fíngri kanna;“ Liðu, Biðu Átta dagar, dýrð svo hagar drottinn sætur; Að luktum dyrum kom mildur, mætur.

19. Hjá þeim stóð herrann hýr í mið, Hèr næst Tómas svo ræddi við, Og vill hann verði glaður: „Í naglaförin lát fíngur þinn, Fljótt legg mèr hönd í síðu inn, Vert ekki vantrúaður. „Drottinn, Guð minn!“ Sagði dyggur, trúartryggur tvíburinn fríður, Aptur Jesús þá anzar blíður:

20. „Sannlega, Tómas! trúðir þú, Tilsýnd mín þessu olli nú, Og eg enn framar segi: Sæll er sá, hver mig sèr ei hèr, Samt þó af hjarta treystir mèr, Huggun svo hljóta megi. Fleiri, Meiri Jarteikn hrein fyri sínum sveinum síðar gerði, Öll þó að greind hèr ekki verði.

21. Við Genezarets vatnið brátt Voru þeir þá að fiskidrátt, Enn sig opinberaði. Pètur aðspurður þrisvar þar Því

jataði, sem vonlegt var, Að hann Jesúm elskaði. Býður þýður, Lífsins brauði sína sauði Símon fæddi; Um hans dauða og útför ræddi.

22. Fjörutíu daga drottinn rèð Dveljast hèr lærisveinum með Eptir upprisu dýra, Til himna síðan hèðan stè, Hjá hönd föðurs almáttugre Situr vor hjálpin hýra. Amen, Amen, Allar tíðir lofi lýðir lausnarann góða, Honum skal jafnan heiðurinn bjóða.

---

# ANNAR PARTURINN

inniheldur nokkra
guðrækilega og andríka sálma.

---

## Fyrsti flokkur,

sem hefir í sèr
tvo nýárssálma, kvöld- og morgun-lofsaungva og einn sjóferðasálm

---

### Nýárssálmur, kveðinn 1652.

Lagið; Lausnarinn Jesús lýðinn kunni.

Árið hýra nú hið nýja Náðar-góður sendi landi voru guð. Þrautir láti frá oss flýja, Fargi sorgum, endi grand og eyði nauð. Alla fylli gleði-gæðum Gæzka' og miskun drottins blíð, Í fastri ást og friði' af hæðum Stöðugir stæðum, Oss hann blessi ár og síð.

2. Jesú prísað nafn eg nefni, Nýtt ár þetta komið heimi vígi' er bezt, Styrki verk og stofnuð efni, Styðji, græði, auma

geymi mildin mest, Barn umskorna dýrum dreyra Dreyfi yfir hjörtun mædd, Syndagrand og fárið fleira Fjær að keyra Virðist dýrðin gæzku gædd.

3. Nýtt ár þetta gleðilegt greiði Guð á hæðum vorum kæra kennidóm', Sauði fæði, lýðinn leiði, Að lifi' í hófi, gjöri' og læri verkin fróm; Hjörðin verði hlýðug ráðum Hollum öllum þeirra mest; Vaxi flugs að fríðum dáðum, Frið og náðum, Út svo rætist vonzkan verst.

4. Yfir-ljúfa-menn á minnist Mildivaldur drottinn, máttar herra hár, Siðaprúðir sannleik kynnist, Syninum þjóni, létti þrátt og bræðin sár; Öll í stillíng lögin lagi Ljúfir, gæfir fróma við, Lasta sízt þó vegi vægi, Hneigi hagi, Að góðir lýðir finni frið.

5. Raunir hjóna mjúkust mýki Miskun ferska græðarans lýða fyr og síð, þolgeð helgað vaki; víki Vílið, bölið neyðin, kvíði; hverfi stríð; Börnin einnig blíður náði Og blessun vissa láti fá Faðirinn dáða' í friðar ráði, Leiði' á láði Með lífi' og gæfu stóra' og smá.

6. Yður gleði-árið hýra Öllum heillum gefi vafið Jesús kær; Menn og kvinnur klára, skíra Kristí ást þèr ljúfa hafið firr og nær, Undir hendi hvílið sælir Heillafullri drottins hèr; Eingan ángurs kulið kælir, Tál nè-tælir, Þann af henni hulinn er.

7. Oss nú blessi græðarinn góður Og gáfur ljúfar sínar hreinar einnig með, Láðið, löður gæði gróður, Glatt sè lopt, ei píni neinar plágur fèð; Neytum ætíð lítillátir, Lofið gefum drottins náð, Í guði blíðum kætumst kátir, Mætast mát er; Holl þau allir reyni ráð.

8. Kasti verstu kostum lasta Kristur beztur, hæstur, mestur fólki frá, Víst svo traustið festum fasta Fyrst og sízt þeim glæsta gesti ætíð á; Ást þýðasta brjóst ei bresti, Bistur þjóstur horfinn sè, Geystum lasta-gusti fresti Losta lestir, Flestir næsta falli' í hlè.

9. Unni sannur oss og blessi, Öllum heillum fylli sæll emanúel. Í kvíða, nauð og krossi hressi, Þá kvilla-fullum vill ódæll hèr vinna vèl; Svinnir menn og

myndug kvendi! Máttugan drottin lofið títt, Honum einum oss afhendi, Amen, sendi Yður Jesús árið blítt.

## Annar nýárssálmur.

Lagið: þökk sè þèr góð gjörð,

Árið nýtt nú á Í nafni Jesú sæta Byrjast blítt; þú þá þess vel skyldir gæta, Segjast vítt sú má Sælu fregnin mæta, Sem böl kann bæta.

2. Guð og mann móðir, Mey í heiminn fæddi, Vorn blíðan bróður, Sem bezt öll meinin græddi, Heimsins hann þjóðir Helgri blessun gæddi, Þó áður eymd mæddi.

3. Fólki frið hreinan Fekk af dýrðar mætti, Og guð við einan Allt mannkynið sætti, Sælu sið beinan Sýndi' og hjartað kætti, Brot synda bætti.

4. Jesús hann heitir, Hjálp og frelsan lýða, Sælu sann veitir Og sviptir öllum kvíða, Um lögmáls bann breytir, Blessun gefur fríða Með miskun blíða.

5. Nafn það sætt sanna Sælu' og gleði færir, Hörmum hættanna Haglega

fortærir, Alla ætt manna Endurlífgar, nærir, Sorg þá ei særir.

6. Árið nýtt nafn þitt, Náðar herrann góði! Gefi' oss blítt, gagn sitt Í glöðum friði bjóði, Nákvæmt, þýtt, við nauð kvitt, Svo notkist manni' og fljóði Lán og lífs gróði.

7. Himin, láð, haf, flóð, Hverja skepnu' og eina, Foldar sáð, fjársjóð Og frjóvgun landsins hreina Blessi náð guðs góð Og græðíng veiti beina Án móðs og meina.

8. Kirkjustètt kæra, Kennimenn í landi Lát oss rètt læra, Lifnað sinn hver vandi, Svo uppsett skæra Sannleiks skin ljómandi Stillt jafnan standi.

9. Skikkun lands-laga, Lýðs og stjórnar-ráða, Yfirmanns aga Til æðstu heilla dáða Virðist hans haga Höndin líknar-bráða, Er einn allt má náða.

10. Hjónin, hjú, börn blíð, Bæi' og lýð um grundir Hönd Jesú fræg, fríð Friði' á allar lundir; Vor sè trú vernd þýð Vængjum drottins undir Lífs lángar stundir.

11. Í háska' og hryggð kvöldum Herr-

ann Jesús vægi, Í ótta' og blygð öldum Ástin drottins hægi, Í stríði' og styggð dvöldum Styrk veiti, svo nægi, Og allt vel lagi.

12. Við hrekkja háð-syndum Hlíf oss, Jesú blíði! Frá huga bráð-blindum, Bræðra heipt og níði, Glæpa grá-lyndum Guð-leysíngja-lýði, Róg, ráni, stríði.

13. Himins hnoss snjalla, Helgast meyjar sæði Oss geymi alla Frá óvina vèl-ræði. Kunni' á kross falla, Svo kreinkja hjartað næði, Guðs náð það græði.

## Morgunsálmur.

Lagið: Einn guð skapari allra sá.

Á morgna, þegar árla upp stá, Eins á kvöldin, þá hvílast á, Gef eg mitt líf og líka önd, Ljúfi Jesú! í þína hönd.

2. Sálin hvílist og huggast mín, Herra Jesú! í benjum þín; Bið eg: „saklausa blóðið þitt Blessi og helgi lífið mitt.

3. Kristur! sem þoldir kvöl og pín, Keyptir mèr frið með blóði þín, Í vöku' og svefni vert mèr hjá, Vernda mig öllum háska frá.

4. Guðs eingla skari skýli mèr, Svo skaði mig ekki djöflarner, Í mínum krossi' og meðlæte Minn drottinn Jesú hjá mèr sè.

5. Hvort heldur lifi hèr eða dey, Hjartað mitt við því kvíðir ei, Glaður því mína gef eg önd, Guð sannleiksins! í þína hönd".

## Kvöldsálmur.

Lagið: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Líknsami guð og herra hár! Hvers vald og makt um eilífð stár, Vèr biðjum í Jesú nafni nú, Náðarheyrn þinni til vor snú.

2. Ljósið dagsins enn dregst oss frá, Dimmu náttmyrkri yfir brá, Líkaminn hvíldar leita fer, Lèttir þjáníngar svefninn er.

3. Þakkargjörð blíða börn þín nú Bjóða þèr öll með sannri trú, Þóknist þèr, faðir! fórn sú víst Fyri vorn herra Jesúm Krist.

4. Lof sè þèr, guð! fyri liðinn dag; Líknin þín góð vorn auman hag Vernd-

að hefir frá hryggð og neyð, Háskasemd lífs og bráðum deyð.

5. Forlát þú oss nú, faðir kær! Fjölda synda, sem gjörðum vær, Leynd og opinber afbrot vor Afpláni nú þín gæzkan stór.

6. Erfiði vort og vinnulag, Vèr sem nú höfum gjört í dag, Eptir sèrhvers manns embætte, Í þínu nafni blessað sè.

7. Gef oss nú, drottinn! góða nótt, Geym og vernda frá kvöl og sótt, Frá bráðum dauða' og beiskri pín Bevari' oss alla náðin þín.

8. Freistíngum djöfuls frá oss snú, Forynjur vondar burt rek þú, Óværðardrauma ógnir þær Aldrei lát þú oss koma nær.

9. Lát þú oss dagsins ljómann hinn Líta að morgni, drottinn minn! Svo með fögnuði þjónum þèr; Þess nú af hjarta óskum vèr.

10. Góz, heiður, lífið, æru' og önd, Ó drottinn guð! í þína hönd Befölum vèr með traustri trú, Til vor náð þinni jafnan snú.

11. Guðs föðurs mildi, gæzka' og náð, Guðs sonar Jesú hjálpar ráð, Guðs heilags anda hlífðin traust Hjá oss staðnæmist endalaust.

12. Heilög guðs þrenníng hlífi' oss nú, Og haldi fast í rèttri trú, Að hljótum síðan himna vist Hjálparann fyrir Jesúm Krist.

13. Amen, þess allir óskum vèr, Amen, vor drottinn! lof sè þèr; Amen sè það, sem eg nú bað, Amen, Jesús bænheyri það.

## Annar morgunsálmur.

Lagið: Mikilli farsæld mætir sá.

Lofi þig, drottinn! himininn hár, Og heilög eingla sveit, Allar þjóðir um allar krár, Alstaðar lands um reit; Því sannleikinn þinn og miskun mest, Mildi og tignin klár Yfir oss öllum er staðfest Eilífa tíð og ár. Svo er og líka, sála mín! Sönn og fullkomin skylda þín, Lof drottins bæði hátt og hljótt Á hverri stund að tjá; Aldrei lát þèr það gleymast gott, Gefins sem lèt þig fá; Hann hefir upp á nýtt í nótt Nauðum þèr bjargað frá.

2. Lofaður sèrtu, lifandi guð! Fyri liðna næturstund, Og það veröldin uppljómuð Er nú af dagsins fund; Sól nú í heiði skæru skír Skinið sitt veitir hlýtt, Fuglar loptsins, fiskar og dýr Fagna þeim geisla blítt; Skógtrèn, grösin og liljur lands Lifna og gleðjast víst til sanns; Þetta til dýrðar, drottinn! þèr Daglega þjónar allt, Æ hvað skyldara mun þá mèr, Að mikla þitt nafn ávallt, Guðs að líkíng sem gjörður er, Og gefið lífið snjallt.

3. Lof, heiður þèr og þakkargjörð, Þrenníngin eðla blíð! Viljugur skal eg vanda' á jörð Varandi lífs um tíð; Þú hefir jafnan hjálp mèr veitt Úr háska' og dauðans pín, Frá myrkrunum til ljóssins leitt; Lofuð sè gæzkan þín. Óvina minna afl og slægð Afmáð hefir þín guðdóms frægð, En þótt þeir byggi efnið vant Með allri svika þrá, Að mèr þú, drottinn! gættir grant, Grimmd þeirra bægðir frá, Rángferðugra sem ráðum kannt Raska, svo hvergi ná.

4. Sem mig í nótt fyrir líkn og lið

Lèzt njóta máttar þíns, Eins nú í dag um náð eg bið Í nafni frelsara míns; Hindra þú umsát andskotans, Sem elskar lygi' og morð, Svo verði sízt að vilja hans Verk mín, þánkar nè orð. Gefðu mèr, drottinn! hjartað hreint, Hugsa og stunda ljóst og leynt; Lagaboð þín, sem lèzt oss fá, Og lífsins braut eg skil; Í dag og hvern dag hèðan í frá Halda þau gjarnan vil, Því Davíð segir sæla þá, Sem þar hafa lystíng til.

5. Blessa þú, guð! mitt kvinnu-ker, Og kæru börn á láð, Blessaðu allt, hvað hefi' eg hèr Hlotið af þinni náð; Blessa virztu minn búskaps hag, Byrgðir og matar-faung, Blessa útvegi' og vinnulag, Svo verði' ei hegðan raung; Blessunar æðsti brunnurinn! Blessaðu mig í sèrhvert sinn, Sè eg á ferð um sjó eða jörð, Sit, geing eður kyrr stend, Hönd þín yfir mèr haldi vörð, Háska öllum frá vend; Gef, svo með þýðri þakkargjörð Þín náð sè viðurkennd.

6. Í forsjón þína' og föðurhönd Fel eg nú, drottinn! hèr Líkama minn með

lífi' og önd, Lán allt og heilsukjör: Mitt svo eg akti starf og stètt, Stjórnaðu minni lund, Hèr með einnig mig haldi rètt Á hryggðar og gleðistund. Kristnihald mitt kærleik' og trú Með krapti þínum, ó Jesú! Auka jafnan og efla virzt, Upp á það sál mín fróm Dýrðarleg fái fyri þèr birzt, Þá ferðu' að halda dóm; Kom, herra Jesú! kom sem fyrst, Klárt gjör allt synda gróm.

7. Dauðans þegar eg nálgast nótt, Náðugur vert mèr hjá, Með bærilegri banasótt Benda virztu mèr þá; Í faðmi sællum að sofna þín, Sæti faðir! eg kýs, Óttalaus er þá öndin mín, Og eilíf gleði vís; Síðan í lambsins ljóma klár Lofi hún þig um eilíf ár; Þú, sem að allt með orði ber, Einn guð og þrenníng há, Samhuga allir sýngjum þèr Sigurvers himnum á; Valdið þitt, dýrð og æran er, Amen, halelújá.

## Annar kvöldsálmur.

Lagið: Ó guð, sem geymir Ísrael.

Ó Jesú! þèr sè þökk og lof Fyrir þína

ást og náðargjöf, Vel hefir þú minn veikan hag Verndað og geymt um þenna dag.

2. Slysni eingin mig henti hèr, Hlífð drottins míns það veitti mèr, Satan fèkk ei að orka neins, Sem önd' og lífi var til meins:

3. Jeg vil fyrir það, Jesú kær! Játa þèr vegsemd fjær og nær, Af hjartans munni hug' og raust; Haldist þín virðíng endalaust.

4. Eilífan bið eg almátt þinn, Ástkæri Jesú! herra minn, Fyrirgef öll mín afbrot ljót, Í dag sem framdi' eg þèr á mót.

5. Dagsvinnan mín, sem drýgði' eg hèr, Drottinn minn góður! þóknist þèr; Efli þín blessan allt mitt ráð, Auk mèr von, trú og kærleiks dáð.

6. Geymdu mig, drottinn guð! í nótt Frá grimmum voða, kvöl og sótt, Svo óvin gjöri mèr eingin grönd, Yfir mèr sè þín hjálparhönd.

7. Lukkuna, heilsu, lán og fèð, Líf og sálina einnig með, Umsjón þinni eg allt það gef, Óhræddur síðan ligg og sef.

8. Í drottins nafni' eg hvílist hèr, hafðu ó Jesú! gát á mèr, Eg fel mig þinni elsku enn Og alla þína kristna menn.

9. Lof sè föðurnum lesið og tjáð, Lof sè vors herra Jesú náð, Lof helgum anda allan tíð, Amen, lof sè þèr, þrenníng blíð!

---

## Dagleg andvarpan.

Lagið: Hver, sem að reisir hæga byggð.

Heilla ljúfasti herra minn, Hjartans útvaldra yndi! Upp veki mig nú andinn þinn, Endurnæríng svo fyndi; Eg er manneskjan alsaurguð, Afplána það, lifandi guð! Gef mèr glaðværðar lyndi.

2. Ásetníng minn og iðjulag Eg þeinkti að lagfæra, Þèr til dýrðar að þjóna' í dag, Það veiztu, náðin skæra; En hvernig hefi eg, aum mannkind Áreitað þig með margri synd, Það virztu að lagfæra.

3. Lífdaga minna lýtin öll Lækna þú, drottinn blíði! Og mig hvítfága eins og mjöll, Eingu svo meini kvíði; Æ, mig ángrar af allri rót, Að eg gjörði þèr syndga mót, Heilla faðirinn fríði!

4. Lángar mig nú af lífi' og sál Lausn hjá þèr, drottinn! finna; Þèr er nú, faðir! meir en mál, Meinanna bót á vinna; Sætasti brunnur svölunar, Signað herbergi vellystar! Lát mig þèr lofgjörð inna.

5. Græði nú öll mín synda sár Signaðar Jesú undir, Himneska föðurs höndin klár, Hún sè yfir og undir; Ókvíðin er þá öndin mín Í blíðum náðar faðmi þín; Líði svo lífsins stundir.

6. Rèttlætis fagur kvistur klár, Kon-úngur dýrðar sæti, Einglafegurð um eilíf ár, Utvaldra sálarkæti, Allra trúaðra elska' og von Er Jesús guðs og Maríu son; Gef þess eg jafnan gæti.

7. Innræt þú, drottinn! orðið þitt I mitt hjarta og sinni, Það sè lífdagaljósið mitt, Lifnað svo bæta kynni; Eptir því lát minn greiðast gáng Í gæzku þinnar og náðar fáng, Þar svo þèr þakkir inni.

8. Miskunar þinnar mjúku náð Mikla eg æfi mína, Mildasti Jesú, meyjar sáð! Minnstu á barnkind þína; Faðma mig

að þèr, faðir minn! Fyrir eingetinn soninn þinn, Lát ekki liðsemd dvína.

9. Set eg nú allt mitt traust og trú Til þín, minn Jesú góði! Að mig af ástsemd elskir þú, Og á dreifir þínu blóði; Æ meðan varir æfin mín, Út breiða vil eg lofgjörð þín Bæði hátt og í hljóði.

10. Andvarpan þessa, æðsti guð! Álíttu' í miskun þinni, Hjástoð veittu í hverri nauð, Hygg að grátbeiðni minni; Láttu mig ætíð lifa þèr, Líka deyja, þá burtu fer. Lof þitt aldregi linni.

## Sjóferðasálmur.

Lagið: Náttúran öll og eðli manns.

Drottinn líknsamur herra hreinn, Hjálparinn allra manna, Þú, sem að ræður öllu einn, Ástsemdar mildin sanna, Bænheyr þú mig, þess beiði' eg þig, Í blessuðu Jesú nafni, Með ljúfri náð og legg á ráð, Um lífs og sálar efni.

2. Þín náð það hefir svo til sett, Að sèrhver skyldi læra Embætti sitt að iðka rètt Og með handbjörg sig næra Um land og sjó, en liðsemd þó Lofaðir þeim

að veita, Sem treysta þèr og síðan sèr Sinnar atvinnu leita

3. Nú vil eg eptir orði því Í trausti náðar þinnar Á hafsins bylgjur fara frí, Fæðu leitandi minnar; Sjáðu mig nú, sæti Jesú! Svo einginn háski grandi, Til og frá hèr hjálpa þú mèr Hættulaust aptur að landi.

4, Og sem þú gjörðir áður fyrr Óstyrkum lærisveinum, Þegar stormvindur þeygi kyrr Þagnaði fyrir þèr einum, Svo álít mig, nær ýfir sig Aldan og veðrið bleika, Hasta þar á, en hugga þá Hjartað mitt trúarveika.

5. Varðveittu mig og veg minn greið, Vernd þín yfir mèr standi, Frá beiskri sorg og bráðum deyð Bæði á sjó og landi; Jesús minn trúr! eymd allri úr Einn kanntu mig að leysa, Vertu mèr næst, þá hèr sem hæst Hafsins bylgjurnar geisa.

6. Stóran brim-sjó og sterkan vind Stöðvi þín mildin sæla, Illra stórfiska ógna mynd Ei lát mig kunna fæla; Vængja skjól þitt, fyri varðhald mitt,

Vil eg mèr gjarna kjósa, Svo megi' eg frí af fári því Frelsun þinni bezt hrósa.

7. Því vil eg leystur lofa þig Lífsins um tíðir mínar, Þar heilög guðs börn halda sig, Heiðrandi náðir þínar; Þakkoffur eitt í veikleik' veitt Virztu af mèr að þiggja, Eilíf náð þín á armi sín Unni mèr jafnan liggja.

8. Jeg geing til skips í Jesú nafn', Jesús minn hjá mèr blífi, Helgra guðs eingla heilagt safn Hræðslu og sorg burt drífi, Mig fel og þá, sem mèr eru hjá, Míns Jesú sjálfs í hendur; Verum til friðs, væntandi liðs, Vernd hans yfir oss stendur.

9. Í guðs nafni og ótta enn, Eptir hans náðar orði, Veiðarfærunum vil eg senn Varpa frá skipsins borði; Þetta mitt verk miskunin merk, Minn herra Jesús blessi; Veiti hann mèr, hvað vild hans er, Von mín og bón er þessi.

10. Jesús oss veri öllum hjá, Auga hans til vor sjái; háska og ógnum hrindi frá, Svo hætta' ei granda nái; Vort hjartans hús helgi Jesús, Hann oss í friði

leiði; Óskum þess nú allir með trú; Amen, sè það eg beiði.

---

# Annar flokkur

innihelður

heilræða- viðvörunar- og bænarsálma, kristilegu líferni viðvíkjandi.

---

## Gyllini A B C

af þýzku útlagt

Lagið: Nú kom heiðinna hjálparráð.

Á einn guð set þú allt þitt traust, Aðstoð mannlegri trúir laust; Fast standa drottins fyrirheit, Finnst varla tryggð um veraldar-reit.

2. Bezt þinnar æru geym og gæt, Gersemi sú er harðla mæt; Ef hún þèr sleppur eitt sinn frá, Eingin er von til henni' að ná.

3. Christnum sómir ei saurugt hjal, Sèrhver sinn munn vel geyma skal; Með

þögn sig einginn fortalað fèkk. Fjölyrtum jafnan illa gekk.

4. **D**eil aldrei við þinn yfirmann, Elska skaltu og virða hann; Þann minni háttar hæð þú sízt, Hefnd fær drambsemi jafnan víst.

5. **E**f þú nægð af auðæfum átt, Eingan veginn þig stæra mátt; Þeink, að lán drottins er það allt, Af því reikníngsskap standa skalt.

6. **F**rómleika, dáð og dyggðir með, Dýrara halt en gull og fèð. Þá heimsins ins auðlegð horfin er, Hvert sinn gott mannorð fylgir þèr.

7. **G**ef ölmusu, ef áttu auð, Og aumka þann, sem líður nauð; Guð, í hvers höndum heill þín er, Hann mun líkt aptur gjalda þèr.

8. **H**afi þèr einn til góða gert, Góðminnugur þess jafnan vert; Þakkarlaus velgjörð (það er reynt) Þúngt fellur manni ljóst og leynt.

9. **I**ðinn vertu á úngdóms tíð, Erfiði lær; þar kemur um síð, Uppskera mun það ellin kyrr, sem æskan niður sáði fyrr.

10. **K**ært þó einn láti í eyru þèr, Of mjög honum ei trúa ber; Munnurinn stundum mælir dátt, Meinar þó (kann ske) hjartað flátt.

11. **L**ukkan hvort heldur mót eða með, Minnztu að hafa stöðugt geð; Sjaldan er upphaf endíng líkt, Opt gefur raunin vitni' um slíkt.

12. **M**eð reiðum huga höndla' ei neitt, Hvað til góðs enda viltu leitt; Margur í bræði verk það vann, Sem varð þó mest að iðrast hann.

13. **N**em þú og lær, hvað nytsamt er, Nær einhver gott vill kenna þèr; Hirða fáir um heimskan mann, Hinn fær virðíng, sem meira kann.

14. **Ó**kennt málefni aldrei mátt Úrskurða fljótt nè dæma brátt, Klagandans heyrðu sögn um sinn, Síðan gæt að, hvað talar hinn.

15. **P**rakt og hofmóð þèr hrind þú frá, Hefnd færði mörgum löstur sá, Lítillátan landsmanna sið Lát þèr nægjast að blífa við.

16. **Q**villuðum hug, sem sturlar

styggð Stærri skaltu ei auka hryggð, Goldið má verða aptur eins, Sem öðrum gjörir þrátt til meins.

17. **R**aupa sem sízt af sjálfum þèr, Þó sýnist nokkuð gjört sem ber; Eigið lof jafnan lyktar verst, Lífernið frómt sèr hrósar bezt.

18. **S**já þig vel um, því veröld er flá, Vondum selskap þig sneiðir hjá; Guðhræddum halt þig gjarnan að, Gott nafn þèr víst útvegar það.

19. **T**em þig að elska æru' og spekt, Þó allir þig ei lofi frekt. Svo öllum lyndi, einginn mann Orð sín og gjörðir stilla kann.

20. **U**pp á heims auð og allt, hvað er, Aldrei þig reið, það hverfur þèr; Sá má því haldast hygginn bezt, Sem himnesk gæði stundar mest.

21. **V**en þig aldrei með agg og róg Að saman draga fjárins plóg; Það ferst með sorg, sem fæst með synd, Við friðsamt brauð þèr un og lynd.

22. **X**erxes konúngur forðum frekt Forlèt sig upp á vald og mekt, Fèkk

þó mínkun og sorg til sanns; Sèrhver varist því dæmin hans.

23. Yfir allt fram þú óttist guð, Elska og virð hans heilög boð; Öðrum ráðhollur einnig sèrt, Eins sem þú vilt að þèr sè gert.

24. Zebaót guð öll veit þín verk, Vert því lastvar, hans makt er sterk; Fljótara stillist hótuð hefnd, En hin, sem er með framkvæmd efnd.

24. Þig lær sjálfan að þekkja rètt, Þreingst' ei heldur í neina stètt; Hvað þú áformar, að því gá, Endirinn hvernig verða má.

26. Ætíð minnzt' á þinn dauðadag, Dóm síðastan og sálarhag; Bið jafnan guð að gefa þèr náð, Góð og heilnæm að stunda ráð.

---

## Hvað vera eigi athæfi kristins manns.

Lagið: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Ef þú vilt góða friðsemd fá, Fjölmælgi alla varast þá; Glatt hjarta yfir góðu býr, Gjarnan vert jafnan lyndishýr.

2. Í trúnni geym stillt og stöðugt geð, Stunda þar hreinan kærleik með, Eflaus sè bænin yfirbót, Undandráttarlaus, klár og fljót.

3. Iðrandi fyrir þín afbrot sèrt, Ör við fátæka jafnan vert, Í góðum verkum iðinn bezt, Illt að forðast viljugur mest.

4. Fúslega góðri hirtíng hlýð, Hörmúng með þolinmæði líð, Í látæði þínu ljúfleik sýn, Líka sè hæversk skikkan þín.

5. Mjúkleik í kenníng merkja lát, Mæl við aðra með spekt og gát, Vitna það eina, satt reynt sè, Um sèrhvað dæm með rèttvíse.

6. Því fáorðari finnstu hèr, Fjölmennið sem þú meira sèr; Því heilráðari þig hverjum tjá, Honum sem meira liggur á.

## Heilræðasálmur.

Með sínu lagi.

Viljir þú geðjast guði vel Og góðum mönnum hèr, Hreintrúað hafðu hjartans þel, Og heiðra hans nafn, sem ber; Orð drottins lær með allri gát, Iðka mest heita bæn, Þakkargjörð fagra fylgja lát,

Fórn sú er einka-væn, Hugsun vondri þèr hrittu frá, Henni gef aldrei rúm þèr hjá; Illgresisfræið upp sè rætt, Áður en frjóvgun nær, Ske má, það sè við háska hætt, Ef hrekkjarótin grær.

2. Æðri menn þèr í heiðri halt, Hvern eptir sinni stètt, Ljúflyndi við þinn líka skalt Láta í frammi rètt; Gletztu aldrei við gamlan mann, Gráhærðum virðíng ber, Forsmá ei heldur fátækan, Sem frómur og meinlaus er; Móðga ei þann, sem mæðir styggð, Meðaumkun sín þeim, líður hryggð; Djarflega ekki öðrum lá Ávirðíng hans nè brest, Þú veizt ei, hvað þig henda má, Haf gát á þèr sem bezt.

3. Forðastu þá, sem fara með smán, Falsyrðin, háð og spè; Lánleysi, slys og lukku rán Laun þeirra trúi' eg sè; Hótfyndnin ill er eingum þekk, Athuga jafnan það, Ske má, þú hafir ský eður flekk, Ef skyldi þar grennslast að; Illátur og keskni hæfir sízt, Heimskunnar merki það er víst; Klám, níð og hróp þú hata mest, Hugsa um málshátt þann: „Frómlegum siðum samtal verst Sannlega spilla kann“.

## Um góða samvizku.

Lagið: Dagur í austri öllum.

Hvað verður fegra fundið, En friður og rósamt geð, Ángur úr huga hrundið, Hjartað glaðvært þar með, Innbyrðis elskan hreina, Með æru' í hverjum stað? Heimseptirlætið eina Eflaust dæmi eg það.

2. Glaður vildi' eg þú værir, Og vondu hjá þig sneið, Margt þó til böls þèr bæri Bakmálug túngan leið; Ef þinnar æru gætir, Aldrei þú kvíða þarft; Síðan, þá sönnu mætir, Sjálf lygin dofnar snart.

3. Lán heims lát þig ei villa, Lukkunni spart þú tak, Antigna eingum illa, Allra sízt þó á bak; Opt einn að öðrum finnur, Það iðkar hann sjálfur mest; Hver má svo hittast svinnur, Að hafi' ei nokkurn brest?

4. Heilbrigði, hjartans kæti, Hèr með samvizkan góð, Ástvina eptirlæti, Fyri' utan trega' og móð, Frómt líf og farsæll dauði Fylgjast með rèttu að, Af hverjum heimsins auði Helzt vildi' eg kjósa það.

## Um lukkunnar óstöðugleika.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Allt heimsins glysið, fordyld fríð, Fegurðar prjál og skraut, Fallvalt, meinslysið fyr og síð Flestöllum reynast hlaut, Allt eins og fis í hvassri hríð Hverfur snarlega' á braut; Lukkunnar blysið litla tíð Logandi óvart þraut.

2. Blómleg æskunnar eðlis art, Sem aldins jurtir beint Snemma upprunnar blika bjart, Burt visna' að kvöldi seint; Þeir gleðibrunnar þorna snart; Það hefi' eg sèð og reynt, Vatns-rásir grunnar hörfa hart, Hverfur svo tíminn leynt.

3. Líkams heilbrigðin hrósar sèr, Haldin af öllum kær, Hennar þó tryggðin afslepp er, Óvissum tíma nær; Sóttar andstyggðin brátt að ber, Búksterkum niður slær; Bleik dauðasigðin sárbeitt sker Sólfögur blómstrin skær.

4. Holdsins fríðleikur, fegurð klár, Og fraktin líkamans, Sem limið eikur laufgað stár, Lífið gleður til sanns, Allt eins og reykur öll forgár Ásýndin hvarma-

ranns, Þar liggur bleikur, blóðlaus nár, Burt er fordyldin hans.

5. Mannsins líf hraust, er allra innst Í æðum hjartans býr, Mjög þó ótraust og fallvalt finnst, Fljótlega um sèr snýr; Viðstöðulaust, þá varir minnst, Sem vindur í burtu flýr, Að láni hlauzt, því laungum vinnst Litla stund æfin rýr.

6. Heims auður sýnist holdsins art Harðla fagur til sanns; Meðan við klínist kroppinn skart, Kætist geð fávíss manns; Optlega týnist yfrið snart Ýmist til sjós eða lands; Bersnöggur pínist hugur hart, Hvar er þá geingið hans?

7. Margur hver reisti' um frónið fjær, Fèkk þess ei verið án; Annar með hreysti fjárplóg fær, Fer hinn með vèl og rán, Eitt el, einn neisti', ein bylgja', einn blær Burt sneiddi allt það lán, En sá, því treysti', er eingu nær, Utan því meiri smán.

8. Veröldin blíð að láni lèr Lystugt gleðinnar hnoss, Ásýndum þýð á baki ber Beiskan hörmúngar kross. Lukkan dáfríða líkust er Við lymskan Júdas's

koss; Bezt væri' í tíð að sjá að sèr, Svo hún ei blekkti oss.

9. Völd, lèni, makt og virðíngar Vel margur dró sèr að, Höfðíngja drakt og skrúða skar, skrautlega út snikkað; Af skal það lagt, og ekki par Aktar dauðinn um það, Frá allri frakt án orlofs bar Út hvern úr sínum stað.

10. Hvað er heims blómi' og gjörvallt glys, Sem girnist holdið á? Reykur, hègómi, fölski, fis, Fjúkandi lauf og strá; Að mínum dómi slægð og slys Slær ýmist til eða frá, Skaðsemdar ljómi, bálað blys Blindar skjótt þann, það sá.

11. Rót allra meina með sèr ber Mannorðsins girndin snauð, Heljar slóð beina búkurinn fer Burt frá makt, hefð og auð; Það eitt alleina óvallt er, Að óttast drottin guð; Viltu slíkt reyna, hygg að hèr, Hvað hann þèr sjálfur bauð.

12. Láttu því fara heimsins hátt, Holds metnað dreiss og brjál, Egnd dauðans snara er við gátt, Að þèr mun dregið tál; Meðan þú hjara hèr enn mátt, Hugsa

aðu' um þína sál, Þar tak á vara, þrýtur brátt Þjóðbrautin lífsins hál.

## Um heimsins vont háttalag.

Lagið: Ó Jesú eðla blómi.

Hætta er stór í heimi, Hjálpi oss drottinn kær, Frá Satans svikum geymi, Svo ekki glötumst vær, Reynd blíða grand græði, Greind lýða vandræði; Leynd víða land-mæði Á lopt sèr aptur slær.

2. Djöfuls nú veröld veiðir Vèla-nót mörgum skæð, Í villu' og vantrú leiðir Vonzkan sú þúsund-ræð; Ár líkur fer, flakir, Flár svíkur; hver vakir? Hár, ríkur sèr sakir Síðar guð af hæð.

3. Ótal illgjörðir þróast, Ei tjáir leyna því, Tryggð og trúskapur sóast, Takast upp vélráð ný, Flestöllum fast spilla Fest göllum last, villa; Verst köllum kast kvilla Komið heiminn í.

4. Straff sýnist stórt fyrir hendi, Stofnað mjög til þess er; Von á refsíngarvendi, Í vöxt því hættan fer; Völd synda gild granda, Gjöld kinda fylld standa, Öld blinda vild vanda Versta ljóst ei sèr.

5. Ó Jesú ástkærasti! Iðrunar gef oss tíð, Hirt ei þitt fólk með hasti, Heyr mig nú, gæzkan blíð; Eyð hættu, ráð rèttu, Reiði sættu, hrjáð gleðtu, Neyð bættu, náð settu Nauða-þjáðum lýð.

## Veraldar þekkíng um heimsins brigðlyndi.

Lagið: Öll lukka gleri líkust er.

Guð bið eg nú að gefa mèr ráð, Og greiða minn veg til bezta, Hann einn mun veita hjálp og dáð, Hvað sem mig kann að bresta; Þó þörfin sè bæði þúng og bráð, Og þyki opt bótum fresta, Á drottins miskun, mildi' og náð Mitt skal eg traustið festa.

2. Mannleg aðstoð er misjafnt trygg, Margir fá slíkt að reyna, Trúskapar lundin laus og stygg Leið geingur þeygi beina, Veltur á ýmsa hlið nm hrygg Hamíngju lánið eina; Þá, í nauð bjarga, helzt eg hygg Hægt muni verða að greina.

3. Loksins fæ eg nú fullreynt það, Hvað fallvölt er heimsins blíða, Bindur sig ei við stund nè stað, Stillíng einga

kann líða; Margan ber sama brunni að, Blind geingur lukkan fríða; Einginn fær sjálfur ákvarðað, Eptir hverju skal bíða.

4. Þeir, sem mèr voru vinir fyr, Vel þá gekk einu sinni, Þegjandi sneiða þvers um dyr, Þeim er eg liðinn úr minni; Ef allir sigla sama byr, Selskap er von mann finni; Hinn má vel bíða' í höfnum kyrr, Sem hèlt mótviðrið inni.

5. Þar, sem eg hugði hælis mèr Í hörmúng minni' að leita, Að eingu' athvarfi orðið er, Ull sótt í hús til geita; Rót sú opt ávöxt ramman ber, Sem ræktuð er með sveita; Heppinn þykist, sá sjálfum sèr Af sundinu kann að fleyta.

6. Gott er að gleðjast góðum með, Gamans og liðs að njóta, Brátt kann þó selskaps bróðerneð Burt sem vatnsstraumur fljóta; Þá heilsan brestur, heill og fèð, Hornaugum vinirnir skjóta, Eigið gagn hvílir efst á beð, En ástin leggst til fóta.

7. Margs konar ángist margan sker, Misjafnt vill opt á bjáta, Af auðmjúku geði' og þánka þèr Það vil eg, drottinn!

játa; Verðskuldan mín eg veit það er, Verst slíks í eingan máta, Nú bið eg þig nauðstöddum mèr Náð og vægð frammi láta.

8. Einmana stend eg uppi því, Eingum hef til að segja, Ýmsum hörmúngum haldinn í Hverja stund má eg þreyja; Á drottin skal mín nauðsyn ný Nú og jafnan sèr fleygja; Lát mig af öllu fári frí Í friði, minn Jesú! deyja.

## Bæn í heimsins andstreymi.

Lagið: Lifandi guð, þú lít þar á.

Drottinn! lát mig í heimi hèr Haga mèr kristilega, Svo eg rètt jafnan þjóni þèr Og þóknist alla vega; Hræsni, ágirnd og óhlýðne Aldrei í mínum huga sè, Forða mèr tjóni' og trega.

2. Guðlausra manna glæpasið Gef þú eg varast kynni, Haltu mèr sannleiks veginn við, Vèl heims mig eingin ginni; Höstug ránglátra refsíng bráð Rètt fái aldrei til mín náð, Minnst mín í miskun þinni.

3. Frá hjartans blindni' og harðýðge

Herrann Jesús mig geymi, Af allri hreinsuð saurgun sè Sál mín í þessum heimi; Hugskot og eyrun opna þú, Efl með mèr hlýðni, von og trú, Ást þín mèr aldrei gleymi.

4. Þess eins af hug' og hjarta' eg bið, Herra minn dýrðar sæli! Hreinan lærdóm mèr haltu við, Holds skynsemd mig ei tæli; Hvorki mannanna vald nè vild, Vinátta blíð nè heiptin gild Frá þínum sannleik fæli.

## Bæn móti andlegum óvinum.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

Leið þú mig guð, og lát mig ei Leiðast af sjálfs míns þótta; Meðan í heimi hèr eg þrey, Hald þú mèr við þinn ótta; Hvort eg geing út eða inn, Annastu, Jesú minn! Líf mitt, samvizku, sál, Sjón, heyrn, orð, verk og mál, Flærð djöfuls rek á flótta.

2. Ljúflega eg þèr legg á hönd Líf og heilbrigði mína; Líkamann tak og einnig önd Undir trúfesti þína; Þú átt, já, eigðu hèr Allt vald og ráð á mèr;

Öll er umhyggja mín Af mèr komin til þín, Svo læt eg sorgir dvína.

3. Hvað skal manneskjan mögla þó Móti skapara sínum, Adams fall þetta undir bjó Með alls kyns sút og pínum; Jesús allt bætir böl, Burt tekur sorg og kvöl; Honum á hönd mig fel, Hann leysir þrautir vel, Hægir það huga mínum.

4. Mín sál! hvað viltu mæla þá Móti skikkun þíns herra? Arf-syndin gamla eykur þrá, Og enn er forþènt verra, Af því eg allt of frekt Á jók þá fornu sekt; Svo munu' í heimi hèr Holds þrjózku kraptarner Hljóta að hjaðna' og þverra.

5. Endurlausnari! lof sè þèr Lausn fyri öndu minnar, Leystur frá dauða ljóst eg er Lausn fyri pínu þinnar; Leystu, lausnarinn kær! Lastanna flækjur þær, Sem sál mín situr í, Sorg hefi' eg, herra! af því; Lát mig lausn synda finna.

6. Leystu mig, Jesú! löstum frá, Líf mitt áður en dvínar, Lausnin Blessaða leys mig þá Ljóst fyrir undir þínar; Leys mig, lausnarinn trúr! Og lina mót-

gángsskúr, Þegar þèr þykir mál; Þèr fel eg líf og sál, Orð og athæfnir mínar.

7. Sáluhjálparinn sæll Jesú! Sál mín þèr ætíð fagnar, Sálunni miskun sýndir þú, Sálin þèr lofgjörð magnar; Sál minni send þú lið, Sála mín þess þarf við, Sálin er sjúk og móð, Sál unn þitt blessað blóð, Er sálunni sætast gagnar.

8. Hjálpari minn og herra hýr! Hjálpa nú þræli þínum; Hjálpræðis blessuð heillin dýr! Hjálpa þú veikleik mínum; Hjálparlaus hjari' eg hèr, Ef hjálpar þú eigi mèr; Hjalpa mót holdi' og heim, Hjálpa mót óvin þeim, Sem veldur vítis pínum.

9. Lífgjafi minn og líknin fín! Lifinu virztu vægja, Lífs-faðir ertu lífi mín, Lífs meinum gjör þú hægja; Líf og sál lofi þig, Lífs meðan sparir mig; Líf mitt lifi í þèr, Lifðu, Jesú! í mèr, Lífi lát löstu' ei bægja.

10. Fel eg mig nú í faðminn þinn, Frelsarinn Jesú sæti! Þó að mèr þreingi ánauðin, Eymdir heims og mótlæti, Verði þinn vilji' á mèr, Vil eg það líða hèr;

Liðsemd mèr leggur þú, Lát mig um síðir nú Lifa með lífsins mæti.

## Iðrunar og bænar andvarpan.

Lagið: Ó Jesú eðla blómi.

Auvei, minn drottinn dýri! Dapur eg kem til þín, Andi þinn æ mèr stýri, Ángruð er sálin mín, Græð hana, guð eini! Geð-pína að linist, Blóð sonar grið greini, Grátin kætist sýn.

2. Synd mín er sandi fleiri, Særir það hjartans grunn, Náð þín er miklu meiri, Mèr er hún orðin kunn; Svo friði sí-þjáðan Sá góði æ blíður, Sú gleði sè gæða Síðu' af rauðum brunn.

3. Mannleg hjálp mest vill þrjóta, Mikil þá nauðsyn er, Því flý eg til þinna fóta, Þyrmi nú drottinn mèr; Heyr bænir hýr mínar, Hèr týn ei reyr klènum, Gjör lina mèr meinum, Mest eg treysti þèr.

4. Drag mig úr djúpi nauða, Drottinn! eg bið af rót, Sonar þíns sáran dauða Synd láttu vinna bót; Sál náði sól friðar, Sæl greiði heil ráðin, Kvöl eyðist, kul græði Kristí ástin fljót.

5. Týndan úr tölu sauða Tak þú mig enn í sátt, Afstýr þú ángri nauða, Einnig gjör lyndið kátt; greið brautir, guð mætur! Græð sútir, frið játa, Klið þrauta það brjóti, Þinn svo kanni mátt.

6. Eg fel í umsjón þína, Einasti minn Jesú! Önd, líf og æru mína, Öllu því stjórna þú; Lof, heiður ljúft greiðist Lífgræði af þjóðum; Haf, faðir! hlíf góða Hèr oss fyrir nú.

---

# Þriðji flokkur,

í hverjum finnast nokkrir

iðrunar- huggunar- og þakklætissálmar.

---

## Bæn iðrandi og trúaðs manns.

Lagið: Til þín, heilagi herra guð.

Sýng þú lof drottni, sála mín! Sem er þinn guð og herra, Víst því hann gjörði vel til þín, Velgjörða minnstu þeirra,

Gaf þèr eingetinn soninn sinn, Sem fyrir þig var líflátinn, Hvert ástverk er öllu stærra.

2. Lær þú að stunda líka fremst Lofsýngja þínum guði, Eins og Davíð að orði kemst Í sínu sálms atkvæði: Mín önd og allt, hvað með mèr er, Minn drottinn! heiður vandi þèr Fyrir þín gefin gæði.

3. Mig ángrar það í minni sál, Að mót syndgaði' eg drottni; Ein synd verðskuldar eilíft bál Eptir lögmálsins vitni; Hver kann að reikna syndir sín? Sjá, fleiri eru afbrot mín Sandi á sjávarbotni.

4. Alít mig, drottinn! auman þræl, Augum miskunar þinnar, Álít og heyr mitt eymda væl, Álít vein sálar minnar; Í Jesú nafni aumka mig, Í Jesú nafni bið eg þig, Drottinn guð dýrðarinnar!

5. Í hans helgustu sárum sjá Syndaforlíkun mína, Hvað þúngt þín reiði' á honum lá, Hvers kyns kvalir og pína, Djöful, helvíti' og dauða vann, Með dýrð-

legum sigri upp reis hann, Endurleysti svo sína.

6. Auma syndara hèr í heim Hann til iðrunar kallar, Svo staðfestandi sjálfur þeim Sínar velgjörðir allar Í sakraménti altaris, Ef rètttrúaðir neytum þess, Svo sem postulinn spjallar.

7. Viðurkennandi vor afbrot, Verðuga stærstu nauða, Utan vèr höfum eilíf not, Af Jesú pínu' og dauða, Berum oss vort að bæta ráð, Biðjum drottin um sína náð, Vor gæti veikra sauða.

8. Eg má það játa aum mannkind, Eins sem kóng Davíð ræðir, Mèr fyrirgefur hann mína synd, Meinsemdir allar græðir; Jesú útrunnið blessað blóð Bót og lækníng er harðla góð Þeim, syndaþúnginn mæðir.

9. Hjálpa þú mèr, ó herra guð! Hjálpa þú sálu minni, Hjálpa þú mèr í himnafrið, Hjálpa þú skepnu þinni, Hjálpaðu mèr frá heljarneyð, Hjálpa þú mèr fyrir Jesú deyð, Hjálp þín mèr huggun vinni.

10. Vægt hefir mèr þín verndar hönd, Veitt hirtíng föðurlega, Það hrís reikna

eg vægan vönd, Viðlíkast barna-aga; Kraptur þíns anda kenni mèr Kærleika þinn að stunda hèr Og minnast þess mína daga.

11. Að gæti' eg heldur við syndum sèð, Svo mig ei verra hendi; Bæn, trú og þolinmæði með Minni iðrun þèr sendi, Vitandi', að þessi veraldar leið Verða muni mèr örðugt skeið, Nema leiðir mig líknar hendi.

12. Ó, minn Jesú! þín eilíf náð Endurlífgi sál mína, Eg befel mig og allt mitt ráð Í miskunarvernd þína, Lát oss svo enda lífið hèr, Að lof, dýrð og heiður færum þèr, Vor guð! um eilífðina.

## Um guðs forsjón.

Lagið: Herra, þèr skal heiður og lotníng greiða.

Hugur slagar, hættur ýmsum benda, Holdið bagar margan vel að lenda, Gegn þeim agar, gæt hvað hagar, Gleymska' aflagar, æfidagar enda.

2. Mörg er hryðja mótlætis um aldur, Mæðu-viðja þúng sem dauðinn kald-

ur; Vor skal iðja veikra niðja, Að vaka' og biðja; oss vill styðja' alvaldur.

3. Einn er drottinn, ófinnandi' hans vegir, Allt ber vottinn, líka hitt, sem þegir; Elskan, óttinn, eyðslan, gnóttin, Dagur, nóttin, heilsan, sóttin, segir.

4. Guð ótrauður góz er huga mínum, Gagnið, auður, hreysti' í öllum pínum, Lukkan snauðum, lausn úr nauðum, Lífið dauðum, uppreisn sauðum sínum.

5. Allar skepnur eins úti sem inni, Einn guð seður, þó þær sèu' ógrynni, Hvergi' er slíkur, hvað við víkur, Hönd forríkur sá upp lýkur sinni.

6. Ei skal kvíða eymdum lýða fremur, Enn þó svíða verði, hríð þá lemur; Heldur stríða, biðja' og bíða Betri tíða, blessuð blíða kemur.

7. Þökkum drottni, því að hann er góður, Aldrei þrotni sá kærleikans hróður; Auma' álítur, brauð þeim brýtur, Björg fram flýtur, sá ei þrýtur sjóður.

8. Máttur drottins megnar alla vega, Miskun hans hún varir eilíflega, Sinna

gætir, sína kætir, Synd upp rætir, trúuðum bætir trega.

9. Dýrð sè guði, föður og syni samin, Sannheilögum anda allt eins framin, þrennum, einum, herra hreinum, Hjálp hvers reynum, æðst lof greinum, amen.

## Tuttugasti og þriðji sálmur Davíðs viðlíks innihalds.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Drottinn! minn hirðir held eg þig, Hèr fyrir brestur ekkert mig, Mín gleði sízt því sjatni, Leiðir mig gæzka guðs með sann Grashaga út í lystugan Og fram að fersku vatni; Sá mest, Má bezt Hugann hræra, endurnæra og rètt leiða, Vegna nafns síns veginn greiða.

2. Og þó að eg í dauðans dal Döprum ráfi og myrkra sal, Ólukkan ei mig hræðir, Víst því er með mèr vernd þín hýr, Vöndurinn þinn og stafur skír Heita mín huggun bæði; Trúr hýr Tilbýr Sitt því orðið sætt matborðið sálu minni, Móti þeim mig hrella kynni.

3. Mitt höfuð smyr þín mildin klár

Með viðsmjörinu síð og ár, Og fullt á fyrir mig skeinkir. Gæzka þín, guð! og miskun mest Mun mèr fylgja lífdagana bezt, Minn hugur þar á þeinkir. Eja, Eja, Í húsi þínu elsku-fínu eg mun blífa, Veittu mèr hjá þèr vist eilífa.

## Bókstafa þýðíng í Jesú nafni.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Ilmur er Jesús eðla-skær, Oss við guð föður sætta fær; Andvarpan sanna synd-ugs manns Svo gjörir fagra bænin hans, Eins og þá sólin upp ljómar Allan himin og stjörnurnar.

2. Eilíft líf Jesús oss til býr, Allri hörmúng í gleði snýr, Grimmd og ógn dauðans eyddi hèr, Andlát vort hægur svefn því er, Heljar brodd skæðan herrann braut, Hans makt og vald með öllu þraut.

3. Sannleikur Jesús eflaust er, Oss rètta lífs-braut kennir hèr, Heims-spekin einga huggun ljær, Herrans orð náð og blessun fær; Allir, sem treysta upp á það, Eilífan finna hvíldarstað.

4. Vegur er Jesús viss og beinn, Vel má hann gánga hver sem einn, Fyrir hreina trú og helgan sið Hann leiðir oss í dýrðar frið, Hræðast þarf sá ei heljar deyð, Sem heldur sèr við þessa leið.

5. Sigurvinníngin sætust hèr Á synd og dauða Jesús er, Djöful fángaði', en frelsti oss Fyrir þá kvöl, hann leið á kross. Ilm, Eilífð, Sannleik, Veg, Sigur skær, Svo nafn Jesús út leggjum vær.

## Endurminníng Krists pínu.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

Hvað hjartans kæran hafði mig Herrann minn Jesús góði, Í dauðann gaf hann sjálfan sig, Og sínu út hellti blóði; kóngurinn eingla einn, Eilífur drottinn hreinn Á sig tók mína mynd, Meinlaus fyrir utan synd, Og keypti frá kvala flóði.

2. Aumur í fátækt fæddist hèr, Fyrirlitinn af heimi, Lagður í jötu asna er, Öllum hafnandi seimi, Í útlegð hraktist hann, Hæstur guð og svo mann, Alls

kyns armæðu-þraut Með ángri líða hlaut, Saklaus frá synda eimi.

3. Blessuðu sveittist blóði sín, Barðist við dauðann stránga, Harmkvæli öll og alls kyns pín Yfir hans sálu gánga; Falskoss fjötur og bönd, Færður í Júða hönd, Högg, slög og hráka leið, Hæðni, álygð og neyð, Og dóms ályktun ránga.

4. Krossfestur, deyddur drottinn var, Dreyra-runninn í pínum; Hans blessað hjarta hart þá skar Hvasst spjót með broddi sínum; Blóð og vatn sárt með sút, Sem þar nam renna út, Heilagi herra kær! Hreinsar mig vel og þvær Af sekt og syndum mínum.

5. Hvað kom þar til, minn mildi guð! Mæðu þá vildir líða, Og á þig taka alls kyns nauð Með ángri' og sárum kvíða? Góðsemdar gæzkan þín Gjörði það vegna mín, Frá köldum kvala veg Keyptur svo yrði eg, Og mætti miskun bíða.

6. Ó herra Jesú, hver er eg þess, Hlaðinn með mörgum syndum, Að forlèztu himna ljósan sess, Og leitaðir að mèr týndum? Ljúfur svo leystir mig, Lèztu

krossfesta þig, Upp gafstu öndu þín, Er það lífgjöfin mín, Sviptir burt sorgar myndum.

7. En hvað skal gjalda aptur þèr, Ekki neitt gott hafandi? Sála mín líf og allt, hvað er, Í þínu valdi standi; Ángrað hjarta og geð, Iðran syndanna með, Ætíð þèr offra vil, Annað hefi' eg ei til, Meðtak það vel virðandi.

8. Hvað þú á leggur, líða skal, Lausnarinn ástar-kæri! Hjartað, sinni, hugsan og tal Hlýðið svo allt þèr væri; Hjálpa mèr, herra minn! Að heilagan vilja þinn Eg elski' af allri önd; Eilíf þín náðarhönd Á friðarins braut mig færi.

9. Hjalp mèr að geta haldið rètt, Af Hjarta, sál og sinni Hvað, sem þú fyrir hefir sett; Huggun veit öndu minni, Þá dauðinn á dyrnar slær, Drottinn! stattu mèr nær, Orð síðust, son guðs! þín, Sèu þá einnig mín, Sælu að sálin finni.

10. Amen, í Jesú eigið nafn, Amen, af huga hreinum; Forða mèr, guð! við glæpa-safn, Geym mína sál frá meinum; Svo vil eg satt með trú Sýngja þèr,

minn Jesú! *Sanctus* og saman prís Í sælli paradís, Amen, lof drottni einum.

## Huggan í krossi og mótgángi.

Lagið: Náttúran öll og eðli manns.

Þú, kristin sála! þjáð og mædd, þreytt undir krossins byrði, Vanmegnast ekki, vert óhrædd, Vilji drottins þó yrði; Þrey, þol og líð, bið, vona' og bíð, Bölið fær góðan enda, Þá neyð er hæst, herrann er næst, Hann mun þèr fögnuð senda.

2. Þú líður kross og kveinar hátt, Kvíðir má ske við dauða, Holdsins vandi er þetta þrátt, Þegar það kennir nauða; Heldur ætíð við andann stríð, Allir megum það játa; Styrk muntu þá þurfa að fá, Ef það skal undan láta.

3. Þannig lætur oss drottinn dýr Deyja frá þessum heimi, Fagurlega sitt fólk til býr, fallvöltum auð svo gleymi, Hirtir mjög hægt, hèr með fær lægt, Hjartað metnaðargjarna, Grætir um stund, gleður þó lund Guð þannig sinna barna.

4. Þú sèr, að móðirin mildigjörn, Mjúklát við sitt afkvæmi, Agar þó opt sín

elskubörn, Ei svo í skaða kæmi; Eptir hirtíng auðmýktar-slíng Að sèr þýðlega vefur, Af þurrkar klár öll þeirra tár, Ástarkoss margan gefur.

5. Allt eins fer drottinn að við oss, Orð hans ljóst þar um hljóða, Hirtíng á leggur, hryggð og kross, Hann vill oss allt hið góða; Í hörmúng mitt mildir geð sitt Miskunar-faðirinn blíður, Elskar þá bezt, hann agar mest, Er þeim næst, sem þýngst líður.

6. Heyr, hvað Esajas hermir ljóst Heilögum fylltur anda: „En þó fást megi móðurbrjóst Miskunarlaust til handa Afkvæmi sín, svo ei þess pín Elsku-dauft hjartað kenndi, Aldrei skal þèr þó gleymt af mèr, Þitt nafn í minni' er hendi“.

7. Gæt að, hversu guðsbörnin blíð Báru sinn kross og liðu, Hlutu að þola stundlegt stríð, Stöðugt í trúnni biðu; Job, Móíses, vèr minnumst þess, Mjög þjáðir leingi voru, Davíð og fann, sá drottins mann, Djúpin hryggðanna stóru.

8. Hver var meir virt en María, Móðir Jesú vors herra, Hlaut þó krossfestan

son sinn sjá, Sár hans ei fèkk að þerra; Harma sverð beitt rèð hjartað heitt Hennar þá sundur grafa; Drottni mest kær sú milda mær Mun þó víst verið hafa.

9. Já, guð vildi sinn son til sanns Svoddan með skarti prýða, það mun þèr, blíðri brúður hans, Bezt allra fegurst hlíða; Hvað loflegt er í heimi hèr Honum samlíkjast mega, og Jesú hjá himninum á Heimvon farsæla eiga.

10. Kann ske, að þar um kvartir þú, Kenni' eg vel holdið veika, Þèr virðist sem þín von og trú, Vilji hvarfla og skeika; Þrátt stendur naumt þolgæðið aumt, Þjáníng ef leingi dvelur; Bænin er köld, misgjörð margföld, Mjög svoddan hjartað kvelur,

11. Ei er trúin þitt eigið verk, En þótt hún veikleg standi, Nè þolinmæði' í þrautum sterk, Það gefur helgur andi, Hvað hann upp tók, Hann gaf og jók, Hjálpsamlega framkvæmir, Vanmegnun þá, sem er þar á, Aldrei hans náð fordæmir.

12. Bænin ef virðist veik og stirð,

Varastu þó að tregast, Fyrir augum drottins vel er virð; Vor Jesús fagurlegast Þýðir það allt, þèr sýnist kalt, Ef hún sker í hans nafni, Offur það bezt á sèr hann mest, Ei trúi' eg guð því hafni.

13. Lángt þó finnist að líða þèr, Lítil stund má þó heita, Óendanleg sú eilífð er, Oss þar mun drottinn veita, Unaðsemd þá, sem aldrei má Upp hugsa mannlegt hjarta, Lifum með fró, frið, sælu' og ró, Fagrir sem ljósið bjarta.

14. Hygg að, því barni mest er mjúkt Móðurhjartað ágæta, Vanmegna sem hún sèr og sjúkt, Sýnir því hjúkun mæta; Eins er guðs hönd; ángrandi önd Æ er hann nálægastur, Ástríkur bezt og blíður mest, Við börn sín veik trúfastur.

15. Brákaðan reyr ei brýtur hann, Blæs ei út hör rjúkanda, Glataðan sauð með flýti fann, Frávilltum lèt ei granda; Á herðum sèr heimleiðis ber, Hver má oss þaðan draga? Veika sál bezt bevarar mest Bæði nætur og daga.

16. Í Jesú nafni bið og bíð, Brúðguminn fullsnart kemur, Hans er ásýndin

hýr og blíð, Hvað viltu girnast fremur? Þín harmatár öll þerrar klár Þýð drottins höndin skæra, Hèr við þig skalt hugga ávallt, Heilnæmt er slíkt að læra.

17. Guði sè lof, sem glaða von Gaf oss í raunum vöndum, Lèt hann sinn ljúfa líknarson Leysa' oss af dauðans böndum; Hans andinn kær er ætíð nær Öllum, sem þjáníng líða, Vèr skulum því þreingíngum í Þreyja, vona og bíða.

18. Af er þá staðin öll vor sorg, Ángistar horfin mæða Í himnaríkis helgri borg, Hvar einglar drottins ræða, Og sýngja sætt *sanctus* ágætt, Segjandi' af hjarta amen; Lof, heiður, prís, sæmd, sómi vís Sè drottni' um eilífð framinn.

## Andvarpan kristilegrar kirkju.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Ef þú spyr að, því kristnin klár Kveinar daglega' og fellir tár, Andvarpar opt og stynur? Þú skalt vita, hún þróast leynt, Þykir brúðguminn koma seint, Hennar hjartkæri vinur; Þreyir, Segir: „Jesús

Kristur! kom sem fyrst, svo kvölum linni, Endurnær mig á elsku þinni.

2. Hún biður opt með hryggð og þrá: „Hjartans brúðgumi! lát þig sjá, Ó drottinn, dvel ei leingi, Sætasti Jesú! minnstu mín, Mèr þykir lángt að bíða þín, Næsta því neyðin þreingir; Eini, Hreini, Elskuginn kæri, kom hèr nær, eg kalla' af mæði, Lát þú mig öðlast þín ástargæði.

3. Ó guð gæfi, eg ætti' um sinn Upp til þín koma, Jesús minn! Að síðan skiljum eigi, Hjartað mitt tak þú til þín fyrst, Trú og náð svo mèr ávaxtist, Að eg hèr þolgóð þreyi; Heitir, Veitir Herrann merkur, hreinn og sterkur heilagan anda, Sá mig huggar í háska' og vanda.

4. Sem hjörturinn, þá hann þyrstur er, Þreyttur til vatnsins flýtir sèr, Svo honum svalað yrði, Svo lángar oss hèr úr heimsins pín, Herra minn Jesú! upp til þín, Kramda af krossins byrði; Græddu, Bættu Ángrið stríða, kvöl og kvíða kristni þinnar, Leið hana heim til hvíldar sinnar.

5. Ó. Jesú! merk, þín ángruð hjörð Andvarpar, stinur þúngt á jörð, Stödd nú í fári stærsta; Hjálpa þú henni, herra trúr! Háska öllum og vanda úr, Hún er harmþrúngin næsta; Leingist, Þreingist, Við óvin trylldan, ofsa fylldan, ætíð stríðir; Lát hana, drottinn! sigra' um síðir.

6. Jesú! mig lángar eptir þèr Ætíð, hvernig sem geingur hèr, Kom til mín, Jesú kæri! Meðan mèr önd í brjósti býr, Bið eg þú komir, Jesú hýr! Þèr vil eg vera nærri; Sèrtu, Vertu, Jesú hæstur! hjá mèr næstur í hvers kyns pínu, Skýl þú mèr jafnan í skjóli þínu.

## Um guðs aðstoð í krossinum.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

Eg vænti, drottinn! eptir þèr, Í minni hörmúng lángri, Og bíð, til þess þú bjargar mèr, Af bèisku hugarins ángri, Er stríðir á mig fast, Og hvern dag margfaldast, Krossinn mig kremur hart, Kom þú, hjálpaðu snart, Svo linni stríðu strángri.

2. Veit eg þú, drottinn! manst til mín,

Þá mótgángs tíminn stendur, Feginn í allri freistni' og pín Fel eg mig þèr á hendur, Nafn mitt vel þekkir þú, Þess em eg fullviss nú, Það er og skrifað inn Í handarlófann þinn, Sigur er mèr því sendur.

3. Minn andi, drottinn! í þèr gleðst, Til orðs þíns jafnan leita, Af huggun mjúkri sálin seðst Sannleiksins fyrirheita: „Komið krossþjáðir hèr (Kristur sjálfur svo tèr), Alla eg yður mest Endurnæra vil bezt, Erfiði er má þreyta".

4. Endurlausnarinn allra trúr, Aumir hvers lækníng fundu, Þessum mig leiði þrautum úr Á þægri hjálpar stundu, Þó holdinu þyki lángt Þjáníngar okið strángt, Samt vertu, sál mín! hraust, Set á drottin þitt traust, Hans mildiverkin mundu.

5. Lifir minn guð, sem líf mèr gaf, Líf mitt er í hans valdi, Lífs-kvölum svipti lífi af, Lífsbjörg minni viðhaldi, Lifandi lífsins guð, Líf mitt frelsa af nauð, Lífs svo eg lifi hèr, Að líf eilíft meður þèr Fái' eg um allar aldir.

## Þakkargjörð fyrir apturfeingna heilsu.

(Kveðin 1663).

Lagið: Jesú Kristi, þig kalla' eg á.

Seg þú lof drottni, sál mín! nú Sætt með hjartans fögnuði, Daglega jafnan þakka þú Þínum lifandi guði, Hver þèr líf, krapt og heilsu gaf, Hjálp, náð og miskun veitti, Nær þjáníng þreytti, Leysti þig öllu ángri af, Eymd þinni' í farsæld breytti.

2. Eg var hlaðinn með hryggð og þrá, Holdið mjög sóttin píndi, Hönd drottins lagðist hart mig á, Hirtíng mjög þúnga sýndi; Hverja stund dauðans von því var, Veiktist lífs megnið þjáða, Og naut ei náða, Aldeilis dugði ekki par Aðstoð mannlegra ráða.

3. Þá eg lá svo í háska hèr Með harmkvælum sóttarinnar, Gættir þú, Jesú minn! að mèr, Miskunar naut eg þinnar, Hönd þín blessuð og hlífð ótreg Hættar freistíngar lægði, Og vel mèr vægði, Sú náðar umsjón ástúðleg Árásum djöfuls bægði.

4. Miskunar hjarta-þelið þitt Þá í brjóst um mig kenndi, Græddir allt sóttarmeinið mitt Með þinni læknishendi, Heilbrigði gafst og hraustleik mèr, Úr hættu dauðans leystir, Og vel við reistir; Sæll og heppinn að sönnu er, Sá þinni gæzku treystir.

5. Mikil er náð og miskun þín, Minn Jesú hjartakæri! Þú virtist svo að minnast mín, Þó maklegur þess ei væri. Lofuð veri þín líknin góð, Lofað sè orð þitt mæta, Sem böl kann bæta, Lofi himnar og heimsins þjóð Helgasta nafn þitt sæta.

6. Nú skal eg hèðan af sèrhvert sinn Með sál, hug, raust og munni Lífgjafara og lækni minn Lofa af hjartans grunni; Blessuð veri þín blessuð hönd, Blessuð sè þín aðhjúkan Við mig sársjúkan, Hirtíngar straffsins harðan vönd Hefir þú gjört mèr mjúkan.

7. Heiti' eg nú, drottinn! hèr á mót, Með hjálp og aðstoð þinni Af hjartans grunni gjöra bót Á gleymsku' og þrjózku minni, Öllu framar að þjóna þèr, Og

þínum vilja' að gegna, Það mest eg megna; Gefðu þar krapt og mátt til mèr Miskunar þinnar vegna.

8. Geym mig frá öllum glæpastig, Góði Jesú, minn herra! Svo ei til reiði reiti þig, Nè rati í annað verra; Virztu mèr jafnan vernd og hlíf, Vægð og linkind að sýna, Nær sorgir pína; Eins, þá seinast mitt endar líf, Annastu sálu mína.

## Um guðs varðveizlu og forsjón.

Lagið: Eins og sitt barn.

Herra Jesú, mín hlífð ert þú, Þó heimurinn vilji' ei láta, Einka von mín er öll til þín, Þú þoldir pín, Þèr vil eg hlýðni játa.

2. Afhaldið heims og auðlegð seims Aldrei mèr látið hefir, Til friðs þó er, minn guð! í þèr, Eg uni hèr Við það, sem þú mèr gefur.

3. Líf mitt og önd þèr ljúft á hönd Legg eg nú, faðirinn blíði! Þín hjálpin trú mèr hlífi nú, Herra Jesú! Hörmúng þó á mig stríði.

4. Lukkan mín öll á láði snjöll Leik-

ur í valdi þínu, Hvað vilji' er þinn um haginn minn Í hvert eitt sinn, Hjartanu geðjast mínu.

5. **G**æzkan þín víst mèr gleymir sízt, Glaður því vil eg þreyja Biðlundar bið, eg býst þá við Blessun og frið, Bezt muntu yfir mèr segja.

6. **R**íkdómsins hèr ei óska mèr, Örbyrgð lát mig ei pína, Mitt daglegt brauð mèr gef þú, guð! En andarauð Aldrei láttu mig týna.

7. **J**esús með dáð, Jesús með náð, Jesús í lífi' og dauða, Jesús mín hlíf, Jesús mitt líf, Við Jesúm eg blíf, Jesús er bótin nauða.

8. **M**ín sál við þig mun halda sig, Mörg þó að syndin særi, Þitt blessað blóð er borgun góð, Það bætir móð, Bróðir minn, guð ástkæri!

9. **V**eröld, veröld, þitt vols og völd, Vel máttu öðrum lèna, Afsegi' eg þèr að unna hèr, Hef heitið mèr, Hæstum guði að þèna.

10. **R**áð mèr, guð minn! á jörð um sinn, Öllum svo löstum hafni, Unn mèr

þíns liðs og ástar siðs, Þá er eg til friðs Í Jesú Kristí nafni.

## Þakklætis- og bænar-vers.

Lagið: Heyrðu, faðir, hátt eg kalla.

Hæsta lof af hjartans grunni Hèr sýng eg með raust og munni Jesú þeim, mèr ætíð unni, Og aðstoð veitti' á barndómstíð.

2. Alla tíma að mèr gætti, Ekkert svo mig skaða mætti, Öll mín Jesús blíður bætti Barndóms hót á æskutíð.

3. Lifi' eg enn og lof þèr segi, Lausnari minn! á nótt og degi, Nákvæm Jesú náð sig hneigi Nú til mín á aldurs tíð.

4. Líkamans burðir þegar þrjóta, Þinnar vildi' eg gæzku njóta, Láttu mig, Jesú! hressíng hljóta, Ef hjara skal eg á ellitíð.

5. Góðvild, tryggð og orð þitt eina Allra sè mín bótin meina, Styrki mig, Jesú! hönd þín hreina Á hverri og einni mótgángs tíð.

6. Ráð þú huga, hjarta' og sinni, Holdi' og líka sálu minni, Að eg, Jesú! elsku þinni Fyrir einga sleppi gleðitíð.

7. Ill ráð heims mig eingin villi, Andi guðs mitt geðið stilli, Jesú! þinni haldi' eg hylli Hèðan af alla lífsins tíð.

8. Minnstu á mig í miskun þinni, Þá mál er komið, að hèrvist linni, Sjá til, Jesú! sælu finni Sálin mín á dauðans tíð.

9. Vek upp hold af svefni sínum, Sem þú lofar í orðum þínum, Vægi, Jesú! málum mínum Miskun þín á dómsins tíð.

10. Reiknaðu mig fyrir blóð þitt blíða Blessaðan meðal þinna lýða, Leyf mèr, Jesú! að lesa þèr fríða Lofgjörð um eilífa tíð.

## Harmagrátur þess mótlætta og af guði huggaða.

Lagið: Hvað skal oss ángra' í heimi hèr.

Á einum guði' er allt mitt traust, Eingu skal eg því kvíða, Ángur míns hjarta efalaust Á sèr hans mildin blíða; En þó hörmúngar efnin vönd Á mig frekt gjöri' að leita, Almáttug drottins hægri hönd Hún kann því öllu' að breyta.

2. Innra mín sála ángur ber, Optlega

má það finna, Kvíðandi þúngum hefndum hèr, Til hverra' eg gjörði vinna, Samvizkan hræðist synda grönd, Sorgir því hugann mæða, Almáttug drottins hægri hönd Hún kann það bezt að græða.

3. Ytra er hold af harmi þjáð, Harðlega krossinn þreingir, Þolinmæðinnar þverrar dáð, Þess meir sem tímann leingir, Hvergi má fást um lög nè lönd Lækníng við eymdarkvilla, Nema míns drottins hægri hönd, Hún kann allt böl að stilla.

4. Nálega er sú eingin tíð, Að mèr ei sturlun færi, Ytra barátta, innra stríð Önd og líkama særir; Hver kann við slíku' reisa rönd? Ráðlaust er holdið veika, Láti þó drottins hægri hönd Hjartað mitt aldrei skeika.

5. Mannanna stoð og styrkur bregzt, Stofnar það opt til nauða, Æfin með sorgum á fram dregst, Endar loksins með dauða, Þá hljóta skiljast hold og önd, Og hèrvist lífsins dvína, Almáttug drottins hægri hönd Hún geymi sálu mína.

6. Í mínum guði' eg huggun hef,

Hverju sem öðru sætir, Mig á hans vald og vilja gef, Veit eg það, hann mín gætir, Þó synda, eymda' og sorgar bönd Sárt vilji hjartað meiða, Almáttug drottins hægri hönd Hún mun þau af mèr greiða.

7. Trúr er minn guð, sem treysti' eg á, Trúr er Jesús minn herra, Hans blessuð forsjón bezt mun sjá, Nær böl og eymd mín skal þverra, Sem bylgjur hafs við sjávar strönd Sín takmörk ei forláta, Eins skamtar drottins hægri hönd Hverri sorg tíð og máta.

8. Vil eg nú gjarnan vera til friðs, Vil eg því eingu kvíða, Vil eg af drottni vænta liðs, Vil eg svo þreyja' og bíða; Minn herra Jesús meinin vönd mýkir og allan trega, Hans almáttuga hægri hönd Hjálpi mèr eilíflega.

## Sálmur til Jesú Krists.

Lagið: Heyrðu, faðir, hátt eg kalla.

Heilagur andi guðs míns góða Gefi svo mína túngu fróða, Hún kunni þèr til lofs að ljóða, Líknsamasti Jesú minn!

2. Eptir þèr mig láttu lánga, Á lífsins vegi kenn mèr gánga, Svo eg megi þann fögnuð fánga, Að fylgja þèr eptir, Jesú minn!

3. Þú ert vor vegur í himnahæðir, Helgast oss þitt orðið fræðir, Glöggt við oss í ritníng ræðir Ráðhollasti Jesú minn!

4. Lifandi vatns hinn bezti brunnur, Brautin lífs og sannleiks munnur, Af sjálfs þíns orði sèrt' mèr kunnur, Signaður herra Jesú minn!

5. Guð ertu af guði sönnum, Gefinn til lausnar töpuðum mönnum, Daglega þína dyggð vèr könnum, Dásamasti Jesú minn!

6. Ljós ertu' af ljósi skæru, Í ljósi þínu mjög frábæru Ljósið sjáum vèr lífs með æru, Lofaður sèrtu, Jesú minn!

7. Sá, sem að þèr trúir og treystir, Tryggðin dýr! sem lýði leystir, Með þínum anda þann hughreystir, Þýður og blíður, Jesú minn!

8. Sá hinn sami' þó sofni' úr heimi, Særist ei af kvalakeimi, Sál hans trúi' eg sjálfur geymi Signaður herra Jesús minn.

9. Hver hann lifir í trúnni traustur, Títt í góðum verkum hraustur, Hann mun byggja himnaklaustur Hjá þèr sjálfum, Jesú minn!

10. Sætleik ber af sykri öllum Þitt signað nafn, á hvert vèr köllum, Eilífa vist í himna höllum Hefir útvegað Jesús minn.

11. Fyrirgef þú mèr löstu leiða, Líka vil eg þig feginn beiða, Lífsins braut mèr gjörðu greiða, Græðari blíður, Jesú minn!

12. þessu veit eg þú munt játa, Og það ei mèr á móti láta, Af því gjörir sig önd mín káta Í þèr sjálfum, Jesú minn!

13. Allt er eins og eg þig sjái, Einvalds herrann krapta hái! Með trúar hönd eg til þín nái, Tignar-dýrstur Jesú minn!

14. Þú gefur mèr þitt sakleysi, Þá eg skal frá veraldar hreysi; Beint eg minn þá bústað reisi Hjá byggðum þínum, Jesú minn!

15. Þínu rèttlæti þú mig klæðir, Þar

með alla meinsemd græðir, Dags mig efsti dómur ei hræðir, Duga munt þá mèr, Jesú minn!

16. Huggunar styrk síns heilaga' anda Herrann gefi mèr lýðs og landa, Svo eg kunni stríða' og standa stöðugur jafnan, Jesú minn!

17. Dýrð sè guði drottni mínum, Dýrstum föður á himnum sínum, Með eingetnum syni sínum, Sem ert herra, Jesú minn!

18. Bænheyr þú mig blíður og sætur, Bænheyr þú mig, guð ágætur, Bænheyr þú þitt barn, sem grætur, Bænheyr þú mig Jesú minn!

---

# Fjórði flokkur,

innibeldur

sálma um dómsdag og kristilega burtför.

---

## Um mannsins fallvalt líf og þann síðasta dag.

Lagið: Öldúngar Júða annars dags.

Gef eg mig allan á guðs míns náð, Geymi hann allt mitt efni og ráð, Hvað helzt, sem kemur höndum að Í hverjum stað, Hans miskun veri befalað.

2. Minna lífdaga stærð og stund Stendur í guðs míns föður hönd; Nær sem hann vill, þá vil eg strax Vera til taks, Glaður bíða þess góða dags.

3. Af því eg veit og eflaust finn, Endarlausnari lifir minn, Það er mín trú, hans blessað blóð Sè borgun góð, Sem mig hreinsar af synda móð.

4. En þó að lágt mitt liðna hold Liggi, fúni og verði' að mold, Samt finnur ekki sálin deyð Nè sorgar leið, Því hún er frí frá allri neyð.

5. Æ, hvað er þetta auma líf? Angist, harmkvæli, neyð og kíf, Þá það er bezt og blómgast glæst, Er bölið næst, Bráðlega kemur sorgin stærst.

6. Hvað er mann nema mold og jörð, Maktarlaus, dofin, þurr og hörð? Í heiminn fæðist híngað ber, Hver helzt hann er, Hefir ekkert í burt með sèr.

7. Hann kann að vera hraustur í dag, Heill og vel fær með gleðiplag, En á morgun sjúkur og sár (svo það til gár), Líka má ske framliðinn nár.

8. Allt eins og blómstrið gult og grænt Glansandi stendur fagurt og vænt, Á augabragði er orðið þurrt, Einga ber kurt, Fellur, visnar og fýkur burt.

9. Með þeim skilmála maður hver Af móðurlífi fæddur er: Hann skal burt deyja hèðan víst, Þá varir sízt, Sæll er sá, Sem þar vel við býst.

10. Því veldur Adams synda sekt, Síðan þess allir guldu frekt, Um álfur heims finnst ekki neinn, Já, aldrei einn, Sem af henni kann segjast hreinn.

11. Þar stoðar hvorki góss nè gjald,

Göfugt ætterni, hefð nè vald; Fljótt skal hver einn með fölvan krans Í dauðans dans, Dvelja má ei við kallið hans.

12. Þá er líkaminn fölur og fár, Fegurðin öll í burtu gár, Liggur svo í saurugum leir, Hann sèst ei meir, Sálin um eilífð aldrei deyr.

13. Hún skilst við holdið hèr til sanns, Hreysið af leggur líkamans, Ódauðleg þángað allfljótt fer, Sem ásett er; Um það oss öllum þeinkja ber.

14. Hver, sem guðs orð og herrans náð Hefir um lífsins tíð forsmáð, Og svo deyr burt iðrunarlaust, Fyrir utan traust Hans sál fær eilífa' harmaraust.

15. Æ, vesöl er sú auma sál, Útrekin strax í vítis bál, Döpur þar bíða dómsins má Fordæmdum hjá; Góði Jesú! mig geym þar frá.

16. Hver, sem guðs orð elskaði nú, Á Jesúm setur fulla trú, Sálin hans eingu kvíða kann, Kvittuð við bann Hún er innleidd í himnarann.

17. Augliti guðs fær ætíð sjá, Eingin harmkvæli minnist á, Bíður dóms-

dags í dýrri vist, Er aldrei tvíst; það gefi' oss guð fyrir Jesúm Krist.

18. Við básúnunnar hvellan hljóm Heims þjóð kemur strax fyrir dóm, Ráðsmennsku sinnar reikníng þá Hver halda á, Svo Allir mega þar upp á sjá.

19. Upp úr gröfunum allir senn Illir og góðir rísa menn, Þar kemur víst hver sál til sanns Þess sama manns, Líður aptur til líkamans.

20. Svo sem einn hirðir sauði' og kið Sundur greinir á hverja hlið, Óguðlegir, sem allir sjá, Með eymd og þrá Til vinstri handar verða þá.

21. Rángláta stoðar ei vèl nè vörn, Vizkan lögklókra slægðargjörn Þá hefir ekkert afl nè makt, Einginn fær sagt Eitt orð á móti' eða fram lagt.

22. Ómögulegt er að flýja frá, Frækleikur einginn gildir þá, Vitni sakanna sannar glöggt Á sèrhvern snöggt; Hvar mun þá standa hjartað klökkt?

23. Allar skepnur með einni raust Áklaga sekan vægðarlaust, Samvizkan

sjálf svarar til hratt (það er þó satt), fyrir þúsund vitni' hún geingur glatt.

24. Öll verkin þar með óguðlig Opinberlega sýna sig, Hrópandi sjálf sèr hefndarlaun Og heljarraun, Eilíft það gildir kvalanna kaun.

25. Atkvæði dómarans áptur á mót Andsvörin gefur þessi fljót: „Víkið frá mèr illgjörðamenn Allir í senn, Eg kannast ei við yður enn.

26. Vèr, sem að vonum Jesúm á, Verðum til hægri handar þá; Reiknings þó skuldin skoðist þar, Ei skaðar par, Af því hún áður útslètt var.

27. Það sæta Jesú síðublóð, Sem af hans helgu benjum stóð, Allan vorn reiknîng af hefir máð Fyrir elsku' og dáð, Það hlutum vèr fyrir herrans náð.

28. Ránglega hefi' eg höndlað margt, Holdsins fylgjandi vondri art; Upp til dómsins mèr ei er fært, Enn síður vært, Nema fyrir Jesú nafnið skært.

29. Það er vor allra huggun hèr, Hjartað þá kvíðinn synda sker, Sá, sem

dæmir, hann dó á kross, Gaf gjald fyrir oss, Það var hans blessaður benjafoss.

30. Ó maður, maður! hygg að hèr, Hugsa þig um, meðan tíminn er, Nú er þèr boðin náðin stærst, Guðs elskan glæst, Í þessu lífi líkn sú næst.

31. Dyr lífs þèr standa opnar enn, Að því skyldir þú gæta senn, Út stendur breiddur faðmur fús; Fríður Jesús, Hann býður þèr í þetta hús.

32. Ef þú aktar meir auð og seim, Að hyllist þenna vonda heim, Og gegnir ekki guðs þíns raust Nè gefur traust, Útrekinn verður efalaust.

33. Yfir Jerúsalem Jesús grèt, Jafnan áminníng heyra lèt; Þeir vildu ekki að því gá Fyrir illsku' og þrá, Þúngar hefndir því hlutu' að fá.

34. En ef þú iðrast efalaust, Á Jesúm setur von og traust, Þá er hans náð þín vernd og hlíf, Hjálp, heill og líf, Svo aldrei kennir kvalanna kíf.

35. Af augum þínum öll þín tár Ástrík hans þerrar höndin klár, Hjartans

fögnuð heilögum hjá Himninum á Endalaust muntu eiga' að fá.

36. Gleðjumst hèr við öll guðs börn trú, Góð og fullviss er huggun sú, Heimvon er sæt, þó hèr sè kalt Í hryggðum allt, Eilíft er líf oss ófallvalt.

37. Guð unni oss að iðrast hèr, Á meðan náðartíminn er, Drottinn! gef hæga dauða tíð, Frið fyrr og síð, Eilíft líf með útvöldum lýð.

## Bæn um kristilega burtför.

Lagið: Ó faðir minn, eg þrællinn þinn.

Ó, náðar nægð, nægst heill og frægð, Nægst elskan, Jesú Kristi! Nægst náðar lind, nægst bót við synd, Nægsti huggarinn bezti, Nægst hann líf er, nægstan krapt ber, Nægsta hjálp vill oss senda. Jesú guðs son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

2. Eg veit, að mèr, sem öðrum hèr, Er ákvörðuð stund að deyja, Eg bið, guð! þig, ó guð! lát mig Gott stríð hèr kunna heyja, Vel skiljast við, og fara' í frið, Fá svo í dýrð að lenda. Jesú guðs

son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

3. Veikleika minn og óstyrkinn Af kann Jesús að taka, Öll brot og brest, böl holdsins mest Bætir og græðir líka; En mèr, þá dey, það efa' eg ei, Eilíft vill frelsi senda. Jesú guðs son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

4. Sála mín kær kross hvern sem fær, Krapt þinn lát ekki buga; Sú kemur tíð, þolinmóð þýð, Þú fær vel glaðan huga, Þó hèr í heim með þýngslum þeim Þèr vilji drottinn benda. Jesú guðs son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

5. Sárbeðinn blítt með tárum títt Trúfasti guð hinn sanni! Andlátið sætt með gleði gætt Gef þú mèr veikum manni, Láttu mig þá leiðast vel frá, Ljótt ekkert kunna' að henda. Jesú guðs son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

6. Þú mildi guð! þrenníng blessuð, Það lífið, sem eg unni, Sè þèr lof, dýrð, drottinn minn! skýrð Djúpum af hjartans grunni. Á dauðastund í dýrðar hönd Drottins fel eg minn anda. Jesú guðs

son! gjörðu þá bón: „Gef mèr farsælan enda“.

## Umþeinkíng dauðans.

Með sínu lagi.

Ó, ó, hver vill mig verja Valdi dauðans fyrer; Þá hann á líf vill herja, Hver vill liðsinna mèr? Eg finn Opt sinn Veikleika mikinn minn, Holdið við helju kvíðir, Hræðist þær sorgartíðir, Ómildan óvin þann Ekki þó forðast kann.

2. Hverja stund honum móti Hleypur þó lífið manns, Búin með bana spjóti Bíður því grimmdin hans, Nær fer Næmt þèr Nú, og hvað meira er, Heimili hjá þèr hefur, Hvort vakir eða sefur; Um situr ávallt þig, Ei lætur merkja sig.

3. Frá því að fyrst þú fæðist, Fylgir hann jafnan þèr, Og um í leyndum læðist, Lönd og sjó hvar þú fer; Hans ör Allsnör Um situr líf og fjör, Á sterkum boga stendur Streingur til hæfis bendur, Óvart afgeinginn finnst Opt, þegar varir minnst.

4. Jafn-grimmur eins við alla Er hann

á hverri tíð, Börn, gamla, konur og karla, Kónga og auman lýð, Hvern þann, Helzt kann, Hèðan burt hrifsar hann, Bæði lærða og leika, Líka hrausta, sem veika, Einginn umflúið fær, Öllum þeim niður slær.

5. Fjarlægt þó flýja vildir, Fær ekki hjálpað það, Hann kemur, hvað sem gildir, Hittir þig í þeim stað; Allt traust Er laust, Inn um hvern múr hann brauzt, Góð orð og gjöf ei hirðir, Gull og silfur minnst virðir; Ein liggur öllum leið Í gegnum sáran deyð.

6. Allan fríðleik afmyndar, Úr dregur blóðið rautt, Augnanna sjón og blindar, Yfirbragð gjörir snautt; Heyrn skýr Frá flýr, fegurð í fölnun snýr, Önd burt úr brjósti slítur, Bæði mál og vit þrýtur, Er lík fyrir utan töf Útborið kalt í gröf.

7. Eg veit, það víst um síðir Vitja mun drottinn mín, Lífið frekt fyrir kvíðir, Fær þar af sorg og pín, Hugdeigt Hold veikt Heimsins til mjög er hneigt, Þvert á mót vorum vilja Við hljótum

þó að skilja, Gröfin ofbýður oss, Ei er það lèttur kross.

8. Þótt allan heim eg ætti, Auð og makt sèrhvers lands, Hjálpa það mèr ei mætti Móti valdi dauðans; Hvað má Holds þá Harmur og kvíði ná? Hví skal af því að þreytast, Sem þó kann ei umbreytast? Það er eitt sinn ásett, Svo mun þó standa rètt.

9. Fyrst ekkert finnst á jörðu Frelsi nè hjálpar-ráð Mót kvíða' og heli hörðu, Himneska bið eg náð Um lið Og frið, Eg þá skal skiljast við, Dauðans ótta burt drífi, Dásamlega mèr hlífi, Ásýnd hans ógnarlig Aldrei svo skelfi mig.

10. Jesús sá herra heitir, Hel-pín fèkk yfir makt, Þann sigur sínum veitir, Sönn trú þar hefir á vakt, Hans hèr Andi' er, Aflausn daglega tèr, Í hans fögnuði' og friði Fáum með eingla liði Holdlegri hèrvist frá Himnesku lífi ná.

11. Í guði því glaður deyja Og glaður lifa vil, Þolinmóðlega þreyja Þeirrar heimferðar til, Hèr gá Heim frá, Herrans samvistum ná; Því dauðann Jesús

deyddi, Dauðans beiskleik' og eyddi; Er svo dauðans aðför Eilífs lífs rèttu kjör.

12. Eg flý af hryggum huga, Herra Jesú! til þín, Óttinn vill yfirbuga, Auma samvizku mín, Vanmátt þann þrátt þú veizt og holdsins hátt, Andann lausn ljúfa girnir, Líkaminn móti spyrnir, það er eitt þúnglegt stríð, þinnar eg hjálpar bíð.

13. Af móðurlífi mig leiddir, Lifandi Jesú minn! Góðan veg síðan greiddir Guðs barna' í selskapinn, Og mèr Æ hèr Í öllu hjúkraðer, Lát þèr nú ekki leiðast Líf mitt og sál tilreiða, Heimi og holdi frá Himneskri vist að ná.

14. Mig dirfir móti dauða Dauði þinn Jesú kær! Grimmd hans þú gjörðir snauða, Gleði mèr svoddan fær, Vald traust Hels hraust Heptir og sundur brauzt, Öll fjötur óvinanna, Oss veittir frelsun sanna, þar af feingum vèr frið, Feginn því skilst eg við.

15. Mitt hjarta' í hjarta þínu Hvílast lát, drottinn minn! Eins þitt svo aptur mínu Innsigla sèrhvert sinn; Son

þinn Sè minn Sálar vísdómurinn, En hræríng heilagur andi, Huggun og stjórn eflandi Til alls góðs, meðan er, Einkum þá deyja fer.

16. Guði sè lof, sem greiðir Götu og veginn minn, Um dyr mig dauðans leiðir Í dýrðar ríkið inn; Lát heim, hans seim Og hold með báðum þeim, Hafa sinn hátt og læti, Herra minn, Jesús sæti Mèr stendur mildur hjá, Mest þegar liggur á.

## Annar sálmur sömu meiníngar.

Lagið: Dagur í austri öllum.

Allt eins og blómstrið eina Upp vex á slèttri grund Fagurt með frjóvgun hreina Fyrst um dags morgunstund, Á snöggu augabragði Afskorið verður fljótt, Lit og blöð niður lagði, Líf mannlegt endar skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga Óvissa dauðans leið Sem aldur og ellin þúnga, Allt rennur sama skeið. Innsigli eingir feingu Upp á lífs-stunda bið, En þann kost undir geingu Allir, að skiljast við.

3. Dauðinn má svo með sanni Sam-

líkjast, þykir mèr, Slíngum þeim sláttumanni, Er slær allt, hvað fyrir er, Grösin og jurtir grænar, Glóandi blómstrið frítt; Reyr, stör, sem rósir vænar, Reiknar hann jafn-fánýtt.

4. Lífið manns hratt fram hleypur, Hefir það einga bið, Í dauðans grimmar greipur, Gröfin tekur þar við; Allrar veraldar vegur Víkur að sama púnkt, Fetar það fús sem tregur, Hvort fellur lètt eða þúngt.

5. Hvorki fyrir hefð nè valdi Hopar dauðinn eitt stryk, Fæst sízt með fögru gjaldi Frestur um augnablik; Allt hann að einu gildir, Hvort illa líki' eður vel, Bón ei nè bræði mildir Hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vaða' í villu' og svíma, Veit einginn neitt um það, Hvernig, á hverjum tíma, Eða hvar hann kemur að. Einn vegur öllum greiðir Inngáng í heimsins rann, Margbreyttar lízt mèr leiðir Liggi þó út þaðan.

7. Afl dauðans eins nam kreinkja Alla í veröld hèr, Skal eg þá þurfa að

þeinkja, Hann þyrmi einum mèr? Adams er eðli runnið Í mitt náttúrlegt hold, Eg hefi' og þar til unnið, Aptur að verða' að mold.

8. Hvorki með hefð nè ráni Hèr þetta líf eg fann; Sálin er, svo sem að láni, samteingd við líkamann; Í herrans höndum stendur Að heimta sitt af mèr. Dauðinn má segjast sendur, Að sækja, hvað skaparans er.

9. Nú vel í herrans nafni, Fyrst nauðsyn ber til slík; Jeg er ei þeirra jafni Sem jörðin geymir nú lík; Hvenær sem kallið kemur, Kaupir sig einginn frí; Þar læt eg nótt, sem nemur, Neitt skal ei kvíða því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir Lausnarinn himnum á; Hann ræður öllu yfir, Einn heitir Jesús sá; Sigrarinn dauðans sanni Sjálfur á krossi dó, Og mèr svo aumum manni Eilíft líf víst til bjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi Dauðann og sigur vann, Makt hans og afli eyddi, Ekkert mig skaða kann; Þó leggist lík í jörðu, Lifir mín sála frí;

Hún mætir aldrei hörðu Himneskri sælu í.

12. Jesús er mèr í minni, Mig á hans vald eg gef, Hvort eg er úti' eða inni Eins þá eg vaki' og sef, Hann er mín hjálp og hreysti, Hann er mitt rètta líf, Honum af hjarta' eg treysti, Hann mýkir dauðans kíf.

13. Jeg lifi' í Jesú nafni, Í Jesú nafni' eg dey; Þó heilsa' og líf mèr hafni, Hræðist eg dauðann ei; Dauði! eg óttast eigi Afl þitt nè valdið gilt, Í Kristí krapti' eg segi: „Kom þú sæll, þegar þú vilt".

## Um kristilega burtför.

Lagið: Kom andi heilagi.

Enn ber eg andar kvein Upp til guðs hæða, Hann kann mín margföld mein Mjúkast að græða.

2. Andvarp mitt ekki hann Út frá sèr rekur, Hug gleður harmfullan, Höndum við tekur.

3. Mitt daglegt yndi er Á hann að kvaka, Eins á nótt sál mín sèr Sætleik hans vaka.

4. Er hún svo yfrið lyst Eptir þeim herra, Sem veröld vökva þyrst Við sumarþerra.

5. Rík girnd sú rennir opt, Rètt óseðjandi, Huganum hátt í lopt, Hèr þó eg standi.

6. Í munninn falla fljótt Fossarnir tára, Innvortis er samt hljótt Andvarpið sára.

7. Kinnbeinin þar með þvæ, Þau nokkuð svíða; Guð sèr, hvað sárt eg fæ Sorgir við stríða.

8. Nær skal sú sálar girnd Södd fullkomlega, Að aldeilis út sè fyrnd Örin míns trega.

9. Að sál og líka líf Líta þann nái, Sem endar allt mitt kíf, Eptir eg þrái.

10. Nú vill það harðla heitt Huga minn beygja, Eg á það eptir eitt Enn nú, að deyja.

11. Uggur sá ángrar mig, Eg hlýt að styggja, Drottinn! svo þráfalt þig, Þenna heim byggja.

12. Væri afstaðið stríð, Stilltist sú hræðsla, Fullkomin bættist blíð Bartskerans græðsla.

13. Jesú minn! leggðu lið, Láttu mig trúa Þèr, heitt eg þess nú bið, Þar frá ei snúa.

14. Holdsveikin þrýtur þá, Þinn sætleik geymi, Útför vil feginn fá Frá þessum heimi.

15. Þín orð mitt lífga líf, Líka þó deyi, Þar við óbilugt blíf, Bregðast þau eigi.

16. Því verður þelið hraust, Þó dauðinn komi, Lukkast mèr lofað traust Líka' í guðs dómi.

17. Eg veit að Jesús minn, Upp kann mig vekja, Með holdi mín beinin Mun aptur þekja.

18. Með sama sjónarhvarm, Sem hèr nú væti, Sè eg hann sviptur harm Í sigurkæti.

19. Af er þá ángistar Öll raun og mæða, Hrekst eg ei hrumur þar Í hrörnan klæða.

20. Mína eg fundið fæ Fagnaðar-glaða, Sem blómgað sumarfræ Sætra laufblaða.

21. Djöfull og dólgar hans Dýrð þá

ei fella, Sem hèr í sorgardans Sífellt mig hrella.

22. Því vil eg friðarfús, Frá hryggðardjúpi Af leggja holdsins hús, Svo hyljist hjúpi.

23. Lamb guðs, sem líf mèr fann, Láttu mig vera Sáttan við sèrhvern mann Samt þig, minn herra!

24. Gef þú mèr góða menn, Gröf mína taka, Og, meðan anda enn, Yfir mèr vaka.

25. Guð! lát mig eingin orð Af munni leiða, Sem búa sálu morð, Sælu mig sneyða.

26. Yfir allt annað hitt Unn mèr að hreppa Hold og blóð helgast þitt, Huggun ei sleppa.

27. Jesú, guðs sanni son! Send mèr til handa Þá hæstu heilla von, Heilagan anda.

28. Fyrir stríð strángast þitt, Sterkasti drottinn! Andlátið mjúkt gef mitt, Mèr sè bær sóttin.

29. Eingan lát ótta' af mèr Afgeingnum standa, Svæf þú mig sætt í þèr, Sjálfum til handa.

30. Meðtak þú mína önd, Minn Jesú Kristi! Í þinni heilla hönd Hún sè og gisti.

31. Láttu, guð! þekkan þinn Þjón einhvern vera Foríngja fróman minn, Fagran saung gera.

32. Sem liðið lík og gröf Ljúft sè að blessa, Og láti' á einga töf Orð guðs að messa.

33. Launa þú sjálfur svo Saung þann og lestur, Drottinn! um tíma tvo, Trúr hirðir beztur.

34. Hèr með þig blíðan bið, Brunnur alls góða! Send þú þeim sífelt lið, Sem þar til stoða.

35. Öðlist þeir eilíft gagn, Auðgist á foldu, Sem bera sveita magn, Að sópa' á mig moldu.

36. Sofnaður síðan þá Sæll mun uppreistur, Erfiði öllu frá Af guði leystur.

37. Allt, hvað minn góði guð Gaf mèr í heimi, Einn taki aptur við, Annist og geymi.

38. Hann veri faðir fús Föðurleysíngja, Miskun og matarhús Minna veslínga.

39. Lýsi þeim lífs á braut, Linkind á breiði, Og svo úr allri þraut Um síðir leiði.

40. Ei læt þeim eptir mig Auð, gull nè silfur, Heldur, guð! helzt bið þig Hjálpa þeim sjálfur.

41. Ó minn guð! mín er það Mjúk bæn og vonin, Þann hópinn þèr tak að Þinn fyrir soninn.

42. Eins meðan erum vær Öll hèr á lífi, Þín blessuð náð sè nær, Við nauðum hlífi.

43. Vort fátækt hafðu hús Í hendi þinni, Drottinn guð friðarfús! Frjóvga það inni.

44. Þín orð þá beztu björg, Brauð, hús og klæði, Gefi þín gæzkan mörg, Guð! þolinmæði.

45. Einn sèrtu, sanni guð! Sem með oss vendi, Að sækja allan auð Í þitt haglendi.

46. Drottin minn harla heitt Helzt þar um beiði, Hætt svo ei saki neitt, Sál hèðan leiði.

47. Herra! mig heiman bú Í hendur

þínar, Leið mig í lífsins trú Um lífstíð mína.

48. Ei láttu synda sið Saurga mitt hjarta, Svo megi sætt með frið Samvizkan skarta.

49. Hátt og djúpt heitum foss Hjartans út renni; Barn guðs, sem bar sinn kross Í brjósti' um mig kenni.

50. Mjög hætt er marga stund, Minn hrellist hugur; Gef náð af góðri lund, Guð almáttugur.

51. Eg trúi á þig fast, Almáttug vera Þann skjöld fyrir skeytið hvast Skal eg fram bera.

52. Drottinn! eg þekki þig, Þèr því befala Öldúngis allan mig, Án hjartans kala.

53. Særðu og grættu geð, Guð! Sem þèr lyndir, Auðmjúk bæn mín er með, Minnst ei á syndir.

54. Eg á mig ekki hèr Í veröldinni, Drottinn eg eign þín er, Af miskun þinni.

55. Því, veit eg, sèr þinn sauð Sjálfs, þó hèr arki, Þinn þekkir allan auð Af eigin marki.

56. Úlfsins seðst ekki kverk Af sálu minni, Þín höndin harðla sterk Hlífir hjörð sinni.

57. Hèr beygi' eg hjartans knè, Hjálpar sárbæni; Rètt sem ein ambátt sè, Upp til guðs mæni.

58. Yfirgef ekki mig Í þinni bræði, Gef fundið geti' eg þig, Guð, mitt hjálpræði!

59. Frá einni eyktar stund Allt fram til hinnar Bíð eg með ljúfri lund Lífs komu þinnar.

60. Gjörðu nú, guð minn! snart Að gráti mínum, Börðum reyr bend ei hart Blóðkeyptum þínum.

61. Höfuð mitt seka sè, Sem kjöltu móður, Lagt í þitt líknar knè, Lausnarinn góður!

62. Burt mèr ei bljúgum hrind Böðuls í hendur, Fætur þín faðmi bind, Frelsarinn kenndur!

63. Öndin mín sýgur svo Sár þinna rista, Eins og brjóstbrunna tvo Barnið örþyrsta.

64. Mèr geingur mergjar til Miskun

út dregin, Mitt ángur mýkja vil Mjög hjartans feginn.

65. Þaðan um eilíf ár Aldrei burt venda; Drottinn! þinn heiður hár Haldist án enda.

66. Eja, þèr, góði guð! Göfgun sè framen Um eilífð ár og síð, Amen já, amen.

## Andlátssálmur,

### sem skáldið kvað á sóttarsænginni.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Herra Jesú! eg hrópa' á þig, Hjartans því kraptar dvína, Bænheyr þú, drottinn mildur! mig Fyrir miskunsemina þína.

2. Bænheyr mig fyrir þín blóðug sár Og benjafossinn rauða, Bænheyr mig, náðar kóngur klár! Og kenndu til minna nauða.

3. Bænheyr mig fyrir þinn trega' og tár Og titrandi kvalanna pínu, Bænheyr mig fyrir þitt síðusár, Og svalaðu hjarta mínu.

4. Ljúfur Jesú! eg leita þín, Lát mèr

að hvarfi verða. Angráð er nokkuð öndin mín, Að vilja þrautir herða.

5. Láttu mig finna líkn hjá þèr, Ljúfustum eðla bróður, Hússkrossi litlum hægðu' á mèr; Heyrðu það, guð minn góður!

6. Þó vil eg bikar þenna af Með þakklátu hjarta drekka, Súrt þó mèr finnist sútakaf; Svalaðu mínum ekka.

7. Herra! gef mèr í hjartans geð Heilaga þolinmæði, Umburðarlyndi einnig með Og eilíf sálargæði.

8. Kærleikans eld þú kveyk í mèr, Kref eg þess, guð! af hjarta, Í andlegum hjúskap æ með þèr Önd mín svo nái' að skarta.

9. Drottinn! þú veizt minn þánka' og þel Og þörfina alla mína, Þína í hönd eg það allt fel Þyrstur í miskun þína.

10. Aldur minn þegar úti er, Eymdum trúi' eg þá linni, Fyrir blóð þitt, Jesú! bjarga mèr, Á banasænginni minni.

11. Hressi mig þá þitt blessað blóð, Beint svo að trúarstafni Heim eg þá rèttu hjálparslóð Haldi í Jesú nafni.

12. Bænheyr mig, himnesk blíðan væn Og blessaður eðla bróðir, Gleym þú ei minni gjörðri bæn, Gáðu' hennar, Jesú góði!

13. Andláts þá stundu yfir mig slær, Allt mál og megn vill dvína, Heim til þín, faðir hjartakær! Hafðu sálina mína.

14. Hægan gef dauða og hèðanför, Hvíld þar með holdi mínu, Í upprisunni þau eðla kjör Í augliti' að gleðjast þínu.

15. Láttu mitt hjarta segja með sèr Og svoddan trú í því standa: Herra Jesú! miskuna mèr, Meðtak þú svo minn anda.

16. Falli svo til, eg missi mál Minn fyrir afgángstíma, Í mitt hjarta, sinni og sál Svoddan orð virztu' að líma.

17. Þá er eg hólpinn, það er mín trú, Þessa bón virzt mèr veita; Andliti þínu að mèr snú, Eins sem eg þess nú leita.

18. Feginn vil eg sem fljótast nú Frelsast úr dauðans skorðum, Augliti þínu að mèr snú, Eins og til Pèturs forðum.

19. Sæti Jesú! mig sviptu pín, Sálm-

inn gjöri' eg svo enda, Hrelldu svalaðu hjarta mín, 'Huggun virztu mèr senda.

### Annar andlátssálmur,

sem skáldið orti síðast á sóttarsænginni.

Lagið: Skaparinn stjarna, herra hreinn.

Guð komi sjálfur nú með náð, Nú sjái guð mitt efni' og ráð, Nú er mèr, Jesú! þörf á þèr, Þèr hefi' eg treyst í heimi hèr.

2. Eg hefi' aldrei í nokkri nauð Nauðstaddur beðið utan guð, Guð hefir sjálfur gegnt mèr þá, Guð veri mèr nú líka hjá.

3. Ákvörðuð mín og mæld er stund, Mitt líf stendur í þinni hönd, andlátið kemur eitt sinn að, Einn veiztu, guð! nær skeður það.

4. Nú hefi' eg þar á nokkurn grun, Nálægjast þessi stundin mun; Holdið mitt er af harmi þreytt, Hafa kraptarnir sèr umbreytt.

5. Finn eg, að augum förlast sýn, Falla tekur nú heyrnin mín, Hendurnar hafa

misst sitt magn, Minn fótur vinnur ekkert gagn.

6. Líkaminn allur særður sótt Svitnar, og dregur af mèr þrótt, Einnig þreingist um andardrátt, Eg vænti minnar hvíldar brátt.

7. Dofna varir og túngan treg, Tala því ekki orka eg, Hjartað svo margs kyns mæða lýr, Mannleg hjálp öll sèr frá mèr snýr.

8. Sárbeiði' eg guð af góðri lund: „Gef þú mèr hæga dauðastund, Ofbjóða lát ei andláts deyð, Aumka þig yfir mína neyð".

9. Vitnisburð þann frá eilífð átt, Að þú hjálpir á beztan hátt, Þá endast megn og mannleg stoð, Miskuna þú mèr, drottinn guð!

10. Láttu nú sannast liðið þitt, Líttu á kvein og andvarp mitt, Eg sárgrátbæni, son guðs! þig, Syndirnar skyldu nú við mig.

11. Útslegið bið eg allt það sè, Er eg þig, drottinn! móðgaðe; Óverðugum til góða ger, Guð! sem optar, og hjálpa mèr.

12. Fyrst þú hefir svo híngað til Haft stóra náð og kærleiksyl Í frammi við mig fallinn mann, Frelsaðu mig nú nauðstaddan.

13. Þú hefir fyrri fyrir mig strítt, Feingið mèr sigurmerkið nýtt; Jesú minn! nú þín frægðin fríð Fyrir mig vinni dauðans stríð.

14. Gef þú mèr eina trausta trú, Til þín, minn hjartans herra! nú Í gegnum dauðans grimma hlið Guð láti komast mig með frið.

15. Sæktu, minn guð! hvað sjálfs þíns er, Sálina þá, sem gafstu mèr, Skildu hana nú hægt við hold, Hvílast lát það í jarðar mold.

16. Hún verður fegin hvíldar fund, Haft hefir marga mæðustund, Vosbúðarnótt og nauða flug, Næsta barizt með veikan dug.

17. En það, hún hefir af borið, Er skeð fyrir hins hæsta lið, Hann hefir sinn hinn sanna krapt Svo í þeim breyska ríkan haft.

18. Opt hefir lúinn anda nært, Erfiði

hjartans stilling fært; Úrræði er eg engin sá, Í sínu skauti bar mig þá.

19. Legg þú mig nú á náðarbrjóst, Nafnfrægi guð! sem heitir ljóst Hjúkrun, aðstoð og hjálparlið; Hjartanu gef nú sannan frið.

20. Af þreingslum minnar móður lífs Mig leiddir þú án dauðans kífs, Leys nú af þreingslum líkamans Lifandi sál til himna ranns.

21. Strax, sem mín augna upp kom rós, Eg fèkk að líta heimsins ljós, Fyrr en eg allur fæddur var, Fèkkstu mèr þá hið nægsta svar.

22. Svo láttu mína sálu nú Sjá þig í einni rèttri trú, Vertu sjálfur ljósmóðir mín, Mín sál fæðist í hendur þín.

23. Í skírninni mèr skeinktir þig, Skal eg þèr, Jesú! aptur mig Grandvarlega með góðri lund Gefa á minni dauðastund.

24. Óbeðinn tókst mig að þèr fyrst, En nú sárbið eg, Jesú Krist! Með trúar-hendi þèr haldi' eg fast, Herra'! lát mig ei vanmegnast.

25. Strax, sem mèr leystist túnga' og

tönn, Til mín barst lífsins fæða sönn Af öldum kálfi; sál mín saug Sonar guðs blóð, þá dýrstu laug.

26. Heilagur andi hæstur þinn, Hann er sá tryggðahríngurinn, Sem sonur guðs mèr gaf á hönd, Giptast þá vildi' hann minni önd.

27. Skínandi föt mèr skeinktir þá, Að skyldir mig í þeim aptur sjá, Bæði á dægri dauða míns, Drottinn! og ríki föður þíns.

28. Eg kem hèr fram með ekkert mitt, Elskugi minn! í brúðkaup þitt; Sjá þú mig nú í sjálfum þèr, Saurugt er allt, hvað með mèr er.

29. Eg hefi' svo marga mæðustund Mænt eptir þínum dýrðarfund, Finndu mig nú, þó liggi' eg lágt, Lát mig ei ætíð eiga bágt.

30. Sè eg þig gegnum svart eitt ský, Sitjandi himnaríki í; Eg á nú til þín ekki lángt, En mèr finnst bæði hart og strángt.

31. Eg styð mig nú við orðið þitt, Erfiði lèttu, drottinn! mitt, Sálin mín

er af þúnga þjáð, þyrst og sárhúngruð eptir náð.

32. Deyf þú nú alla dauðans raun, Drottinn! gjald mèr ei verðug laun; Eptir náð þinni minnstu mín, Minníngin lifir í mèr þín.

33. Á náð legg eg mig lausnarans, Lífið mitt er í valdi hans; Gæzkan þín hefir grát minn stillt, Guð! far þú með mig, sem þú vilt.

34. Honum einum eg hefi' mig geymt, Hans náð hefir mèr ekki gleymt; Raungóður, sem mèr sèst nú hjá, sálu minni mest liggur á.

35. Lífsins partinn mèr lagði þann, Lifandi anda heilagan; Signetið það með sannri list Setur á hjartað Jesúm Krist.

36. En hvar Jesús í brjósti býr, Býr þar hans náð og elskan dýr, Synda kvittan og miskun manns; Mitt líf það er í valdi hans.

37. Eg treysti guði upp á öll Orð hans, og held þau minn grundvöll, Jörð og himnar forgánga greitt, En guðsorð skeikar ekki neitt.

38. Eg vil í drottni sofna sætt, Samvizkustríðið allt er bætt, Dauðahaldi eg drottin þríf; Dýrstur gef þú mèr eilíft líf.

39. Kveð eg í guði góðan lýð, Gleðilegar þeim nætur býð, Þakkandi öllum þeirra styrk, Þjónustu, hjálp og kærleiksverk.

40. Ástkæra, þá eg eptir skil, Afhenda sjálfum guði vil; Andvarpið sèr hann sárt og heitt, Segja þarf honum ekki neitt.

41. Unni hann yður kærleiks koss, Kvitt á hann einn að skilja oss; gef þú það, Jesú Kristi kær! Kátir hjá þèr að finnumst vær.

42. Hlýðni alla og þolið þýtt, Það veiti guð mèr harðla blítt, Gefi mig kvittan guð og menn, Grátbæni' eg þess af hjarta enn.

43. Lúinn anda eg legg nú af, Lífinu ráði sá, sem gaf; Í sárum Jesú mig sætt inn vef, Sálu mína eg guði gef.

44. Láttu mig, drottinn! lofa þig, Með lofi þínu hvíla mig, Ljósið í þínu

ljósi sjá, Lofa þig strax, sem vakna má.

45. Láttu mig færa fram þau hljóð Fyrst og seinast, minn drottinn guð! Að lofa þig, í heiðri hár, Haldist þín dýrð um eilíf ár.

## Um sælu himnaríkis.

Lagið: Mikilli farsæld mætir sá.

Upp, upp mín sál, og ferðumst fús, Friðarins borg að ná, Þar ununarsamleg eru hús, Æskileg guði hjá, Þar sáluhjálp án enda er, Án dauða líf eilíft, Án hryggðar gleðin aldrei þver, Ángri þar verður svipt; Án myrkra ljósið aldrei dvín, Eilífur gleðidagur skín, Veikleiki, ótti, víl, nè þrá Verður ei nokkur þar, Harmurinn einginn mæða má, Mein ekkert snertir par, Gefi' oss að öðlast gleði þá Guð' drottinn alls herjar.

2. Maður einginn hèr mæla slíkt, Meta nè skynja kann, Hvað fagnaðar-líf er farsælligt Fríðum í himna-rann; Herrann vor Kristur sú er sól, Sem að oss forklárar, Ljómum þar fyrir lambsins

stól, Líka sem stjörnurnar; Augnanna sífelld er þar lyst Álíta herrann Jesúm Krist, Eyrun vor heyra ætíð fá Ilmandi raddirnar, Sætur hljóðfæra saungur sá sífelldlega hljómar, Glaðir æ sýngjum göfgun há Guði til eilífðar.

3. Þar er prísuð í þeirri borg Þrenníngin guðdóms há, Hennar um gjörvöll heyrist torg Hljóðfögur *musica*, Þar er án elli æskan hrein, Án veiki heilsan klár, Þar snertir ei hið minnsta mein Mann neinn um eilíf ár, Allri drottins með einglahirð Útvaldir búa' í þeirri dýrð, Hverrar gleðinnar yndið er Augliti guðs að sjá, Ódauðlegleika íklæddder Og eilífri birtu há, Kórónur þeirra hefir hver Höfðum gullegar á.

4. Ó, hvað farsæl að er sú tíð, Þá erum komnir þar, Og eptir liðna heimsins hríð Heitum guðs borgarar, Frá allri mæðu eymd og þrá, Erum þá loksins frí, Heiður, dýrð, gleði hljómar þá, Himnesku landi í; Æ hvað fagnaðarvegsemd vor Vera mun háleitlega stór, Þá endurlausnarinn afhendir Ástkærum föður oss,

Faðminn á móti blítt breiðir, Býður fram ástarkoss; Hryggð og mæða þá horfin er, Hörmúng og tára-foss.

5. Heilagan selskap höfum þar Himneskum guði með, Forfeður, spámenn fullglöggt vær Fáum þar alla sèð, Æskilegustu umgeingni Einnig þeim höfum hjá; Sífellda elsku' og samþykki Sýna hver öðrum má, Ásamt ókenndum öllum glöggt Ástmenn vora vèr fáum þekkt, Frændur og vinir finnast þá Fagnaði meður þar, Blómleg og svo með blíðu sjá Börnin sín foreldrar, Fagnaðar verður fundur sá Fremur en mann skynjar.

6. Þessi að öðlast gæðin góð, Gef þú mèr, drottinn minn! Fyrir þíns sonar blessað blóð Bænheyrðu þrælinn þinn; Þegar heiminum frá eg fer, Frels mig af andarpín, Skríð mína sál í himna her, Herra! með blóði þín, Að eg útvöldum öllum með Eilífar þakkir fái tèð, Andlit þitt blíða unn þú mèr, Alvaldur guð! að sjá, Einnig að búa um alder Eilífar sjálfum hjá, Svo eg án enda sýngi þèr *sanctus* og *gloria*.

# ÞRIÐJI PARTURINN

innibeldur

ýmislega kveðlínga
til guðrækniss-iðkunar og siðabóta.

## Fyrsti flokkur,

í hverjum finnast
nokkrir andríkir og guðrækilegir
kveðlíngar.

### Sumarvísa,

kveðin árið 1657.

Lagið: Lofið guð, lofið hann hver sem kann.

Vetrartíð víst er umliðin nú, Farsæl, blíð, blessunarfull var sú; Drottinn veitti lýðum lið um láðið og græði, Heilsu, frelsi, fæðu, frið, flest náðar gæði; Menn og hjörð máttu ei neina Af lopti' og jörð landplágu reyna; Þakkargjörð því skulum greina Ástar lystilegum hug; :,:Lofaður hafi gefið oss guð gáfurnar sínar:,:.

2. Veður mjúk, von manna framar þó, Eingin fjúk, allsjaldan frost eða snjó Reyndi kindin raunar nein, rètt má svo inna, Hvorki hörku mun nè mein máttum því finna, Þarfleg nægð því var á fóðri, Skjól og hægð skepnunni móðri, Þessa vægð þökkum vèr góðri Miskun ferskri drottins dátt; :,:Hafi nú lof og heiður guð á himni og jörðu:,:.

3. Sjónum af afla og fiskiplóg, Herrann gaf hverjum, svo dugði nóg, Voðinn bráður vinds og unns varð eingum skæður, Stýrði ferð til sands og sunds, sá öllu ræður; Um vora sveit sóttin allfæsta, Það eg veit, þjáð hefir næsta, Mjúk og heit miskunin stærsta Drottins veitti oss værð og vörð; :,:Helgum, prísum, heiðrum guð með hjarta og sálu:,:.

4. Hver fær tjáð, talið og reiknað greitt Svoddan náð, sem oss fèkk drottinn veitt, Stundleg, andleg gæðin góð, gáfurnar flestar Af föður blíðum þáði þjóð þær allra beztar; Kynníng hans, klárt orðið sanna Friðinn lands, farsældir manna, Andskotans ákefð rèð banna

Eingin þvíngan lúði lýð; :,:Lofaður sè vor ljúfi guð fyrir lánið sitt góða:,:.

## Mismunur veturs og sumars.

Lagið: Ó Jesú, eðla blómi.

Kominn er veturinn kaldi, Kastar að margri hríð, Af drottins vísdóms valdi Veslast sú ársins tíð; Sæl geymir sól ljóma, Svöl þrumir kul-hami Jel-römum fjöl-fima Fyrna örnin stríð.

2. Grund frýs, en grasið dofnar, Gripiná vantar skjól, Bersnöggir standa stofnar, Stirðnar lim, skóginn kól; Smár fuglinn þreyr þögli, Þver hygli, dýr ragla, Ber segl frá byr-tryglum Blandið vindahjól.

3. Skörp frostin skemmta eigi, Skepnan hver ber sig lítt, Snjór hylur víða vegi, Villist því margur títt; Klæðlausir freð-frusu, Frið-hreysi nauð kjósa; Að húsum fèð flasar, Fælist kulið strítt.

4. En þegar vorar aptur, Upp geingur sólin skær, Öllu nýr eflist kraptur, Annað bragð loptið fær; Köld hýrnar fold forna, Fylld kjarna mold stirðnuð,

Sýld meyrna sjaldornuð Svellin fjöllum nær.

5. Fuglar úr fylgsnum hreifast, Fèð drífur húsum frá, Dýrin um skóga dreifast, Dag saman fjölga þá; Menn hýrast, en ærin Önn heyrist, grannfærum Hlunnjórum hrönn báru Hrindir sundið á.

6. Döggina drífa lætur Drottinn á kaldan snjó, Verkar svo mildimætur, Moldin þurr verður frjó; Glys skógar, grös haga, Glasfögur rós þæga Rís, þegar rásdrjúga Raka þokan bjó.

7. Frostið þó fargi gróða, Frjóvgast samt upp á ný; Frækornsins sjá menn sjóða Sín geyma blómstrin frí; Krapt fróni ljúft lènar Loptskinið drifthreina; Gæft duna, svipt sjónum, Sjötnuð vatna ský.

8. Sumarsins blóminn sæli Sýnir oss drottins mátt, Vetur þó kaldur kæli Korn, jörð, gras, fræið smátt; Árstíðin úr sæði Ör gæði hýr leiðir; Frjór lýður fær guði Fríðan heiður þrátt.

# Úngmenna morgunbæn.

Í þínu nafni uppvaknaður
Er eg, Jesú, guð og maður!
Lof sè þèr fyrir líf og gæði,
Líkamans heilsu föt og fæði,
Og allt það, þín óþreytt mildi
Aumum mèr til leggja vildi;
Bið eg þig, minn blíði herra!
Blessan þína ei lát þverra,
Hegðan minni' á hverjum degi
Haltu' á sönnum dyggða vegi,
Lát mig njóta úngdóms ára,
Er þú barst í manndóm klára.
Gef upp fræði æsku mína
Andi þinn fyrir verkun sína,
Svo í ótta' og elsku þinni
Ávöxt góðan færa kynni.
Hlýðni, tryggð og trúna bjarta,
Tendra' og nær í mínu hjarta,
Að mèr svo með aldri hrönnum
Aukist náð hjá guði' og mönnum.
Heims og satans hrekkjasnörum
Hrind frá mèr, svo ei óvörum
Mig ógætinn í sèr festi,
Eður dragi' í synd og lesti.
Vernda mig frá voða öllum,
Vondum dauða' og slysaföllum;
Einglar þínir að mèr gæti,
Eingum svo eg meiðslum mæti.

Mitt verklag og miskun þína,
Mèr lát vera unun mína.
Auk mèr skilning orða þinna,
Eru þau lampi fóta minna.
Gef mèr jafnan gott að læra,
Góðlyndum við alla vera,
Varfærum í velgeingninni,
Vongóðum, þó raunir finni.
Ljúfi Jesú! með lífi' og öndu
Legg eg mig í þínar höndur;
Þar vil eg fús að lyktum lenda,
Lofaður sèrtu utan enda.

## Úngmenna kvöldbæn.

Nú vil eg enn í nafni þínu,
Náðugi guð! sem lèttir pínu,
Mèr að minni hvílu halla
Og heiðra þig fyrir gæzku alla
Þáða' af þèr á þessum degi;
Því er skylt eg gleymi eigi;
En það má eg aumur játa,
Ángri vafinn sýta' og gráta;
Móðgað hefi' eg margfaldlega
Mildi þína guðdómlega.
Út slètt mínar syndir svartar,
Sundurkramið lækna hjarta
Afþvegið í æðsta flóði,
Endurlausnarans Jesú blóði,
Svo eg kvittur sofi' í friði,

Sál og líf af eingla liði
Umkringd, satans illsku hrekki,
Ógn og slægðir finni ekki.
Blessa hús og hvílu mína,
Hjástoð lát mig merkja þína,
þá mun aðsókn illra anda
Ei hið minnsta kunna' að granda.
Lát mig þeinkja' á þessu kvöldi,
það eg lifi' í veiku holdi;
Brothætt gler og bólan þunna
Brotna snart og hjaðna kunna.
þú einn, guð! skalt þar um ráða,
þínar ný eg á dyr náðar,
Af míns hjartans innsta grunni
Andvarpa og bið með munni:
þegar eg skal seinast sofna,
Sál við skilur, fjörið dofnar,
Hjartans faðir! í hendur þínar
Hverfa lát þá öndu mína;
Hold í jörðu hægt lát blunda,
Helgra þar svo bíði funda,
Og upprisinn að eg víki
Inn með þèr í himnaríki.
þar mun eg þúsund þakkir færa.
þèr sè lofgjörð, prís og æra.

## Hugbót,

þá húsin brunnu í Saurbæ 1662.

Lagið: Ó faðir minn, eg þrællinn þinn.

Guð er minn guð, þó geisi nauð, Og

gángi þannig yfir; Syrgja skal spart, þó missti' eg margt, Máttugur herrann lifir; Af hjarta nú og hreinni trú Til hans skal eg mèr venda; Nafn drottins sætt fær bölið bætt, Blessað sè það án enda.

2. Gaf mèr hans náð gott lukku ráð, Að gleðinnar efldist kraptur, Frjálst á hann þá, og fullvel má Frá mèr taka það aptur, Hans hjálpin blíð á hverri tíð Huggun virðist mèr senda; Nafn drottins sætt fær bölið bætt, Blessað sè það án enda.

3. Tók ei djöfull nè töfrafull Tilviljun burt eign mína; Sá, sem það gaf, svipti því af, Sorgin skal öll því dvína; Mitt bætir ráð með mildi' og náð Hans miskun þúsund-kennda; Nafn drottins sætt fær bölið bætt, Blessað sè það án enda.

4. Guð elskar þann, sem hirtir hann, Hefi' eg þá trúna vissa, Vil eg með hind, vesöl barnkind Á vönd föðursins kyssa, Heilsu, lán, fèð og heiður með Hans náð vil eg afhenda; Nafn drottins sætt fær bölið bætt, Blessað sè það án enda.

5. Af mèr þó fèð og auðlegð með Óðum svo gánga megi, Grátbæni' eg nú, góði Jesú, Gleymdu mèr þó aldregi; Lát mig hjá þèr, þá hèðan fer, Í himna sælu lenda. Nafn drottins sætt fær bölið bætt, Blessað sè það án enda.

## Iðrunarvísur.

Með sínu lagi.

Guð á himnum hjálpi mèr Og huggi sálu mína, Særðan huga sorgin sker, Syndir hjartað pína, Þúngan kvíða brjóstið ber, Berst við þánka sína, Mæðist hold, en leingist líf, Lángvesalt er harma kíf, Ei vill ángur dvína.

2. Laungum gjöra mèr lángsamt geð Liðnar æfitíðir, Heldur seint eg hefi það sèð, Hefndum sálin kvíðir, Dauðans ógn og ótti með Opt á holdið stríðir, Hugraun sú er harðla sár; Himna faðirinn dýrðar-klár Bæti bölið um síðir.

3. Getinn var eg í sekt og synd, Svo mig móðirin fæddi, Eptir fornri Adams mynd, Eins og Davíð ræddi; Því er sálin sjúk og blind, Sorgin hjartað mæddi, Holds

náttúran heimsk og villt, Herfilega með öllu spillt, Í vonzku áfram æddi.

4. Snemma hefir bernskan blekkt Barndóms hug og sinni, Áður fyrri' en fèkk það þekkt, Frá því skýra kynni, Að styggja guð en safna sekt, Sálu' að glata minni Var hið fyrsta verkið mitt; Voldugt, Jesú! nafnið þitt Bót á bölinu vinni.

5. Leingi hefir þó leitazt við Líknarfaðirinn mildi Að leiða mig frá lasta sið, Svo lífið öðlast skyldi, Með þolinmæði' og blíðri bið Bjarga mèr hann vildi; En eg sló því öllu' í vind, Elskan holds og dárleg synd Heimsku hjartað fylldi.

6. Illa hefir mig holdið ginnt Og heimsins lystin bráða; Satan sló mèr svikamynt, Sèst nú fátt til ráða, Því er hjartað blekkt og blint, Það bið eg guð að náða; Þrey eg við þann hryggðar hag, Harmar bæði nótt og dag Sálin þrautum þjáða.

7. Guð minn hefi' eg raunar reitt Til reiði' og heiptar bræði, Hans milda náð og þolgeð þreytt Með þrjózku' og synda æði, Grimma' yfir mig glötun leitt Gam-

all og úngur bæði; Samvizkan því særð er mín, Sæti Jesú! gæzkan þín Hana huggi' og græði.

8. Um síðir þó eg setji mèr Synda girnd að deyða, Holds náttúran þrjózk og þver Þángað vill mig leiða, Sem tíðast áður tamdi' hún sèr, Á töpunar veginn breiða; Viljinn ekki fær sig frí, Fjötrum dauðans vefst eg í, Sárlega mig þó meiða.

9. Hvorki ber eg til hug nè dáð, Hjálp mèr sjálfum veita, einskis nýt eru öll mín ráð, Þó ætti eg þeirra' að neyta; Jesús minn hefir nóga náð, Nú vil eg þángað leita, Hann mun aumur á mèr sjá, Eflaust fæ eg huggun þá, Sem bölinu kann að breyta.

10. Þó stærri virðist misgjörð mín, En má eg sjálfur greina, Mèr er, Jesú! miskun þín Mildust gæzku-hreina, Hjá þèr aldrei hjálpin dvín, Helzt mun eg það reyna; Hèr við hressist hjartað mitt, Heilagasta blóðið þitt Er lækníng minna meina.

11. Þó geingið hafi' eg glæpastig Gá-

laus mörgu sinni, Elskað hold en hatað þig Af heimsku' og ofdirfð minni, Góði Jesú! minnstu' á mig Í miskunsemi þinni; Særð og lemstruð 'sálin er, Sýndu vægð og linkind mèr, Svo hjartað huggun finni.

12. Mig hefir djöfull sárum sært Og svikið af lífsins vegi, Kránka sál úr klæðum fært, Hún kann sèr bjarga eigi, Öllum krapti tapað og tært, Tjón það mest eg segi; Ó þú sæti Samarítan, Sjáðu aumur á þeirri smán, Svo eg ei út af deyi.

13. Góssi því, eg þráði þrátt Af þinni gæzkuhendi, Illsku girndin eyddi brátt, Aptur drafið sendi; Hefi' eg leingi húngra mátt, Heim nú loksins vendi; Taktu við mèr útlegð úr, Eins og faðirinn hjartatrúr Í brjósti' um barn sitt kenndi.

14. Lækna fyrir þinn dýran deyð, Drottinn! sálu mína; Fárleg synda fjöturin greið, Svo finni' eg huggun þína, Villtan sauð á veginn leið, Varginn lát ei pína, Opna hug og hjartað mitt, Svo

heilagt náðar ljósið þitt Skært megi þar skína.

15. Hjá föður þínum legg mèr lið, Lausnarinn Jesú góði! Svo eg finni sátt og frið, Sviptur þúngum móði, Auðmjúklega' eg um það bið Af ást og táraflóði; Segðu eg sè orðinn einn, Af öllum syndum klár og hreinn, Þveginn í þínu blóði.

16. Framdar syndir forlát mèr, Faðirinn dýrðar sæli! Fyrir dýrstan Jesú dreyra hèr, Af döprum hug eg mæli: Kastaðu ei frá augum þèr, Ómaklegum þræli, Efldu líf með ást og dáð, Svo aldrei mig frá þinni náð Freistíng nokkur fæli.

17. Á fyrirheitin heilög þín Af hjartans grunni' eg treysti, Frá djöfli synd og sárri pín Son þinn kær mig leysti, Með beiskri kvöl og blóði sín Barn sitt fallið reisti, Herra guð! mèr hjálpa þú, Svo haldist eg við rètta trú, Þó frekt mín satan freisti.

18. Heilags anda hjálpin þýð Hug og sinni geymi, Svo aldrei hèðan af illsku-stríð Yfir mig syndin sveimi, Þá

döpur nálgast dauðans tíð, Drottinn sálu geymi; Veiti mèr þín líknin lið, Leið í eilífan dýrðar frið Hèðan úr þessum heimi.

19. Allar skepnur alla tíð Af öllum hug og rómi Syngi þèr lof, sem veröld er víð, Voldugur drottinn frómi! Jesú Kristi þökkin þýð Þar með fögur hljómi, Heilögum anda' á himni' og láð Fyrir huggun, styrk og líknar ráð Aukist æra' og sómi.

## Vísa dróttkveðin.

Hver græðir hjartans kvíða?
Hver kætti menn grætta?
Hver sótt hindrar hætta?
Hver snauðan vann dauða?
Jesús huggar, hryggð lógar.
Hann græddi sorgmædda.
Hann lífi heilsu gefur.
Hann snauðan vann dauða.

# Annar flokkur

inniheldur

heilræði og uppvakníngar til kristilegs framferðis,

sýnir einnig, hversu fallvalt og lítilsvert sè

heimsins ágæti og yfirlæti.

---

## Heilræði.

Úngum er það allra bezt, Að óttast guð sinn herra, Þeim mun vizkan veitast mest, Og virðíng ekki þverra.

2. Hafðu hvorki háð nè spott, Hugsa' um ræðu mína, Elska guð og gjörðu gott, Geym vel æru þína.

3. Foreldrum þínum þèna' af dyggð, Það má gæfu veita, Varast þeim að veita styggð, Viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um það helzt og fremst, Sem heiðurinn má næra, Aldrei sá til æru kemst, Sem ekkert gott vill læra.

5. Lærður er í lyndi glaður, Lof ber hann hjá þjóðum, Hinn er ei nema hálfur maður, Sem hafnar siðum góðum.

6. Opt er sá í orðum nýtur, Sem iðkar

menntun kæra; En þussinn heimskur þegja hlýtur, Sem þrjózkast við að læra.

7. Vertu dyggur, trúr og tryggur, Túngu geymdu þína, Við eingan styggur, nè í orðum hryggur; Athuga ræðu mína.

8. Lítillátur, ljúfur, kátur, Leik þèr ei úr máta; varast spjátur, hæðni, hlátur; Heimskir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vana halt, Vinna, lesa, iðja; Um fram allt þú ætíð skalt Elska guð og biðja.

## Vísur um Lúters fræði.

Klár Lúterí fræðin fróðir
Finna kunna menn hèr sett á íslenzkt mál.
Lesið, prísið, lýðir góðir!
Lærið, heyrið, gjörið rètt og seðjið sál;
Ljúfra gjafa njótið, neytið,
Náðartíðir kannizt við,
Drottins lítillátir leitið,
Lotníng veitið,
Biðjið guð um góðan frið.

2. Bæði meður munni' og penna,
Mest á síðsta aldar köldum tíma' og stað,
Menn vel svinnir kunna kenna,
Koma heimi skyldug gjöld, ef forsmá'r það;

Orðið dýrðar dáðum prýðum,
Dyggar leggjum þakkir mót
Þeim, er sóma sæðum fríðum
Sáðu tíðum;
Sprettur gott af góðri rót.

## Kristins manns athæfi.

Sèrhvað hefir sína tíð, svo er að hlæja' og gráta, hóf er bezt að hafa' á öllum máta.

Finn eg það í fræði hreinu, Fróðir menn sem töluðu' um, Ekki skeður allt í einu, Ýmsum skiptir tímunum, Á stöðugu' ekki stendur neinu, Stundleg sorg og lukkan blíð. Sèrhvað hefir sína tíð. Eins fyrir manni' og menja reinu Margt kann á að bjáta. Hóf er bezt að hafa' á öllum máta.

2. Þess áttu með greind að gæta, Gángi þèr vel með settan hag, Þú kannt öðru má ske mæta Á morgun, heldur en var í dag, Tvennt hefir til að gleðja' og græta Guðdóms maktar höndin þýð. S. h. s. t. Tjáir eingum þess að þræta, Það er auðráðin gáta. H. e. b. a. h. á. ö. m.

3. Tregast ei, þá erfitt veitir, Ein-

hvern tíma sorgin dvín, Svo náttúran sjálf því breytir, Sólin eptir regnið skín; Guð þeim öllum huggun heitir, Hèr sem líða forlög stríð. S. h. s. t. Til örvæntíngar þig ei þreytir, Þó þú megir gráta. H. e. b. a. h. á. ö. m.

4. Vertu' hógvær, þá vel þèr geingur, Svo veröldin þig blekki sízt, Á augabragði allt forgeingur Auðnu lán, þá hjólið snýst, Velgeingninnar stökkur streingur, Stundum minnst þá varir lýð. S. h. s. t. Hindra jafnan, horskur dreingur! Holdið sig að státa. H. e. b. a. h. á. ö. m.

5. Guði' er bezt að trúa, treysta Og taka því vel, að höndum ber, Vèr skulum ekki frekt á freista, Að fylgja því, sem holdið lèr, Guðhræðslunnar nærir neista Náðin drottins gæzku-þýð. S è r h v a ð h e f i r s í n a t í ð. Sá oss hefir af löstum leysta, Hann leiði hryggva' og káta. H ó f e r b e z t a ð h a f a' á ö l l u m m á t a.

## Varhygð.

Auðtrúa þú aldrei sèrt,
Ekki tala'-um hug þinn þvert;
Það má kalla hyggins hátt,
Að heyra margt, en skrafa fátt.
Tak þitt æ í tíma ráð,
Tókst, þó ei sè lundin bráð:
Vin þinn skaltu velja þèr,
Sem vitur og þar með tryggur er.

## Of og van.

Eitt er við ofi hætt, Ef augun líta gullbaug.
Ef höndin og hugarlund, Halda upp á sitt vald.
Hittist varla hóf rètt, þá hlaupið er í gum-kaup,
Geldur þess galið hold, Að glysi verður opt slys.
2. Hitt er van opt hætt, Að una' ei við lítinn mun,
Egna til sín ógagn, Og eir gulli virða meir;
Slysinu þykir lánlaus, þá líður hann sitt eigið stríð;
Ríkum opt í raun rak Ræktarleysið fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er að geyma sitt, Og geta prófað rètt hóf, Vera ör og vel spar, Og veita eingum rángsleit, Dælt þykir eigið allt

Öndvegis í sjálfs hönd, Djarfur hver af skiptum skerf Skjóta finnur hugbót.

2. Illt er að sjá sult Á sínum, þá brauð dvín, Letin víst ef út át Áðurgefið forráð, Líka þykir ljótt ok Að láta út fyrir drykkju-stát; Endilega' er leið lund, Þá lángar einn á hússgáng.

3. Gott er að greina satt Og gefa þjáðum heil ráð, Skamta niður skemmt það, Er skeður ekki spott með; Hollustu hönd full Hæstri geingur dyggð næst, Unna þeim, sem á mann, Eina prísa' eg þá grein.

4. Illt er á óheilt Að eggja þann, eg ráðlegg, Lastanna er lygð verst, Þó lýðir virði gaman-smíð; Kæfir gleði kránkt líf, Kastar heillum baklast. Dreissið með sèr dregur hlass Af dyggðalausri ótryggð.

5. Gott er að geyma sátt, Í guði hafa fögnuð, Þola bæði' og þreyja vel, Þekkja sinn eiginn flekk; Heilsa og hönd frjáls Heitir bezta, það eg veit, Lítillætis lund kát Líka' er haldin dyggð rík.

6. Illt er hatur óstillt, Óttaleg mun hugar sótt, Þúngt eg held að þola rángt,

þjáníng gjörir forsmán; Vonda kalla' eg vèl synd, Vammi kemur spott fram, Plága mun og písl nóg Að pínast fyrir verk sín.

## Tvö vers[1].

Lagið: Öldúngar Júða annara dags.

Guð náði nú, hvað geingur tregt, Geisar ránglætið heldur frekt, Á völtu hjóli heimurinn er, Hnignandi fer, Til falls með öllu flýtir sèr.

2. Öll manna hugsan, hjarta' og geð, Hnígur til þess að girnast fèð, Ýmisleg hegðan örg og ljót, En ei finnst bót, Hefnd mun því koma hörð á mót.

## Vísa.

Fyrnist heimur, fáheyrt skeður,
Frelsarinn Jesús geymi' oss vel.
Hans híngaðkoma guðsbörn gleður,
þó græti þar til sorgar-el,
En þá verða úti öll óveður.
Í hendur guðs eg kristna fel.

---

[1]) Fyrra versið finnst í einu exemplari það 29., en hið síðara það 34. í sálminum: Gef eg mig allan á guðs míns náð; en önnur sex exempl. útiláta þau.

*Hexametrum.*

Holdið ofkátt veit fyrirfram fátt, hvað falla mun þægra,
Reiðir sig þrátt á megn sitt og mátt eða mannorðið frægra;
Óstýrilátt, það ætlar sèr hátt að endíngu dægra;
Sá er við gátt, þó sjáist ei brátt, sem setur það lægra.

*Hexametrum.*

Öld óðum spillist, uggleysinu dárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins margur aðhyllist.

---

## Um misjafnt hamíngju lán.

Lagið: Opt vindar eik þjá.

Barna lund blind fædd Við brjóstin móður kúra, Æskustund ómædd Fyrir eingu kann að stúra, En það mund algædd Er mannsins náttúra, Skammt mun til skúra.

2. Einn ef kemst hèr hátt Og hyggur sèr til kæti, Á þá skemmst aðdrátt Eitthvað, það mann græti, Hjartað kremst, hvarf brátt, Helzt er þótti mæti, Allt eptirlæti.

3. Glían reis grá hart, Gnap þá

stormur hryllti, Öldu geis grimmt margt Glæstum reiða spillti, Þessi eys, en snart Önnur rúmið fyllti, Og bátnum bylti.

4. Sker, að ljær skin sól Skírt að morgun-kosti, Um aðra grær eykt ból Yrju daggar rosti, Síðan slær heims hjól Hvestur gustar losti Með feikna frosti.

5. Því er allt í heim, Ef svo mætti greina, Næsta valt, það þeim þykir víst, er reyna, Á hliðum hallt hálft tveim Hjólið lukku teina Fer braut ei beina.

## Veraldar fláttskapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mèr, Sælan hál, veraldar Hvikul hèr, hvað lízt þèr? Hvítt að ofan faldar, Undir ber, ef þú sèr, Illsku brúnir kaldar, Og táli tjaldar.

2. Margan hátt hún þrátt Hóf í yfirlæti, Lukkan kátt lèk dátt Litla stund með kæti, Stóð við gátt fljóð flátt, Felldi þann úr sæti Frá mestu mæti.

3. Álitsfríð, fræg blíð Fyrst hún mörgum reynist, Heimskum lýð hæg, þýð, Hitt þó undir meinist, Slúngin stríð,

slæg-smíð, Slóttug, rètt svo greinist, Brátt burtu leynist.

4. Lukkan hál, heims prjál, Hold og blóðið káta, Flæðar-bál, frekt brjál Fram úr rèttum máta, Það er tál, svíkur sál, Um síðir kann að láta Sárt suma gráta.

5. Við leigu-ból, láns-stól, Líkist heimsins sæla, Ókyrrt hjól, ragl, ról, Reykjardupt og svæla; Glyslegt hól, Gabbtól Ginnir mammons þræla; Hver má því hæla?

6. Dauðleg mynd, mannkynd, Moldar leirinn veikur, Beinagrind blásin vind, Bóla vatns og reykur, Illaðin synd, lauslynd, Sem logi skráþurr kveykur, Á þræði líf leikur.

7. Holdið bjart ber skart, Bæði gull og klæði, En þú vart óþarft Áður rotið sæði, Verður snart veik art Vesalt maðka fæði, Sem öll endar gæði.

8. Volsið hèr valt er, Ef viltu rètt að grunda, Lífið þver, fljótt fer Fraktin öll til hunda; Kistuhrer kropp ber Kaldan út með skunda Opt innan stundar.

9. Illum sið sjá við, Sannra leita dáða, Hógvært lið fær frið, Sem flýr til drottins náða; Stunda grið, guð bið Að geyma sálu þjáða; Gæt góðra ráða.

## Heims ósómi.

Sama lag.

Hverfa happs tímar, Höfuðsundlar kvilla, Glossa gnaps brímar, Get eg, sjónir villa; Svipan straffs stímar, Stjarnan spá mun fylla, Og athæfið illa.

2. Ó, að tár áköf Af augum jafnan rynni, Eða nár í gröf Yndi' að hvílu sinni, Synda sár upphöf Sálu ógna minni, Ef kannast við kynni.

3. Ágirnd grá æddi Yfir fjöllin háu, Ótrú flá flæddi Á fróns hálsana smáu, Þrjózkan þrá þræddi, Því nær blindir sáu, Þar lægðir lágu.

4. Vizku vakt sofnar, Veraldar bjallan klíngir, Drottna makt dofnar, Dala klukkan hríngir, Stóra prakt stofnar Sá stimpla-málminn pýngir, Því margt að þýngir.

5. Orð herrans aktast Í allt of litlu

gildi, Þverúð manns maktast Meir en vera skyldi, Synda fans fraktast, Frón og hèruð fylldi Trássviljinn trylldi.

6. Von er því, von er, Verði guð að hefna, Hætta ný nú hèr Nærri vill oss stefna, Frá eg sný, fjær fer, Framar meir að nefna Rök rauna efna.

### Veröldinni tildrukkið.

Vond ertu, veröld! Með vèlabrögðin margföld, Þeir fá sjaldan góð gjöld, Er gefa sig á þín höld; Þú ristir einum spottspjöld, Og spèar hann upp í há völd; Múta, flærð og mein köld, Markað er á þinn skjöld.

2. Þeim sem þú ert bráð blíð, Býr þar undir helstríð, Hvergi muntu heilsmíð, Þó haldin værir dáfríð; Vonzku þinnar vex hríð, Versnandi fer ætíð; Sá þitt varast sárt níð, Sælan tel eg þann lýð.

### Hversu fánýt sè fordyldin.

Fölnar fold, fyrnist allt og mæðist, Hold er mold, hverju sem það klæðist.

Sú er raun, það sannast víða, Svikul

og völt er heimsins blíða, Í spakmælum lærðra lýða Leingi þar um ræðist. Hold er mold, Hverju sem það klæðist.

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, Af hverju menn sig stæra kunni, Þó er það næst í náttúrunni, Að nakinn sèrhver fæðist. H. e. m., H. s. þ. k.

3. Fordyld öll hún flýr úr huga, Þá feigðin mann vill yfirbuga; Lítið stakkar dökku duga, Þá dauðinn inn að læðist. H. e. m., H. s. þ. k.

4. Hvað gildir, þó ríkur rambi, Regist við og standi' á þambi? Einginn er svo digur í drambi, Að dauðinn nokkurn hræðist. H. e. m., H. s. þ. k.

5. Þó á þèr skíni útlenzk draktin, Yfirlætis og vizku praktin; Trú þú mèr, að minnkar maktin, Af möðkunum þá snæðist. H. e. m., H. s. þ. k.

6. Áður en (kann ske) úti' er nóttin, Af þeim tekur að draga þróttinn, Kemur þá bæði kveisa' og sóttin, Kvillinn sár ei græðist. H. e. m., H. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir stökkum

búnir, Á stígvèlum sèu sporar snúnir, Út við grafar bakkans brúnir Bein leið öllum þræðist. H. e. m., H. s. þ. k.

8. Silfurpör og dýrir dúkar, Danskur kjóll og treyjur mjúkar, Að sálunni lítið seinna hjúkar, Þá sorgarhitinn glæðist. H. e. m., H. s. þ. k.

9. Þó hygginn sèrt og hæglundaður, Hafðu ráð mín, kristinn maður! Hèr er svo valtur heimsins staður, Hinn fær gott, er mæðist. Hold er mold, Hverju sem það klæðist.

## Um ágirnd og aurasafn.

Mig ángrar margt hvað manns athæfeð,
Hvernig heimi' er háttað, hefi' eg vel sèð.

Öldin óðum spillist, Ósið margur hyllist, Af rèttum vegi villist, Von, þó hjartað kvillist, Heimur af hrekkjum fyllist, Hægt mun ekki að dylja það. Mig ángrar margt hvað. Synd og góssið gyllist, svo geti menn eignazt fèð. Hvernig heimi' er háttað, það hefi' eg vel sèð.

2. Upphaf allra klækja Er ágirnd fast

að rækja, Aurasafnið sækja, Sitt frá hverjum krækja, Lög með lymsku flækja, Lagsmenn sína mest hún bað. M. á. m. h. Öfund og ofstækja Af því vaxa rèð. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

3. Hvar sem að húsrúm tekur, Heimsku' og blindleik vekur, Blessun í burtu rekur, Búinn er skaðinn frekur, Tryggð og hógværð hrekur, Heimtist fals í þeirra stað, M. á. m. h. Illu sá mun sekur, Sem slíku umgeingst með. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

4. Hún lèt hrekki drjúga Híngað í landið fljúga, Volaða kann að kúga, Krapt úr beinum sjúga; Fagra mammons múga Margur sína blessun kvað. M. á. m. h. Seims er söfnuð hrúga, Sálin lögð í veð. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

5. Aumt er yfir að klaga, Er það hvers manns saga, Setníng lands og laga láta peníng naga! Mútur málin draga, Meinlaus fellur opt fyri það. M. á. m. h. Víst um vora daga Veit eg að þvílíkt hefir skeð. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

6. Flestar dyggðir falla, Finnst kærleikur varla, Sannleik hygg eg halla,

Hrörnar manndáð snjalla; Trú er farin til fjalla, Fær nú ekki í byggðum stað. M. á. m. h. Ágirnd næsta alla Á annað fellir knèð. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

7. Mammon maktar-snauður, Mjög er hjálpartauður, Burt er brjálið og auður, Þá búkurinn liggur dauður, Leirinn rótast rauður Ríkiskroppnum utan að. M. á. m. h. Fæst fyrir fremd og hauður Fánýtt moldar beð. H. h. e. h., Þ. h. e. v. s.

8. Viti virðar og kvendi, Von er að heimurinn endi; Sjá til, að sálin lendi Um síðir í drottins hendi; Opt það efnið kenndi Einn, sá þessa vísu kvað. Mig ángrar margt hvað. Þaunkum þángað renndi, því ber sturlað geð. Hvernig heimi er háttað, Það hefi' eg vel sèð.

## Oflátúnga lýsíng.

Heims af keim hygg eg nokkuð inna, Hvað margur heldur mikið af sèr, Misjafnt þó að reynist hèr, Það er maður, þó hann láti minna.

Margt býr stundum mèr í sinni, Menn þegar að stolta sè, Og volsa mikið í

veröldinni, En vita hvorki A. nè B, Síður þó í samvizkunni Sjálfa skynjar það þeim ber; Þó margur haldi mikið af sèr, Flesta' að einum ber þá brunni, Er brjálið upp á finna. Það er maður, þó hann láti minna.

2. Margur blessast maður á láði Af miskun guðs og veraldar auð, Hina aðra þrautin þjáði, Sem þverra náði daglegt brauð, Þriðji hópur þá forsmáði, Þeinkti hvorki á deyð nè fèr. M. h. m. a. s. Að því seinna ekki gáði, Að æfin mundi linna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

3. Þegar þeir fara öls með æður (Yfirmenn stundum þetta sker) Skrum að tala og skemmdar-ræður, Skemmtan þeirra þvílík er, Um eldsins þeinkja ekki glæður, Sem óguðlegum hefndir lèr. M. h. m. a. s. Gætum að því, góðir bræður! Guð mun' vitja sinna, Þ. e. m., þ. h. l. m.

4. Kunni þèr að mæta maður, Mjög velbúinn sèr þú hann, Heiðarlega handtèraður, Hvergi sástu þvílíkan, Hans er allur gjarðaglaður Glóandi með ormasker.

M. h. m. a. s. Einnig sjálfur alreimaður Upp með böndum tvinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

5. Ber á höndum breytta hanzka, Buxur fernar klæddur á, Með knappa, treyju' og kjólinn franska, Klæðin trúi' eg hylji sá, Sèst um hálsinn silkið danska, Svarðar Heimdals lagður der. M. h. m. a. s. Með stígvèl bæði' og spora spanska Spennir út kálfa stinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

6. Rúkragann með rembilæti Reyra þeir um sinn digra háls, Má ske sumir menn þess gæti, Hann mundi ekki betur en fráls, Á þeim eru haldin mestu mæti, Sem misjafnt kvisa þar og hèr. M. h. m. a. s. Drembinn rambar í sínu sæti, Að sönnu kann ei hlynna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

7. Hárið ofan á herðar bustar, Hèr með kampa' og skeggið sítt, Fis af fötum dregur og dustar, Með dávænt belti' og handgull nýtt, Þenna landsins þeinkir fursta Þjóðin hver, sem nálæg er. M. h. m. a. s. Slíkan skyldi' eg reikna

rusta, Ef reyndi' hann nokkur hinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

8. Heldur en eigi hnakka-kertur Höndum stíngur mjaðmir á, Nokkuð líka nasa-spertur, Nauð má þykja slíkt að sjá, Sá mun þykja' að skyni skertur, Skrumar um fróman hjörvagrèr. M. h. m. a. s. Af ótrúleika undirfergtur Eða brögðum hvinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

9. Í báðum vösum glymur gjaldið, Gylltir hnífar og tóbaksdós, Þeir ætla sèr muni vera' í valdi Veröldin öll og hennar ljós; Sitja' í hvítu silki-tjaldi, Sorg þeim eingin nærri fer. M. h. m. a. s. Fyrir dyrunum stendur dauðinn kaldi, Dreinginn hyggst að finna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

10. „Eg á nóga upp til sveita Aura", segir hann, „þar og þar, Smjörin, krof og katla neyta, Í kistum silfur hèr og hvar, Uxa, sauði' og fáka feita, Fái húskinn þá af mèr". M. h. m. a. s. „Eg þarf ei eptir láni' að leita Hjá lökum búðarslinna". Þ. e. m., þ. h. l. m.

11. Ef örfátækur að honum kemur

Auðar-lundur vizku-dýr, Sem ætíð sína túngu temur Á tignar-hót og málin skír, Og miklu fleiri menntir fremur, Mannvitsgóður náms um sker. M. h. m. a. s. Hinn þá hvergi niðri nemur, Ef nokkurt svar skal inna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

12. Ef spyr þú hann að einu orði, Upp að hressa geðið þitt, Sè það nokkur sálarforði, Samvizkunni' að auka fritt, Þá er líkt sem skollinn skorði Skilníng hans og minnisker. M. h. m. a. s. Hann leitaði sízt að lífsins borði Um leingð lífdaga sinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

13. Áður en (kann ske) úti' er nottinn, Innan lítils tíma þá Dauða kemur sorgleg sóttin, Sorgar-elið þá við brá, Samvizkunnar þvíngar þróttinn, Þreingir, særir, nagar, sker. M. h. m. a. s. Ekki er hægur undan-flóttinn, Ef orku bilar stinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

14. Þá er horfið stolts og státið, Sturlast sinni' og hjarta-geð, Stoðar ei, þó geti grátið, Guðs ef ekki' er andinn með, Þá vill keyra í þrauta mátið Þjófurinn gamli *Lucifer*. M. h. m. a. s. Vildi

hann hafa' af löstum látið, Um leingd daganna sinna. Þ. e. m., þ. h. l. m.

15. Reiði guðs að ofan æðir Óstöðvanleg (gætum þess), Satan klagar, syndin hræðir, Samvizkan er mjög óhress; Árafjöldinn eldinn glæðir, Og upp sperrir sjónargler. M. h. m. a. s. Hvert skal flýja? hvað þá græðir? Hver kann bót á vinna? Þ. e. m., þ. h. l. m.

16. Aptur vil eg mèr anza sjálfur: „Hinn aumi hvergi flýja kann, Þó heimsins leiti' um allar álfur, Eingan finnur hjálparmann, Sè hann þá sem kusi' eða kálfur, Að kalla á þann, sem bjargir lèr. M. h. m. a. s. Ekki er þetta orðagjálfur, Það athugi þjóðin svinna". Það fer betur, þó þeir lètu minna.

17. Eg er sekur í öllu þessu, Og öðru fleiru þúsundfallt, En er þó samt með hjarta hressu, Því herrann Jesús græddi það allt. Hann keypti mig frá kvalanna pressu, Og kostaði þar til sjálfum sèr, Svo hald' eg minna' af sjálfum mèr. Set eg upp mína sigur-messu,

Er satan kann ei vinna. Þ. f. b., þ. þ. l. m.

18. Vertu mèr til hægri handar, Hjartkærasti Jesú minn! Að burt drífist illir andar Ofan í neðsta bústað sinn; Svik, er djöfull saman blandar, Setjist hans í kverka ker. M. h. m. a. s. Eingin mèr þá eymdin grandar, Ef eg þig má finna. Þ. f. b., þ. þ. l. m.

19. Sú lítillætisrótin rètta Af rökum góðum komin er, Hjá, Matteó vèr megum frètta Málsgrein þá, sem stendur hèr, Í ellefta er tjáð þetta, Einkaráð þau nýtum vèr. M. h. m. a. s. Ángri þúngu af vill lètta, Ef þeim gjörum sinna Þ. f. b., þ. þ. l. m.

20. Í guðs nafni allir saman, Að oss gætum fyrr og síð, Hèr er ekki' á gángi gaman, Góða missum ekki tíð, En höfum Jesúm fyrir framan, Freistíng þá að höndum ber. M. h. m. a. s. Sig venji hver á tryggðir taman, Tállaust honum sinna. Þ. f. b., þ. þ. l. m.

21. Eg frátek alla fróma sveina, Fólkið gott og heiðursmenn, Sem óttast guð

og elska' hans hreina Orðið, trú og sannleikenn, Veri' hann þeirra verndin eina Og voldugt skjól í rauna hver. Þeir mundu halda minna af sèr. Til hinna annara manna' eg meina, Sem misjafnlega sig kynna. Þ. f. b., þ. þ. l. m.

22. Bið eg gæða þýðar þjóðir Þykkjast ekki kvæðið við, Heldur vildi heiðurs bróðir Hlýða fróðum ráða-sið, Vizku-horskir, glaðir, góðir Gleymi slæmu; tíminn þver. Margur heldur mikið af sèr. Förum dýrar friðar slóðir, En forðumst gjörðir hinna, Sem lærðu of seint að láta nokkuð minna.

## Úr latínu útlagt[1].

Minnstu að gá, ef hefð þín er há, að haldir hið rètta,
Vel þó um sjá, hvern viltu forsmá, eða virðíngu fletta.

---

[1]) Vir videas, quid tu jubeas, dum magnus haberis.
Prospicias, quem despicias, quem lædere quæris.
Dat varias fortuna vias, nil ergo mireris,
Sed metuas, ne forte ruas, dum stare videris.

Lukkan mjög dá kann læðast þèr frá, það lát
þig ei pretta,
Þykistu stá, svo þeink þar upp á, að þú megir
detta.

## Enn úr latínu út lagt.

Stund er sú seinasta, ill og óhreinasta, oss ber
að vaka.
Reiknast sem ókominn rèttláti dómarinn, reikn-
íng að taka.
Ókominn, ókominn, að af má rángindin, en
jöfnuðinn krýna,
Umbuna rèttindin, reka burt ill-lyndin, ríkið
sitt lèna.

## Um mannsins fallvalta líf.

Lagið: Upp á fjallið Jesús vendi.

Mannsins stuttur er, eg inni, Andar-dráttur í nösunum, Snögglega trú' eg lífið linni, Sem laufið fellur af grösunum; Lítið sálu líknar þinni, Þó liggi fèð í kösunum.

2. Eins og heyið fellt í flekki Fölnar upp í múgunum, Dofnar hold, þá dett-ur af bekki Í döprum andar kúgunum; Dauðinn gefur gaum að ekki, Þó gullið liggi' í hrúgunum.

3. Á augabragði einu skeður Umbreytíng á vistunum, Fyrir mjúka sæng fæst moldarbeður, Minnstum gjör af listunum, Lítið sálu grætta gleður, Þó gullið liggi í kistunum.

4. Vèr skulum ekki' í veröld freista, Að voga allt sem djarflegast, Illra girnda alinn neista Út slökkum sem snarlegast, Á sannan Jesúm son guðs treysta Sálunni er þarflegast.

## Flærðarsenna.

Lagið: Að iðka gott með æru.

Annars erindi rekur Úlfur og laungum sannast það, Lætzt margur loforðsfrekur, Lítt verður úr, þá hert er að; Meðan slær orð við eyra, Er þèr kær vinur að heyra; Sèrtu fjær, svo er'það ekki meira.

2. Slíkt er hyggindi haldin, Höfðíngsskapur og menntin prúð, Veröldin falsi faldin Fóðrar sinn kjól með skollahúð; Lærð er á lymsku-beglur, Leynt sèr hjá fann þær reglur, Sem köttur sá, er kreppir að hvassar neglur.

3. Opt er fagurt í eyra Alþýðu lof af

hræsni veitt, Hinum, er á það heyra, Heimur þykir sem kálfskinn eitt; Í augun greið hlæja' og hlakka, Hrósa' um leið, biðja' og þakka, Búin er sneið, þá snúa þeir við þèr hnakka.

4. Heimskur er sá, sem heldur Hvers manns loforð, sem fullgjört sè, Einfaldur opt þess geldur, Alvöru meinar, það hinum er spè; Tryggðagjöld táls með korni Temprast köld, nema við sporni, Vinur í kvöld, en vèlar þig strax að morgni.

5. Heimurinn hrekkjafulli Handverk þetta mest brúkar nú, Að fóðra eir með gulli, Út geingur honum myntin sú; Orðaglens ei þarf kaupa, Allir lèns með það hlaupa, Kossa-flens, kalsa, ljúga' og raupa.

6. Sá hefir bezt úr býtum, Sem búið getur að sínu einn, Frjáls af lymskunnar lýtum, Lifir og deyr svo hjartahreinn; Tryggðum víst vèl nú farga, Veröld snýst; hver vill bjarga? Ráð er sízt, að reiða sig upp á marga.

## Aldarháttur

með stuttum skýríngum.

Áður á tíðum
Var tíðska hjá lýðum
(Svo tryggorðir kenndu),
Frá barndómi blíðum
Með fremdarhag fríðum
Að frægðum sèr vendu;
Af streingboga stríðum
Í Hárs eldar hríðum[1]
Þeir herskeytin sendu,
Eða' á mar víðum
Skervallar skíðum[2]
Til skemmtunar renndu.

[1]) Hár, Óðinn; hans eldur, sverð; þess eldar hríðir, bardagar. [2]) Skervöllur, sjór; þess vallar skíð, skip.

2. Manndómur mundi,
Þar sveinar á sundi
Sóttust af afli;
Einn sat í lundi
Hjá litfögru sprundi
Og lèk sèr að tafli;
Hinn þar við undi,
Sem hátt knöttur hrundi

Eða handsaxa kafli[1];
Lof þeim að dundi,
Sem frægð bar af fundi
Með fann-deigul-skafli[2]).

[1]) Kafli, þar um var haldið hendinni. [2]) Deigull eða dígull er eldpanna; díguls-ins eða deiglunnar fannskafl er gullið.

3. Verfákum[1] vöndum
Með bifroknum bröndum[2]
Þeir bægðu frá láði;
Byr saung í böndum
Á brimvallar gröndum[3],
Þá beittu við gráði;
Geir rumdi' í röndum
Þar rík þjóð í löndum
Ríta-el[4] háði;
Gnótt var í höndum
Gekk lið af ströndum
Með gló-Kraka-sáði.

[1]) Ver, veiðistaða; ítem: sjór; hans fák-ar, skip. [2]) Bif, vatn eða sjór; bifroknir brandar, árar. [3]) Brimvallar grandar, bylgjur, sjór. [4]) Rítar, skildir; ríta-el, bardagar.

4. Ý[1] bendum skutu,
En álmdrósir[2] þutu

Í andfari þunnu;
Bursteingur brutu,
En hátt skildir hrutu,
Þar herfákar runnu;
Benfossar flutu,
En lágt hinir lutu,
Sem lítt verjast kunnu;
Sæmdar ráð hlutu
Og síns afla nutu,
Þeir sigurinn unnu.

[1]) Ý, boga. [2]) Álmur, bogi; hans drósir örvar.

5. Armi hvortveggjum
Á liðshandar-leggjum
Þeir ljós mundar[1] hreifa;
Glatt skein á seggjum
Með geim-foldarneggjum[2],
Svo gramsrunnar[3] leyfa;
Dígulfarms dreggjum
Á valborgar veggjum[4]
Vildu menn dreifa,
Í Ángantýs hreggjum[5]
Undateins eggjum
Ótrauðir veifa.

[1]) Mund, hönd; hennar ljós, fíngur-gull.

[2]) Negg, hjarta; foldar-negg, steinn, geimnegg foldar er gimsteinn. [3]) Grams-runni eða rúni, hirðmaður. [4]) Valborg er hönd; hennar veggir fíngurnir, á hverja menn vildu dreifa dígulfarms dreggjum eða gullinu. [5]) Ángantýr, Óðins heiti, vegna mjúklátrar þjónustu, er hann veitti konu sinni Frigg, hans hregg, bardagar.

6. Ósæmdir biðu,
Þeir ofríki liðu
Og ekki sín hefndu;
Djarfir fram riðu
Í dyn Sköglar hviðu[1]
Og dreingskapinn efndu;
Tröllmarir[2] skriðu
Að undasylgs[3] iðu,
Þá oddaþíng stefndu:
Lítt fyri kviðu,
Nè, sár þó þeim sviðu,
Til sorgmála nefndu.

[1]) Dyn, dunur; Skögul, valkyrja; hennar hviða, bardagi. [2]) Tröllmarir, vargar; mar, hestur. [3]) Undasylgur, blóð. Skáldið segir, að vargarnir hafi sótt í blóðfossa iðuna, hvar bardaginn var áttur.

7. Spakvitrir spáðu,
Þeir gjörla margs gáðu

Og glöggskyggnir váru;
Kænt niður kljáðu,
Þá kífþrætur háðu,
Úr kappmálum skáru;
Trygga sig tjáðu,
En tálið forsmáðu,
Því trútt hjarta báru;
Meir gáfu' en þáðu,
Og því víða náðu
Þjóðræmi kláru.

8. Ísland má sanna,
Það átti völ manna,
Þá allt stóð í blóma;
Glæ sóttu hranna[1]
Til ríkra kóngsranna,
Vel reyndir að sóma;
Ýmuleiks anna[2]
Þeir ym[3] þorðu kanna,
Sem yrki[4] forn róma;
Ilþorns[5] og tanna
Óx æði varganna,
Þar einn beitti skjóma.

[1]) Glær hrannar, sjór. [2]) Ýma, bardagi. [3]) Ym, hljóð, gný, það er: þeir gömlu menn þorðu að kanna eða heyra vopnabrak,

sem skeði í bardagans annríki. — [4]) Yrki eru kvæði. [5]) Ilþorn, klær. Skáldið segir: þegar einn beitti skjóma (sverði) í bardaganum, óx æði klónna og tanna varganna, sem væntu sèr bráðar.

9. Þeir báru hjálma
Og mjög drifna málma
Mardallar gráti[1]
Brjóst fleinar[2] fálma,
Í sárelda[3] sálma
Fram sóttu með gáti;
Spor Mistar skálma[4]
Og spjörflugur tálma
Næm spreytínga státi;
Valjarðir jálma[5]
Við uppdregna álma,
Svo allt var á bjáti.

[1]) Mardöll kallast Freyja; hennar grátur, gull. [2]) Fleinar, alls konar skotvopn. [3]) Sáreldar, sverð; þess sálmur, bardaginn. [4]) Mist, valkyrja; hennar skálmaspor, sárin, hver eð ásamt spjörflugunum, skotvopnum, voru næm og viðkvæm spreytínga státi. [5]) Valjarðir, hendurnar, á hverjum valurinn sat; jálma, þ. e. hristust með nokkurs konar þyti.

10. Land lögum vörðu,

Þeir vitug ráð gjörðu,
Svo vandræðin bættu;
Fyr frelsi kjörðu
En Fofnis skrið-jörðu[1],
Þó flest kostar ættu;
Geði þá hörðu
Var hótað einörðu,
Með hugprýði mættu;
Manndáð ei spörðu
Við nýta seims njörðu,
Ef nærri lá hættu.

[1]) Fofnis skrið-jörð, gull.

11. Nú er öld snúin
Á aðra leið búin,
Þar yfir má klaga:
Frækleikur lúinn
Af landi burtflúinn,
Því líða menn baga;
Röksemdin rúin,
Sèst rýr vina truin
Og rekin úr haga;
Ágirnd framknúin,
En grær lastagrúinn,
Flest geingur aflaga.

12. Úngdómsins æði,

Þó áður fyrr stæði
Til afreka hárra,
Losti, sjálfræði,
Leti, svefn bæði,
Það lízt þeim nú skárra;
Vits kulnar sæði
Á vinds hyrjar svæði[1],
Því veldur geð þrárra;
Að lesa góð fræði
Og læra siðgæði,
Er lunderni fárra.

[1]) það er: í huganum.

13. Dug lægir beima[1],
Sem faldbúin feima[2]
Við fletin sèr halda;
Beitilúng geima[3]
Er bannað að sveima
Um bláröstu[4] kalda;
Menn má nú dreyma
Til sörva blikseima[5],
En sjálfir þó valda;
Hugprúðir heima
þeir harðfeingi gleyma
Við Hlakkar rof tjalda[6].

[1]) Beimur, karlmaður. [2]) Feima,

óframfærinn kvennmaður. [3]) Lúngur er hestur; geimur, sjór; beitilúngur geima, skip, hverju beitt verður til og frá um sjóinn. [4]) Bláröst, sjór. [5]) Sörvar þýðir hèr fjölda; Blikseimur, glansandi auðæfi. [6]) Hlökk, valkyrja; hennar tjaldarof, stríð, í hverju brynjur slitna.

14. Nokkrir ef þræða
Um fáks rákir flæða
Til fremdar hagsbóta,
Frestskuldir fæða,
Því fè lítið græða
Má fordyldin ljóta;
Raupyrðin ræða,
Þó rýr sè ástæða,
Því reynslan vill þrjóta;
Nýbreytni klæða,
En klèna siðgæða
Þeir kenníngu hljóta.

15. Svo þverra listir,
Því mjög eru misstir
Þeir menntirnar auki;
Menn sitja tvistir
Og bragðhnignir bistir
Í búsorgar hnauki;
Allt eins og kvistir

Af hretviðri hristir
Á hráviðar lauki;
Margur því gistir,
Þær vesaldar vistir,
Þó vílmóður þrauki.
16. Kostir sjást farnir,
Þar fólknárúngarnir[1]
Þeim framandi hlýða;
Dúksbræður svarnir
Og glysmála gjarnir
Svo gjörast nú víða
Fenju drag-kvarnir[2],
Í fèmútu sparnir,
Um farveginn skríða;
Innlendir barnir,
Þó eingar fá varnir
Þeir ofríki líða.

[1]) Fólknárúngar, það eru höfðíngjar, sem eiga að næra og fóstra fólkið og hina undirgefnu; þeir — segir skáldið — orðnir sèu

[2]) Fenju dragkvarnir; það er: ágjarnir, dragandi saman hvað fèmætt er, eins og kvernin Grotti, er þær systur, Fenja og Menja, drógu.

17. Atburðir þrjóta
Til hraustlyndis hóta

Í hugmóði sveina;
Skút-yrðum skjóta,
Og rógsmálum róta,
Það röksemdir meina;
Hrakspárnar hrjóta,
Þeir hver öðrum blóta,
En hinn grípur steina;
Fjörlausnar fóta
Þá fýsir að njóta,
Ef framar skal reyna.

18. Rauparinn telur
Þær vígs allar vèlur,
Sem veit hann sèr granda;
Á orðum hrafn elur,
Sem gráðsoltinn gelur
Við gný þrumu randa;
Hræðslan þá kvelur,
Ef kokks hnífa-grèlur
Þeim koma til handa;
Í næstu hljóp felur,
Sem nót flýi selur,
Og niðri hèlt anda.

19. Mannkosta lægðir,
En lastanna nægðir
Í landinu spretta;

Út geingu frægðir,
Þar inn komu slægðir
Og athafnir pretta;
Náskyldir, mægðir
Með róg eru rægðir,
Svo reynzt hefir þetta;
Litlar fást hægðir,
En það væri þægðir,
Ef því vildi létta.
20. Horfist til baga,
Þar yfirmenn aga
Þeim óhlýðnu spara;
Múturnar draga
Sèr liðsinni laga,
Þó leynt eigi fara;
Ágirndin raga
Kann allt eins að klaga
Og einnig forsvara;
Til og frá slaga,
Tálbrögðum haga,
Því taktu þèr vara.
21. Hver vildi greina
Það allt efni meina,
Sem á falla náði?
Hjótt margir kveina,

Því hjá sèr þó leyna,
Sem hugboðið tjáði.
Innbúa steina[1]
Skal braut snúa beina
Í byr-Hveðru-gráði
Sundferjan seina,
Þá átti grèr eina,
Að óðstöðvar láði.

[1]) Innbúa steina, dverganna; Sundferjan, skáldskapurinn skal snúa beina braut í byrgráði Hveðru, tröllkonu, huganum, að láði óðstöðvar; því óðurinn skal nema staðar að þagnar láði.

22. Margt mætti henda,
Sá vill hug' til venda,
Og við kannast næði,
Efni bágenda,
Sem oss gjörir benda
Og aflar nú mæði.
Aldarhátt kennda
Í sýn margra senda
Má segja vandræði.
Flest tekur enda,
Eg læt þar við lenda,
Og lykta svo kvæði.

## Vísa.

Mundu þig, maður! í mundo,
Mundus svik býr undir;
Mundu', að sjá við mundo,
því mundus prettar stundum.
Mundu þig fyrir mundo,
Mundus er hrekkja-lundur.
Mundu að komast frá mundo
Mundus á drottins fundi.

---

# Þriðji flokkur
inniheldur
Lukkuóskir, útfararminníngar
og annað smávegis.

---

## Lukkuósk og heilræði
til
herra Sigurðar Jónssonar,
nýorðins lögmanns sunnan og austan á Íslandi.

Lagið: Upp á fjallið Jesús vendi.

Almáttugur guð þín gæti Og gefi þèr heilags anda náð, Í dómara svo þú sitjir sæti Með sæmd og æru, prís og dáð,

Um fyrir öllum ávallt bæti Úrlausn þín og heilnæm ráð.

2. Þeir undanförnu allir benda Eptir þeim, sem lifa nú; Menn kann alla mannlegt henda, Með því vís er reglan sú; við daudans púnkt mun loksins lenda Líka hinn, sem eg og þú.

3. Ó minn bróðir! að því gættu: Ótta drottins halt þèr við, Djarflega' aldrei' á heiminn hættu, Heldur hann sínum gamla sið, Víst það allir vita mættu, Hann veltist skjótt á ýmsa hlið.

4. Hafðu guð í huga' og minni, Hafðu guð fyrir augum þèr, Hugsaðu' um guð í hverju sinni, Heyrir guð og til þín sèr; Virtu guð í valdstjórn þinni, Vittu', að hann þinn herra er.

5. Hæstum föður og syninum sæla, Samt heilögum anda með, Lof þeim allir lýðir mæla, Ljúft af öllum túngum tèð, Tign hans allir helgir hæla, Hana fáum vèr síðar sèð.

## Nýársósk
## til
## Orms Vigfússonar.
og konu hans.
## Guðríðar Árnadóttur.

Lagið: Í þinni ógnarbræði.

Sælir í sönnum guði, Sælir í guðs fögnuði, Sælir í sannri trú, Sælir og sviptir vanda, Sælir í heilögum anda, Sælir í sjálfum Jesú!

2. Sæll vinur sæmdar frómi! Sæll í þeim aldurdómi, Sem guð gaf sælan þèr; Sæll bæði úti' og inni, Á lífi og sálu þinni, Ætíð í heimi hèr.

3. Sæl sè þín kæra kvinna, Komin til ára sinna, Húsprýði heiðarleg, Þið blessun bæði hljótið, Beztu farsældar njótið, Ætíð á allan veg.

4. Sjáið þá sælu hreina, Sem eg kann bezta' að greina, Yður afhendist vel; Jesús það barnið blíða Burt tekur sorg og kvíða, Hann er Immanúel.

5. Þenna elskið og unnið, Allra bezt sem kunnið, Bæði þið, heiðurshjón; Honum af hjarta fagnið, Hagkvæma lofgjörð magnið, Sem Anna' og Símeón.

6. Jeg bið, að Jesú friður Jafnan staðfestist yður Eptirkomandi ár, Með alls kyns æru sóma, Ástar guðs föðurs ljóma, Svo tendrist trúin klár.

7. Önd, lífið, sál og sinni, Samt lán, Heilsa og inni Forsjá guðs falið sè; Einnig þín ektakvinna, Með ástvina flokki hinna, Og allt ykkar afkvæme.

8. Sæl lifið, sæl hèr þreyið, Sæl hèðan loksins deyið, Sæl verði sálin þá, Sæl í þeim sælu blóma, Sæl í himneskum ljóma, Sæl ætíð, amen, já.

---

Hýr sè hlaðinn æru
Horskur lundur lífs stundir,
Sem haninn flðri fínu,
Frægð, nægð, andar hægðum.
Kristur með kærleik beztum
Klár á nýju ári
Sendi' yður sannleiks anda,
Sá skartar bezt í hjarta.

## Erfiljóð,

sem skáldið kvað eptir únga dóttur sína

## STEINUNNI.

Lagið: Konúng Davíð sem kenndi.

Sælar þær sálir eru, Sem hèr nú skiljast

við Frá holdsins hryggðar veru Og heimsins göldum sið, Hvílast í himnafrið, Þar sem með sætum hljóðum Sýngur lof drottni góðum Lofsamlegt eingla lið.

2. **T**ign, æru, sæmd og sóma Sálir guðs barna fá, Sem ljósar stjörnur ljóma Lambsins stóli hjá, Ávallt guðs auglit sjá, Með hvítum skrúða skrýddar, Skarti rèttlætis prýddar, Sorg allri sviptar frá.

3. **E**inglanna hirðin hreina, Heiðrar guð nótt sem dag, Sálirnar sýngja' og greina *Sanctus* með fegursta lag Í lystugum lífsins hag, Holdið sig meðan hvílir, Höndin drottins því skýlir, Sèr eingan sorgar plag.

4. **Í** þenna flokkinn fróma Flutt varstu, barnkind mín! Himneskum hafin sóma Hvílist nú sálin þín, Ljómar þar skært og skín Í faðmi Jesú fríðum, Fagnandi öllum tíðum; Dýrðin sú aldrei dvín.

5. **N**ú er þèr aptur goldið Ángrið, sem barstu mest, Þegar þitt hrjáðist holdið, Hátt þú stundir og grèzt, Gefin er gleðin bezt, Hafin úr hryggð og móði,

Hreinsuð með Jesú blóði, Synd eingin á þèr sèst.

6. Unun var augum mínum, Ávallt að líta' á þig, Með úngdóms ástum þínum Ætíð þú gladdir mig, Rètt yndis-elsku-lig, Auðsveip af hjarta hlýðug, Í harðri sótt vel líðug, Sem jafnan sýndi sig.

7. Næm, skynsöm, ljúf í lyndi, Lífs meðan varstu hèr, Eptirlæti og yndi Ætíð hafði' eg af þèr, Í minni muntu mèr; Því mun eg þig með tárum Þreyja af huga sárum, Heim til þess hèðan fer.

8. Mín gleði er sú eina, Andlát þitt hugsa' eg á, Þú hafðir málið hreina, Hèr með vit alls að gá, Skammt til þess líf leið frá, Breiddir út hendur báðar, Bauðst þig til Jesú náðar, Kvaðst vilja koma þá.

9. Litla stund stóð í hæfi, Sturlaði fögnuðinn, Hálft fjórða' ár alls var æfi, Eigi þó fullkomin, Skjótt sá eg skilnað þinn; Geymir sál þína sætur Signaður drottinn mætur. Fyrir Jesúm, soninn sinn.

10. Hvílist nú holdið únga, Af harmi' og sorgum mætt, Svipt öllum sóttarþúnga, Svo er þèr nú óhætt, Dóttir

mín! böl er bætt, Frjáls við synd fár og dauða Fyrir Jesú blóðið rauða, Sefur í drottni sætt.

---

Lagið: Dagur í austri öllum.

Nú ertu leidd, mín ljúfa! Lystigarð drottins í, Þar áttu hvíld að hafa, Hörmúnga' og rauna frí; Við guð þú mátt nú mæla, Miklu fegri en sól, Unun og eilíf sæla Er þín hjá lambsins stól.

2, Eg ann þèr svoddan sælu, Að sjá þitt gleðivín, Hèðan úr eymda pælu Eg kem þar senn til þín; Ó hvað sætir samfundir Seðja þá okkar geð, Um eilífar æfistundir Að lifa drottni með.

3. Dóttir! í dýrðar hendi Drottins, mín, sofðu vært; Hann, sem þèr huggun sendi, Hann elskar þig svo kært, Þú lifðir góðum guði, Í guði sofnaðir þú; Í eilífum andarfriði Ætíð sæl lifðu nú.

# Útfararminníng

sáluga lögmannsins

## Árna Oddssonar,

sem deyði að Leirá í Borgarfirði
þann 10. marz 1665.

Lagið: Dagur í austri öllum.

Ó, hvað aumleg úrræði Er þetta veika líf, Fallvalt og fánýtt bæði, Fullt með sorg, eymd og kíf, Í víli, voli' og kvíða, Veiklast hèr mannlegt hold, Æfin svo loks má líða, Líkaminn verður að mold.

2. Dauðinn er dapurlegur, Sem Davíð og Jósúa tèr, Allur eins veraldar vegur, Víst því að æfin þver, Hann gánga herrar sveinar, Höfðíngjar, almúgenn, Kvinnur, sem meyjar klènar, Kóngar og undirmenn.

3. Þó verði þann veginn þraunga Víkja guðs börnin trú, Þau hræðast hættu aunga, Huggun þeirra er sú: Heljar brodd braut og eyddi Beiskleik öllum dauðans Jesús og lýð sinn leiddi Til lífsins úr valdi hans.

4. Hvorki þarf hel nè dauða Hræðast rètttrúuð önd, Kennir ei kvala nè nauða,

Komin í drottins hönd; Sæng er góð greitt til búin, Gröfin með jörðu skýld, Líkaminn þreyttur og lúinn Leggst þar í mjúka hvíld.

5. Þess vegna' í guði glaður Gekk til síns hvíldarranns Árni Oddsson lögmaður Austan og sunnan lands; Hold hans sætlega sefur Í sællar upprisu von, Frelsuð sál fögnuð hefur Í frið hjá lambsins trón.

6. Sælan má hann því sanna Í sælunnar reynslu þar Á landi lifandi manna Í lystíng guðs ásýndar, Í Abrahams skauti skæru, Skínandi fegurðar glans, Í himneskum heiðri' og æru, Í hönd mildri skaparans.

7. Hann hefir rennt og runnið Rètt vel með allri dáð, Himnaríki áunnið Eflaust fyrir Jesú náð, Yfir því fagna eigum Af ást og trú til sanns, Samt þó hèr sakna megum Sællar umgeingni hans.

8. Heims af erfiði mæddur, Aldurdóms þúnga með, Heilags anda gjöf gæddur, Guðs ríki stunda rèð; Ár þrjú og sjötíu', innum, Æfin hans var því nær

(Mælti líkt mörgum sinnum Við Mósen drottinn kær).

9. Ljúfur í lögmannsdæmi Lifði hèr dyggða-klár Með heiðri' og hefðanæmi Heil tvö og þrjátíu' ár; Sjálfur sig þar frá sagði Í sínum aldurdóm, Erlega svo af það lagði Að allra landsmanna róm.

10. Hafi nokkur mátt heita Höfðíngi' um þetta land, Ef vildum að því leita Eptir herra Guðbrand, Að hógværð og hjarta tryggðum Honum ei fremri sèst, Hugprýði, dáð og dyggðum, Drottins ótta þó mest.

11. Þegar frá æskuárum Orð drottins stunda vann, Með sæmd og sóma klárum Sýndi ávöxt góðan, Bóklegar listir lærði (Lofsverð sú menntin er), Með iðni þær allvel nærði Utanlands bæði' og hèr.

12. Með gegnd og góðri stilli Gekk það fremdarupphaf, Hálærðra manna hylli Honum því drottinn gaf, Allt fram til ellitíðar Álit bar höfðínglegt; Hèr um land og víst víðar Varð kunn hans æra' og spekt.

13. Sannleikans gjarnan gáði, Með guðrœknis hreinum sið, Stöðugur standa náði Staðfastrè ttdæmi við, Hól, mútur, hræsni, smjaður Hvorki þáði nè gaf, Herra höfðíngslundaður Helzt bar því mörgum af.

14. Hann var heimilismönnum Hógvær og stilltur mest, Góðgjarn næsta nágrönnum, Nauðstöddum reyndist bezt, Ættrækinn, ölmususamur Aumum, sem þurftu við, Gestrisinn, fremdarframur Fátækum sýndi lið.

15. Höfðíngleg úti' og inni Athöfn og stjórn hans var, Með lyst og ljúfu sinni; Langt þó af öllum bar Geðhrein guðhræðslan sanna, Greina þar satt um má, Hvað álit mátti manna Merkja, reyna og sjá.

16. Frjádag hvern fasta náði Föstunnar alla tíð, Líkamann þar með þjáði, Það var hans venja fríð, Með bæn og grátnu geði Guðs sonar pínu' og deyð Um þeinkja' og iðka rèði Allt um þess dagsins skeið.

17. Fimmta frjádag, eg nefni, Föstunnar svo til bar, Samt hans iðkunar-

efni, Og áður fyrri var, Í kirkju' að vanda vænum Veik um dagsverðarstund, Með blessun, lofgjörð og bænum, Af blíðri ástar lund.

18. Ljúfur að liðnum degi Til laugar gánga rèð, Að gjörðri bæn, sem eg segi, Sælli umþeinking með, Hvar hann svo stundu síðar Sofnaður í guði fannst, Hèrvistar termín tíðar Talið ei leingur vannst.

19. Sett hafði sínar hendur Sèr fyrir andlit þá, Grunlaus því gáta stendur, Gjörla það skilja má, Að með bænagjörð blíðri Burt er sofnaður sætt, Dauðans ángurs ógn stríðri, Eingri því hefir mætt.

20. Laugaður lambsins blóði Laug helgrar skírnar í, Af synd, sút, sorg og móði Sannlega klár og frí; Í varmri vatnslaug einni Varð úr heims táradal Snjóhvítur leiddur hreinni Í himneskan dýrðarsal.

21. Mikið — það má eg segja — Missti vor nálæg sveit, Margir þess vegna þreyja, Þenna um byggðarreit, Flestir hins sama sakna, Sunnan- (það veit eg) lands,

Kinnur brár-regni rakna, Rætt þá verður til hans.

22. Huggi hans heiðurs kvinnu Heilagur andi bezt, Og börnin sæmdarsvinnu, Sorgandi eptir mest; Drottinn böl allra bæti, Bið eg líka um það: Í guðsótta sèrhver gæti Gjörníngum herrans að.

23. Ísland, þèr ætlar að hnigna, Eru þar merki til, Manndyggð og dugur vill digna, Dofna því laganna skil; Guð gæfi, að þú nú þekkir — það ósk er hjarta míns, — Fyr en hefnd stærri hnekkir, Hvað heyrir til friðar þíns.

24. Oss gef, guð! af að þreyja Allar hörmúngar nú, Síðan sofna og deyja Sætlega' í rèttri trú, Svo hver fagnandi finni Frændur og vini' í gen Hjá hægri hendi þinni, Herra Jesús, amen.

## Útfararminníng.

lögrèttumannsins

## Árna Gíslasonar,

sem deyði að Ytrahólmi á Akranesi

þann 4. október 1654.

Lagið: Konúng Davíð sem kenndi.

Auvei, þær ángurs tíðir Aukast á marg-

an hátt, Guðhræddir landsins lýðir Lofsverðir fækka þrátt, Nú bjóða góða nátt; Þar um má eg ei þegja, Það mèr leyfist að segja, Af veikum viljans mátt.

2. Herrann þá hæstur vildi Hefnast Gyðíngum á, Sagðist hann sjálfur skyldi Svipta þeim burtu frá — Sem hèr vel merkja má — Höfðíngjum heiðurs gjörnum, Hyggnum, vel máli förnum, En heimskum lands forráð fá.

3. Mig uggir, hjá oss heima Hótan sú eigi nær, Hver þar vill glöggt að geyma, Gjörla það skynjað fær, Dæmin ei finnast fjær, Eitt árið eptir annnð, Er slíkt með reynslu sannað, Fróma menn feigðin slær.

4. Nauðsyn er ei, eg nefni Ný-burtufarna menn, Því svoddan sorgarefni Sannlega munu enn Mörgum í minni senn; Drottinn það bölið bæti, Byggð vora aptur kæti, Þó horfist á hörmúng tvenn.

5. Eitt má ei undan líða, Sem eykur gleðitjón, Nafnkunnur veit eg víða Var hèr um Íslands frón, Sæll Árni Gísla-

son, Hèðan frá heim kallaður Hvílist í drottni glaður Við holds upprisu von.

6. Hann þó nú hèðan leiddist, Hver vill þar sturlast við? Heimsins armæða eyddist, Aptur tók himna frið Og eilíf andargrið, Hrósandi sigri sætum, Sýngur með rómi mætum Við lausnarans hægri hlið.

7. En upp á það vèr söknum Allmargir dyggða hans, Hèr með í hjarta klökknum, Hugsandi rètt til sanns Um stand vors auma lands, Af því ei kunnum láta Andvarpa þúngt og gráta Dauða þess drottins manns.

8. Hvað hann var hugvitsríkur, Hver er sá það ei veit? Hver hittist honum líkur Hèr nú um vora sveit, Þó gjörð sè á leingri leit? Hollráður, hreinlundaður, Hógvær, mannljúfur, glaður, Athöfn sú öll er neyt.

9. Hugprýði hafði rètta, Höfðíngssinni og geð; Einneginn umfram þetta Unnt var honum og lèð, Það hefi' eg heyrt og sèð, Orða drottins aðgæzla, Alvarleg, sönn guðhræðsla Og margar dyggðir með.

10. Aldrei fyrir völtum auði Áhyggju þúnga bar, Mörgum þó býtti brauði, Blessan þess meiri var Yfir hans öllum þar, Umdæmi öðrum hærri, Sem ábatann gáfu stærri, Aktaði ekki par.

11. Naumtstaddra nauðsyn bætti, Nær svo að höndum bar, Ekkjum, Sem ángrið grætti, Opt var í föðurstað, Sannprófað segi' eg það, Óþreyttur gott þeim gerði, Þó gæti' ei launað með verði; Eg má meðkenna það.

12. Kinstóran einn má kalla, Kveð eg það rètt til sanns, Þó hèr nú þurfi varla Þann telja ættarkrans, Höfðíngjar voru hans Afi og einnig faðir, Æruverðugir báðir, Lögmenn tveir sunnanlands.

13. Í ótta guðs uppfræddur, Einnig bóklegri mennt, Mál', vizku', og minni gæddur, Sem mest er til lærdóms hent, Túngumál tvisvar tvennt Skírlega kunni' að skilja, Skal eg þess ekki dylja, Af guði var gjöf sú lènt[1].

---

[2]) Hèr á inn bið 14. vers: „Spakvitur hverjum heldur, Hygginn, málsnotur, skír, Öllu því

15. Ólofað mætti meinast Mörgum, sem heyra kann, Ef skyldi allt það greinast, Sem eg þó skynja vann Um þenna elskumann, Eflaust má sveddan sanna Sveitin Akranes-manna, Og þeir, sem þekktu hann.

16. Hvað marga hrjáða' og hruma Hann nærði optsinnes, Fyrir guðs náð græddi suma, Geta verður og þess, Veitti þeim sæng og sess; Þeir, sem við vilja vakna, Verða þvílíks að sakna Úr hreppnum Akraness.

17. Ein gáfan er sú mesta, Ætti að dyljast sízt, Barnalán lángt yfir flesta Lènti' honum drottinn víst, Eitt það og öllum lízt, Sem fræið á fögrum kvistum, Til frjóvgunar sætum listum, Dyggða blóm þeirra' út brýzt.

18. Láng-þjáðan síðsta sinni Sá eg og ræddi við, Eru mèr öll í minni Orð hans og máltækið, Með sönnum guð-

---

mest fjærfelldur — — — — Rèttlæti ljóst, sem hlyddi, Lögrèttu sessinn prýddi, Dæmi slík reikuast dýr". En þar þetta vers hefir ekki feingizt fullkomið, sezt það hèr að neðan.

hræðslu sið, Þúngt kvað sèr þykja' að líða, Þó vildi gjarnan bíða Herrans heimsóknar bið.

19. Hann fyrir skömmu hafði Hold og blóð drottins þá, Sem nauðsyn sálar krafði, Í sannri trú gjört að fá, Hèðan bjóst heimi frá, Gaf sig til herrans handa, Honum befól sinn anda; Hug vorn slíkt hugga má.

20. Átta vikur víslega Veikleika þúngan leið, Í þessum þrauta trega Þolinmóður svo beið, Síðan fèkk sælan deyð, Hafði þó mál og minni Með góðri rænu' og sinni Fram allt á andláts skeið.

21. Guð hafði' hann burtu hèðan Í himna fögnuð þann, Er aldrei fèkk auga sèðan Nè eyrað heyra vann, Þar gleðst með helgum hann; Hug þeirra herrann kæti Harm og mein gjörvallt bæti, Sem gráta sinn ástmann.

22. Syrgir þig, bróðir sæti, Sorgandi lundin mín; Ástúðlegt eptirlæti, Umgeingnin dyggða fín Hvarf mèr frá heyrn og sýn, Aðstoð varst opt mèr þjáðum,

Í útlátum, gjöfum ráðum, Sem víst var venja þín.

23. Syrgja þig sætir vinir, Segir það hugur minn, Líka svo harma hinir, Heyrandi afgáng þinn, Sem geyma guðhrætt sinn, Náskyldir, nánir, teingðir, Nauðstaddir fátækt þreingðir, Og allur almúginn.

24. Syrgir nú sorgfull kvinna, Sem vonlegt þykja má, Góður, sá gætir sinna, Guð faðir himnum á Ætíð sè henni hjá; Hugraun og harma bæti Huggunarandinn mæti, Svo megi fögnuð fá.

25. Syrgjandi synir og dætur, Sýta með hjartað tvist, Sèrhvert harmandi grætur, Horfin er gleði' og lyst, Föður vorn vèr höfum misst, En það skal oss til gleði, Af guðs vilja það skeði, Hann gekk í himna vist.

26. Úr brjósti hrindum hryggðum, Hvert skal svo öðru tjá, Fylgjum hans höfðíngsdyggðum, Hèr meðan jörðu á Lífið útendast má; Síðan mun án alls efa Oss drottinn sjálfur gefa Í friði' hann aptur sjá.

27. Akranes ætti' að skilja, Áður hvað gott var lènt, Þig skal og þess ei dylja, Þèr hefir drottinn bent, Og sorg til handa sent, Höfðíngjar heiðurs gjarnir Hèðan þrír eru' nýfarnir, Lær þú af þessu þrennt.

28. Feingið gott guði sönnum Grátandi þakka nú, Fráföllnum frómleiks mönnum Fylgi von, dyggð og trú, Þar að auk þeinkir þú, Við illu æ þig varir, Iðrun og bæn ei sparir, Kær sè þèr kenníng sú.

29. Einginn skal of mjög þreyja Annan, því hugsa ber, Allir eigum að deyja, Æfin líkamans þver, Upprisan eptir fer, Guð láti' oss lifa tilbúna Í lausnarans náð fyrir trúna; Amen, þess óskum vèr.

## Útfararminníng
### bartskera
### Jóns Sigurðarsonar,
sem deyði að Káranesi í Kjós
þann 9. júli 1670.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Opt hressir mína hrellda sál Huggunar-

samlegt Jesú mál, Segjandi ljóst við sína: Rèttlátir munu svo sem sól, Sú eð uppljómar veraldar hjól, Skært í guðs ríki skína.

2. Rèttlátir eru efalaust Allir, sem setja von og traust, Á Jesúm Krist alleina, Því hans úthelta blessað blóð Burt hreinsar þeirra synda móð, Orð guðs sem glöggt um greina.

3. Hvílir guðsbarna allra önd, Eptir líf þetta' í drottins hönd, Eingu þar ángri mæta, Fávísir halda harða neyð, Harmkvæli og pínu þeirra deyð, En þær hvíld hafa sæta.

4. Dýrðarlegt auglit drottins sjá, Dásemdir allar minnast á, Sem af hans miskun mætri Daglega þáðu hèr í heim, Hrósa fagnandi gáfum þeim Með saung og lofgjörð sætri.

5. Holdið á meðan hefir ró, Hvílist af allri mæðu þó Í svefnherbergi sínu, Til þess upprisu dagurinn dýr Af drottni ljómar fagur og hýr, Og mætir eingri pínu.

6. Síðan skal hold og sálin þá Sam-

teingð æ vera guði hjá Í sælu eilíflegri, Hæstu vegsemd því hlýtur það, Himneskri prýði forklárað, Sólar ljóss ljóma fegri.

7. Í svoddan trú og eðla von Er Jón bartskeri Sigurðsson Sætt í friði sofnaður, Sá hèr ágætan orðstír bar, Af öllum með sanni haldinn var Frómur, gegn, góður maður.

8. Frá æskutíð til ellidags Ástundan hans var sama slags, Vel reynt vèr svoddan sönnum, Að þóknast bæði' og þèna bezt, Það hann formátti allra mest, Guði og góðum mönnum.

9. Mótkast kom eitt það allra fyrst, Úngur sinn föður hafði misst, Guð því til góðs um vendi, Sinni ástkæru móður með Mjög góða forsjón öðlast rèð Af drottins hjálparhendi.

10. Oddur prestur með allan sann Á Reynivöllum byggja vann, Hálærður heiðurs maður, Ellefta aldurs ári á Að sèr þau tók og varð hann þá Með æru' og sæmd upplóstraður.

11. Þrjá um tvítugt þá hafði hèr,

Hjúskap með æru valdi sèr, Sjálf reynslan satt það segir; Anna Jörundar dóttir dygg Döpur af sörg nú eptir hrygg Í drottni þolgóð þreyir.

12. Samvist þeirra varð blessuð, blíð, Börn gátu sín á milli fríð, Tíu alls mátti telja, Sex eru enn hjá oss af þeim, En fjögur burt úr þessum heim Vildi guð til sín velja.

13. Svo sem guðsbörnum almennt er, Ei máttu krosslaust lifa hèr, Ýmsar opt hryggðir hrelldu; Fróm ektakvinna elskuklár Og hann um sjö og þrjátíu ár Hjúskap með heiðri hèldu.

14. Bartskera-dæmis mjúkleg mennt Mörgum framar var honum lènt, Guðs er sú gáfan hreina; Alúð því lagði á það víst, Ómak og kostnað sparði sízt, Svo má þar satt um greina.

15. Komu því opt til Káraness Kvillaðir menn, og víst mun þess Minnzt verða leingi víða, Læknínga gaf þeim ljúfleg ráð, Lukkaðist vel fyrir drottins náð, Margir síns misstu kvíða.

16. Umgeingni hans var öllum þekk,

Almennt því góðan lofstír fèkk (Satt eitt eg þar um segi), Guðhræddur reyndist, hógvær, hýr, Hreinlyndur, frómur, dyggðaskír; Oflofað er það eigi.

17. Það má eg segja svo til sanns, Saknað verður þess fróma manns, Öld meðan vor mun vara; Ávinníng lítils akta vann, Ei lèt því nokkurn fátækan Synjandi frá sèr fara.

18. Holdsins þjáníng og þvíngun leið, Þolgóður drottins hjálpar beið, Fram trúi' eg líf svo liði, sextugasta síns aldurs á Ári þrjá daga sjúkur lá, Og sofnaði sætt í friði.

19. Græðarinn Jesús gleðji' hans önd, Geymd er hún vel í drottins hönd, Holdið í hvíldum sofi, Mætast eptir hans mannorð er, Minníng rèttlátra aldrei þver; Gáfur guðs lýðir lofi.

20. Eptirlifandi ekkjan dygg Er nú sorgandi mjög og hrygg; Drottinn vor hana hressi, Guðs heilags anda ást og náð Annist og styrki hennar ráð, Ytra og innra blessi.

21. Eins bið eg þeirra börnin blíð

Blessi drottinn guð alla tíð, Einkum eg þau áminni, Að veiti umsjón, elsku, tryggð Alla tíma með hreinni dyggð Sorgandi móður sinni.

22. Gæti vor guð og geymi' oss nú, Gefi oss frið og rètta trú, Heims hèr í hryggðarvistum, Svo eignumst eptir endað kíf Eilífa sælu' og himneskt líf. Amen, fyrir Jesúm Kristum.

---

Málið slètt hefir mennta skort og minnið veika,
Þó er rètt af elsku ort í einfaldleika.
Móðir hrygg og börnin blíð til bezta haldi;
Lifi dygg og dáða þýð í drottins valdi.

## Útfararminníng
## Björns Gíslasonar,
kveðin 1656.

Gíslason er Björn burt, Beint það hefi' eg sannspurt; Hann var hug-glaður, Heiðurlegur maður, Eptirstendur einn hans Auður samastaður.

2. Sakna þar menn manns, Er marga þekktu dyggð hans, Guðhræðslu hýra, Hreinlyndið skíra, Lítillæti, ljúft geð, Lofi má það stýra.

3. Í dóms þegar sat sess, Sèrdeilis eg get þess, Rèttvísin vildi Viðgángast skyldi, Frið, sátt og sannleik Setti' í æðsta gildi.

4. Guð gæfi mann-margt — Mæli' eg nú ei óþarft — Hèr líktust honum Af heims aldar sonum, Geingi þá gagn vort Að góðum óska vonum.

5. Guðhræddra vin var, Vitra manna prís bar, Í samfundasæti Sýndi mest á-gæti, Hugljúfur, hógvær, Með heiðar-legri kæti.

6. Segi eg samt það: Saknar manns úr hans stað, Opt í hug hirði, Hjá mèr sjálfum virði, Hver var honum heldri? Hver í Borgarfirði?

7. Sefur hann sæll nú, Sálin er hjá Jesú; Kær börn og kvinna, Kross eptir finna; Gleðji þau guðs náð, Svo gráti megi linna.

8. Ó, hvað mín önd þreyr, Þá einn guðhræddur burt deyr, Fegin með færi, Ef frelsistíminn væri. Leys mig, þá þèr líkar, Ljúfi Jesú kæri!

## Eptir sama mann.

Afgeinginn líðs ljúfi,
Lundhægur, nafnfrægur,
Gestrisinn, hughraustur,
Heilráður, gjarn dáða.
Mannvalið, siðsvinnur,
Sæmd hlaðinn, jafnglaður,
Guðrækinn, þelþýður,
Þolgóður, um ljóðast.
Alfrægur heil-hugi,
Hýr, glaður, skír maður.
Væng drottins fáng-fluttur,
Friðsælu guðs-hælir.
Hèr minníng kær kennist,
Kurt varir burtfarins,
Nafn lifir, stofn stefja
Stað þessa að hressir.

## Í samsæti kveðið.

Lagið: Ó drottinn allsvaldandi.

Verum í guði glaðir, Göfgum þann, sem veitir oss, Eins og ásthugull faðir, Eptirlætis fullmargt hnoss, Börnin sín blíður í lyndi Böl og pín burt vill hrindi, En vist og vín verði oss að yndi.

2. Líkamans lyst hann seður, Líðum vèr ei húngurs nauð, Sálina guð vor

gleður, Gefandi bæði vín og brauð; Slíka náð þrátt vèr þiggjum, Því er ráð, að oss hyggjum, Drýgjum dáð, drottin aldrei styggjum.

3. Hófleg sè holdsins kæti, Hugsum til, að fallvalt er Allt heimsins eptirlæti, Erum og sjálfir dauðleger, Heppinn þann helzt má játa, Hitta kann rèttan máta, Auðnu-bann ei þarf síðar gráta.

4. Meðtökum með þakklæti Mildar gáfur veitarans, Fælum ei frá samsæti Friðinn burt og eingla krans, Sitjum hèr svo sem bræður, Satan er drjúgum skæður, Höfum vèr heilög verk og ræður.

5. Einginn skal annan kæla, Og auka þár með parlament, Bræðurna að bakmæla, Bannað er oss þetta tvennt; Skemmtun nóg er hèr önnur, En illum róg núa' um tönnur, Hollra plóg held eg að hefja könnur.

6. Iðkun andlegra kvæða Er samdrykkju skemmtan bezt, Einginn skal annan hæða, Enn þó sjáum nokkurn brest; Fíflsins Kam við föður sinn Nóa

Fúslegt nám skyldi' oss óa, Keskni og klám kann víst heillum sóa.

## Sálmur,

sem syngjast má að skilnaði eptir samsæti.

Lagið: Ó Jesú þèr æ viljum vèr.

Til alls er tíð, sem ljóst er lýð, Letrin það heilög sanna, Um eina stund vèr fáum fund Frænda og ástvinanna; En annað veif, slær oss á dreif, Aptur hljótum að skilja; Gángi oss það í þessum stað Þægum guðs eptir vilja.

2. Fyrir loflegt mót og ljúfleg hót, Sem lýða fór á milli, Guð hafi lof; það góð er gjöf, Að gagnast vor bræðra hylli; Æra sè þeim, sem oss bauð heim, Allt veitti' af góðum vilja; Guð láti sá, sem gott allt má, Gott aldrei við hann skilja.

3. Allt hvað oss brást og yfirsást Á þessum gleðidögum, Að gjöra sem bar, og glæplegt var Guðs móti náðar lögum, Biðjum nú vèr af hjarta hèr Hans náð og miskun dylja; Er það vort traust efunarlaust Upp á hans náðar vilja.

4. Hafi og mátt vor hylli' og sátt Af

hrasandi drykkju-pörum Sturlast nú hèr, það brotlegum ber Af-biðja ljúfum svörum; Eptir skilnað skal einginn það Öðrum til mótfalls þylja, Því ástin frek bræðranna brek Byrgir með góðum vilja.

5. Hvað gott, sem sá og heyrði á, Hver einn skal með sèr flytja, Sæmilegt er, það siðsamt fer, Sèr til fróðleiks að nytja, Með heilnæmt þel að virða vel Og víti annara hylja Sómi er hár og siðsemd klár, Samsætismenn þá skilja.

6. Aðskilnað vorn og ástmann hvern Er eg felandi drottni, Að ástum hèr skulum ei skylder, Er guð sjálfur þess vitni; Vèr sammæltumst með sætri gunst, Að sjón einúngis skilja, Með æru hót vort mæla mót, Megi það svo til vilja.

7. Þó sundrumst nú, samt er vor trú, Síðar munum með gleði Hjá drottni sjást með yndi' og ást Allir með hýru geði, Með andlit bjart og skrautlegt skart, Skínandi fegur en lilja; Sú óskaspá verði amen já Eptir guðs náðar vilja.

## Öl-erindi.

### Að skilnaði kveðin.

Nú er eg glaður á góðri stund, Sem á mèr sèr, Guði sè lof fyrir þenna fund, Og vel sè þeim, sem veitti mèr.

2. Vitjað hefi' eg á vina mót, Sem nú á sèr, Reynt af mörgum hýrleg hót; Vel sè þeim, sem veitti mèr.

3. Þó munngáts orð sèu mörg og smá, Sem opt við ber, Til lasta ekki leggja má; Því veldur sá, sem veitti mèr.

4. Yndi' er að sitja öls við pel Og gamna sèr, En fallegt er að fara vel, Þó ör sè sá, sem á skeinker.

5. Gott er að hafa góðan sið, Sem betur fer, Aldrei skartar óhófið, Og er sá sæll, sem gáir að sèr.

6. Gott er að hætta hverjum leik, Þá hæst fram fer; Nú skal hafa sig á kreik; Vel sè þeim, sem veitti mèr.

## Leirkarlsvísur.

Skyldir erum við skegg-karl tveir, Skammt mun ætt að velja, okkar beggja' er efni leir, Ei þarf leingra telja.

2. Við höfum það af okkar ætt, Efnið slíkt eg þekki, Báðum er við broti hætt, Byltur þolum ekki.

3. Það er annað ættarmót Að okkar hætti rèttum, Við höfum báðir valtan fót, Veit ei, nær við dettum.

4. Ílát vínsins athuga vönd, Erum við þess á milli, Og þurfum báðir hentuga hönd, Svo hvorugur sínu spilli.

5. Einn eg mismun okkar fann, Ef áföll nokkur skerða, Eg á von, en aldrei hann, Aptur heill að verða[1]

---

[1]) *Paraphrasis metrica*

biskupsins Mag. J. Þorkelssonar Vídalíns.

Non est in vasti tota farragine mundi
  Res mihi tam similis, quam meus urceolus;
De luto terrae finxit mihi membra creator,
  Materiemque meo terra dat urceolo.
Communem loquitur gentem inconstantia, nam pes
  Alterutri neuter certior esse solet:
Nos finxit vino lecythos natura caducos,
  Auxiliatricem poscit uterque manum.
Dividimur tamen hoc, vitium si traximus ambo:
  Ipse mihi, nunquam redditur ille sibi.

# Barnaspurníngar,

um kirkjusiði og *ceremoniur*, úngdómi og einföldum til fróðleiks.

---

## Formálinn.

Margt er ónumið mönnum í úngdæmi,
því eru skólar settir, að skerpa næmi.
Gagnsmun ófróðum guð tillagði þenna,
þeir eldri eiga ýnglíngum iðnþróttir kenna.
Sá lærði á vargjört lánardrottni sínum,
Sem lèt hann komast að vísdómi vænum.
Sá úngi á næmi ferskt við guð að virða,
Og í fjársjóð þeim flest gott hirða.
Að sinni skyldu sèrhver á að gæta,
Og ei ákveðið verk ógjört láta.
því er það fróðum fordyld og æra,
Sem flesta láta af sèr fræðast og læra.
Úngum horfir helzt til heiðurs og sóma
Iðkun og aukníng náms ekki forsóma.
Sá, sem góðs leitar, góðs fær að njóta,
Margt kann óráðþæginn af sèr að brjóta.
Hèr skal Kirkjuvit koma til greina,
Úngra og einfaldra úrlausnir reyna.
þeir þurfa að kunna sig, sem koma í hofgarða,
Mèr þykir um guðs hús þó meira varða.
Illa tilreiddur í kirkju koma
Mun kristnum virðast til mikils ósóma.
Heimska' er að horfa á helg verktygi,
En, hvar til þau þèna, vita þó eigi.

Að heyra á heilagt mál á helgum degi
Til vansa verður þeim, sem vitkast eigi.
Að horfa á helg tilfaung hússins bezta,
En deili hafa eingin á, er dárlegt næsta.
Gjöri einginn spott að spursmálum þessum,
Sem eg hèr framset í samstæðum versum.
Sá, sem vel þiggur, vel bið eg njóti,
Fari honum vit í vöxt, en fáfræði þrjóti.
Leiðrètti, ef líta á, lærðir vitríngar;
Þeygi eru fyrir þá gjörðar þessar spurníngar.
Hver, sem vitkast vill, við vísdóm auki;
Einginn verður fullnuma fyr en í guðs ríki.
Lærandinn lærir hèr svo leingi, sem lifir,
Guð gefi oss sinni til gott að hafa yfir.

---

1. Hvað viltu, kristinn maður! til kirkju þinnar?

Að sækja þángað gagn sálar minnar.

2. Hvað er sálargagn, seg mèr af þessu?

Að helga hvíldardag og hlýða messu.

3. Veiztu, hvað hvíldardagur hefir að þýða?

Viku sjöund væna og vígð er til tíða.
Ellegar að segja svo í máli mjúku:
Það er helgur dagur í hverri viku.

4. Seg mèr, við hverja hvíld hann er kenndur?

Guðs sjálfs — sem í Genesis bók stendur. —

Heila sex daga guð heiminn skapaði,
þann sjöunda hvíldist hann og í senn helgaði.

5. Hvort varð guð þreyttur, þá hann heiminn gjörði?

Nei; því hann vann allt með almættis orði.

6. Hvernig hvíldist hann og þó án þreyti?

Hann lèt af að skapa, þó lángtum meir gæti.

7. Hvernig helgaði guð hvíldardag fyrsta?

Hann setti hann til víðfrægðar verkinu bezta.
Hann var stiptaður helzt mannsins vegna,
Sem vilja guðs hefir vit á að gegna.
Á viku hverri eiga menn verk guðs að grunda,
Sex daga á holdið, en sál þann sjöunda;
Skal þá um leið hver á skaparann minnast,
Til heiðurs við hans verk í helgum stað finnast.
Því ber hann fagurt hvíldardags heiti.
Sjöund á að afletta sex daga þreyti.

8. Hèlzt leingi sköpunar skikkun sú góða?

Allt þar til Jesús upp reis af dauða.
Þann mikla hvíldardag mæddur af pínu
Hvíldist hann í greptrunar herbergi sínu;
En þann næsta dag með upprisu sinni
Helgaði Kristur, svo hafður sè í minni.
Rann þá upp spánýr drottins dagur;
Mestan bata tók mannkynsins hagur.
Og þá urðu dagaskipti dýrrar sjöundar

Til heilags helgihalds, heilags samfundar.
Síðan hefir kölluð verið sunnudags helgi,
Henni trúi' eg endurlausnaræran fylgi.
Helgir postular hann þar til völdu
Með ráði heilags anda, þá ritníngar skildu.
Við sól er kenndur vegsemdar mestur
Drottins dagur vor í dagatali fyrstur.
Á honum skópst hauður og himin með ljósi,
Drottins margfaldri dýrð trúi' eg hann hrósi.
Á honum rèttlætis sól rann upp í heiði,
þá lífið fèkk sigur, en dauðinn deyði;
því er hann og drottins dagur kallaður.
Sá, sem hann heldur vel, er heilagur maður.
Á sama vikudag sendist af hæðum
Heilagur andi guðs með himneskum gæðum.

## 9. Hvað kallast að helga hvíldardaginn?

Að gjöra sem kenna guðs kirkju lögin.
Helgar sá hvíldardag, sem hefir í minni
Öll sköpunarverk með endurlausninni.
Og heilags anda helgunar gæði,
Sem alla menn með orði guðs endurfæðir.
Sá, sem með alúð orði guðs hlýðir,
Af heyrn öðlast trúna og hjálpræði um síðir.
Sá lærir þrennan guð að þekkja og dýrka,
Hlið himins er honum heilög kirkja.
Hver, sem ákallar í helgum söfnuði,
Nafn síns drottins, náð fær hjá guði.
Hver, sem á helgum degi herrann prísar,

Sannan guðs Lazarum sig bevísar.
Sá, sem guðs sakrament með sóma brúkar,
Sinni þurfandi sál sætlega hjúkar.

10. Kynntu mèr, hvað kirkja þýðir?
Það er heilagt hús, sem helgan guðs prýðir.
Kirkja heitir bænahús Krists dýrkínga,
Eða vígt herbergi að tala um guð og sýngja.
Kyrios í grísku máli er drottinn dýrðlegur,
Guðs hús af guði sjálfum glóseran dregur.

11. Hvað merkir kór, þar Krists er altari?
Í saungvígðum parti sýngjandi skari.

12. Hvað er altari með sínum sóma?
Það er göfug stó guðs helgidóma.
Á altari voru offur lögð áður til forna,
Og kveykt upp reykelsi kvöld og morgna.
En nú er það andlegt borð andlegrar fæðu,
Þar kennimenn tilreiða Krists kvöldsnæðu.

13. Því eru lífleg sett ljós á altari?
Svo helgidagsprýðin sè því háleitari.
Sú seremónía er svipur guðs dýrðar,
Og dýrt heillamerki drottins hjarðar.
Sjálfur guð býr í sínum helgidómi,
Eilíft ljós er hans andlits sómi.
Ljómandi guð nefnist ljóssins faðir,
Ljóssins börn eru hans lýðir kallaðir.
Jesús er líf og ljós lifandi manna,
Sem upp rann og ofan kom af hæðum himnanna.
Kerti er af hlutum tveim, kveyk og tólki,

þar á logi ljós, sem lýsi fólki.
það klára kirkjuljós, Kristur blessaður,
Einn með tveimur náttúrum er guð og maður.
Minnir oss messu ljós á manndáð skæra,
Að vöndum verkin góð, sem vor er æra.
Kennir oss kirkjuljós, kveykt á altari,
Að lukka vor, líf og trú, leikur á skari.

14. Hvað þýða klæði þau, hökull og serkur,
sem um messutíma íklæðist klerkur?

Mark og einkenni er messunnar skrúði,
Sá, honum klæðist, er Krists sendiboði,
Eins og guðs eingill sást á páskadegi,
Hvítklæddur í steinþrónni hægra megin.
Einnig eru upptök þess í eldra testamenti,
Tignarklæði bar sá í tjaldbúð þènti,
Í Arons prests skrúða var ærinn blómi,
Að guðs skipun þá hann gekk í helgidómi.

15. Hvar fyrir er klukkum hríngt til messu?

Guð er frumkvöðull fyrir verki þessu.
Á Sínaí fjalli svo bar til forðum,
Áður en himna guð hreifði þar orðum.
Hvell básúnu hljóð hann lèt þar klíngja;
þar af er siður sá til saungs að hríngja;
Svo títt sem málmurinn fyrir messu gellur,
Teiknast oss dómsdags hljómurinn hvellur.

16. Seg mèr, hvað messan er í merkíng sinni?

Heilög þjónusta í helgu inni.

17. Hermdu mèr, hver er þar helzt
að þènari?
Sá, sem er skrýddur fyrir skæru altari.

18. Hvað gjörir sá þjón, þegar hann
messar?
Hann afleysir, prèdikar, biður og blessar.
Í vatnsfonti skírir vitur saungvari,
Deilir út brauð og vín við drottins altari.

19. Er margt að gjöra í messu em-
bættinu?
Sjö verk, sem nú voru sögð öll í einu.

20. Er margt súngið í messu veglegri?
Helgir saungvar fimmtán, hver öðrum fegri.

21. Hvað heita saungvar þeir, seg mèr
hið rètta,
Eg held vísdóms mennt að vita þetta?
Upphaf messu er fyrst inngaungu sálmur,
Geingið er til kirkju, og gellur þar málmur.
Þar næst er friðarbón framflutt í messu,
Kyrie er upphaf á kórstemmi þessu.
Þá kemur eingla saungur af presti hafinn,
Og dýrð sè guði í upphæðum gefin.
Þá er messu bæn í heyranda hljóði,
Eptir Gabríels orð sögð til söfnuði.
Þar næst postula mál, pistill tónaður
Og Halelujah-vers, sem himnana gleður.
Þar næst himnasaungs fylgjan fögur,
Sequentian, sem sætan seim dregur.
Þá er guðspjalls gleðilegur rómur,

Og Credo, sem játar kristinndómur.
Vers eptir prèdikun með són sætum,
Helgunar eðla orð undir sínum nótum.
Sakramentis sálmur óvandur
Súnginn, meðan útdeilíng yfir stendur.
Þá er þakklætisbón byrjuð af presti,
Síðan blessunar orð, sá sermóninn bezti.
Útgaungusálmur endar helga messu;
Himnesk er skemmtan að hlýða þessu.
Allir í söfnuði eiga þessa saungva
Yfir hafa, þar til úr kirkju gánga.
Þeir með vörum lágt, sem vantar saungróma,
Svo kirkjan með kórnum samsýngi, amen.

22. Er nú þetta ætíð súngið hið sama?

Nei; því að sitt mál heyrir hverjum tíma.
Aðventa, jólin, að kyndilmessu,
Lángafasta og páskar ljá oss þá vissu,
Uppstigníngardagur og hvítasunna,
Þrenníngarhátíð og þaðan til aðventunnar.
Tímar kirkjuársins með termínum þessum
Svo sèr skipta og líka saungvar í messum.

23. Flytjast margir sermónar fram í guðshúsi?

Eg vil telja þá upp, svo úr spurníng leysi:
Fyrsti á sæti þar, sem fólk við skriptast,
Þrír á prèdikunarstól, og þeir svo skiptast:
Áminníng til bænar er þeirra hinn fyrsti,
Guðspjalls útleggíng annar sá næsti,

Almennileg bænagjörð er þriðja ræða.
Þá prèdikun endast, sú fólkið á að fræða.
Fimmti er áminníng fyrir guðs altari,
Áður en bergir innargaungu-skari.
Sjötti við kirkjudyr, þá konur inngánga
Eptir sinn barnburð og útistöðu lánga.
Sjöundi við kórdyr, þá saman skal hjón vígja.
Áttundi, þá afleyst er opinberlega.
Níundi við fontinn, þá fögur vatnsskírnin
Handtèruð er og helguð guði börnin.

24. Að upphafi spyr eg ársins kirkjunnar?

Það er fyrsti sunnudagur jólaföstunnar.

25. Hvað er þá í fyrstu framsett til mennta?

Þreföld herrans heilög aðventa.

26. Hvað er á jóladag helzt lagt í minni?

Maríusonar fæðíng af móður sinni,
Á áttadag af drottins umskurnar sári,
Og nafninu Jesú með nýja-ári.
Opinberunar hátíð heitir þrettándi,
Þá komu vitríngar úr austurlandi.
María á kyndilmessu kom í musteri,
Símeon fann Krist þar, svo sem hann á kjöri.
Á föstugángssunnudag, svo hljóðar kenníng,
Við skírn Kristí var heilög þrenníng.
Á boðunarhátíð Maríu birtir letur,
Um Kristí getnað sá dagur getur.

Á skírdag er framsett sú kirkju ræða,
Hvernig menn hold og blóð herrans snæða.
Á lángafrjádag er lesin passía,
það er herrans píníngar heil historía.

27. Hvað er á páskadag prèdikað lýðum?
Af sældar Kristí upprisu sigri fríðum.

28. Hvað er á uppstigníngardag haft til kenníngar?
Dýrðar upphafníng drottins uppstigníngar.

29. Hver er lærdómur á hvítasunnu kenndur?
Um helgan anda, sem af hæðum var sendur.

30. En á trinitatis tignardegi hreinum?
þá er af guði sagt þrennum og einum.

31. Hver eru' á Jónsmessu framsett fræði?
Um fæðíng Jóhannis og föður hans lofkvæði.

32. En á vitjunardag Maríu guðs móður?
Hebrons samkoma og hennar dýr óður.

33. Hvílík er á Mikaelismessu musteris ræða?
Um einglanna og úngbarna eðlið góða.

34. En á allraheilagramessu degi mætum?
Segist þá af útvaldra sældarhag sætum.

35. Hvernig er mögulegt að minnast
prests kenníng?
Ef eg prèdikunar athuga þrenníng:
Fyrst læríng þá, sem lætur upp hið sanna,
Hvar á sig festir heilög trú manna.
Annað er áminníng öllum til betrunar,
Sem varar við illu, svo verði' ei til hindrunar;
þriðja er huggun sæt í sorg hvers konar,
Sem glæðir upp geð manns til góðrar vonar.

36. Áttu margt að gjöra, þá til kirkju
kemur?
það er innifalið í atvikum þremur:
Fyrst kem eg í bænahús að biðja með öðrum
Sáluhjálpar sjálfum mèr og samkristnum bræðrum;
þar næst að hyggnast og hlýða kenníngunni;
þriðja lagi að þakka guði með rödd og munni.
Hèr að auki á eg á tilsettum tímum
Að gjöra mig líkan guðs kirkju limum,
Fyrir guði og prestinum grátandi skriptast,
Svo eg megi hvervetna huggast og typtast,
Hèr næst að vera í helgu samneyti
Guðs sonar holds og blóðs með gleði' og þakk-
læti.

37. Ekki er enn að öllu spurt, á vil
eg hlýða,
Hvað mun skriptargánguriun hafa
að þýða?
Hann merkir játníng hjarta og munns þrenna,
Í fyrstu þar sorgfullir syndir viðurkenna.

Og kemur sú hjarta-sorg af hörðu lögmáli,
Sem syndaþekkíngar sannur er skóli.
Trúar játan þar næst í skriptargángi skeður,
Því synd-kramda samvizku guðspjallið gleður.
Hlýðnis játan þriðja heitir í skriptargángi,
Þar góðri lifnaðarbót guði lofar meingi.

38. Veiztu, hvað gott það er guði að játa,
Dýrmætt og heilsusamt djöfli afneita?

Það má kalla trúlofun og tryggðarsáttmála,
Sem við guð sinn í skírn gjörði hver sála.

39. Hvað er guðs stórmerki, sem hver einn játar?

Öll skikkan sú, sem hann vill vera láta.
Það eru öll hans lög og himnesk rèttindi,
Sem bjóða hvað rètt er, en banna rángindi.
Það er líka guðsnáð í guðspjalls sannindum,
Sem neitar sig vilja nokkur deyi' í syndum.
Kallanar kristindóms konúngleg regla
Og sakramentin bæði, er svoddan innsigla.

40. Hvað kallar þú Satans verk og vilja?

Synd og glötun manns, svo er það að skilja.

41. Því óskar þú aflausnar af presti, þar hann er líka brotlegur og hefir sína bresti?

Það gjörir hans postullegt prests-embætti;
Jesús þá forðum í sinn stað setti.
Þá prestur afleysir með yfirleggíng handa,

Talar hann ei sín orð, heldur heilags anda.
Í Jesú nafni vil eg vera af syndum leystur,
En ekki sjálfs þess, sem framflytur lestur.

42. Hvernig kann aflausn prests á þèr að hrína?

Guðs andi gjörir það fyrir góða trú mína.
Kraptur Kristí blóðs kann mig að hreinsa,
Og alla trúaða, af öllum sálar vansa.
Að gensvörum þínum geðjast vel heyrn minni.
Verði þèr, vinur! eptir vænni trú þinni.

## *Epilogus.*

Hèr næst vil eg í skilnað skila erendi
Frelsarans, sem til þín með friðarboð mig sendi.
Ef legáti konúngs að þèr leita færi,
Og hans tignar náðugt brèf til þín bæri,
Og væri hans majestatis mandat þar inni,
Að þú skyldir í barm stínga brèf-perlu sinni,
Og læra fyrir utan letur, sem á stæði,
Og af trú blífa við brèfuð heilræði;
Þá skyldi hann unna þèr af ríki sinu
Til æru þèr og uppheldis ætterni þínu:
Mundir þú í brèfsins innihaldi þig æfa,
Og legátann einnig í heiðri hafa.
Nú et biblían brèf kóngsins hæsta,
Hans náðar sendiboða haltu þína presta;
Mundu því, barn-korn! þá í guðs hús geingur.
Herrans orð er þèr himneskur feingur.
Athuga þú prèdikunar prestsins uppkvæði.

Og vittu, hvar það samhljóðar við þín barna-
fræði.
Að guðspjalls innihaldi gá, sem þú getur,
Og hvað marga púnkta presturinn framsetur.
Festu í minni þínu fögur heilræði,
Líkíngar sèu þar, sem lifandi fræði.
Af huggunar ummælum haf sálar gleði,
Sit þú undir prèdikun með góðu geði.
Láttu góð dæmi til góðs þig upphvetja,
En illra vond afdrif frá illu þig letja.
Vertu ekki gálaus, þá guðs orði hlýðir,
Nè fljótur í burt, svo ei blessunar bíðir.
Geym þú svo prests orð, sem guðs munnur segði,
Athuga hans ráð góð, sem eingill guðs legði;
Því öllum mönnum verður eptir trú sinni.
Gott er að gjöra vel og gott leggja í minni.
Kynntu þèr utanbókar kórsaunginn væna,
Amen segðu til allra kirkjubæna.
Hátíðir skaltu í hávirðíng hafa,
Glaður þá guð þinn í guðs húsi lofa.
Guð mun þèr kirkjusókn svo góðu launa,
Endíng munt sæla fá allra þinna rauna.
Hreppa muntu veru í himnanna ríki,
Vina guðs útvaldra verður þú líki.
Messu spurnínga þulan sú þarna
Kveð eg megi heita Kirkjuvit barna.

---

## Bergmál.

Mun guð marga til dómsins kalla? . . . . Alla.
Eru allir trúaðir á þeim degi? . . . . . . . . . . Eigi.
Er nokkur sjálfkrafa saklaus feinginn? . Einginn.
Hvernig geingur þeim, er heiminn villa? . Illa.
Hvað er það, sem herrann þeim sendir? Endir.
Hvað heyra þeir, svo sárlega sýte? . . . . . Ite.
Hvar mun þeim reiðast rúm að kveldi? . Í eldi.
Nær komast þeir úr kvöl margfaldri? . . . Aldri.
Hvílíkt heyrist hjá þeim hrópið? . . . . . . Ópið.
Guð láti þángað fara fáa menn . . . . . Amen.
Hver eru laun, sem guð vill frómum færa? Æra.
Fara þeir nokkuð frá náð margfaldri? . . Aldri.
Er þeim þá búin eilíf vita? . . . . . . . . . Ita.
Hvað gefa þeir þá í herrans höndur? . . Øndu.
Hvað munu þeir þá í fögnuði segja? . . . Eja.
Halda þeir leingi það sælu sætið? . . . . Ætíð.
Hver verður endir á því geingi? . . . . Eingi.
Guð veit eg þeir lofa þar þráfalt; . . . Ávallt.
Guð gefi oss að vera þeim þó hjá. . . . . Ójá.
Guð gefi oss að sjá þar þá menn . . . Amen.

# VIÐBÆTIR,

innihaldandi

nokkur ljóðmæli,

sem eignuð eru

síra Hallgrími Pèturssyni.

---

## Bænarsálmur

um líkamlega blessun.

Lagið: Nú bið eg guð þú náðir mig.

Almáttugi og mildi guð, Miskunsamasti skapari! Hver vanur ert að leggja lið Lýð þig biðjandi' í neyðinni; Þar fyrir vonar hvers kyns hold, Herra veitandi! upp á þig, Bæði yfir og undir fold, Að þú, drottinn! forsorgir sig.

2. Æ drottinn! þessa dýra tíð Daglega höfum forskuldað, Sem yfirgeingur land og lýð, Lánleysi' og húngur fylgjast að; Hèr er framkomin hótan þín: Hafna skal jörðin ávexti, Synjandi brauðs, sem boðorð mín, Brjóta með alls kyns ránglæti.

3. Æví, misgjörðir þrykkja þètt, Þær oss forláti drottins náð, Gjald' oss ei eptir glæpum rètt, Gæzkunnar faðir ríkur af dáð; Uppljúktu þinni hjálpar-hönd,

Húngruð og nauðstödd börnin seð, Allar skepnur, sem eru með önd, Almáttug gæzkan! nær og gleð.

4. Vitja vors lands, svo verði það Veitandi sinni frjóvgun af, Krýn þú vort ár, svo komi' oss að Kröptug blessan um jörð og haf; Drjúpi þín fótspor fullri nægð, Faðir himneskur! morgna' og kvöld Gefandi brauð, en veittu vægð, Vèr þó verðskuldum alls kyns gjöld.

5. Sökum þess makt þín mikil er, Miskunar stórt þú hefir vald, Ávöxtuð skýin útbreiðer, Eins og himneskan klæðafald, Gefandi regn, svo grænkar jörð, Greiðandi fóður kvikfènað, Úngum hrafnanna býr þú borð, Biður náttúran þig um það.

6. Þú mettar bæði menn og fè, Margan rennandi straums úr lind, Stillir þú, svo hann framfljóte Fyrir sèrhverja þessa kind; Við þá fuglarnir sitja, en sætt Sýngja þèr lof á fögrum kvist, Blánkar á landið vatni vætt, Væna örfandi gleðilyst.

7. Svo af sáðkorni bakast brauð,

Brjóstið gleður hið sæta vín, Oleum gjörir andlit rauð Með eðlis góðum krapti sín; Vor guð! hvað eru verk þín sett Vísdómslega í hollan skamt, Öll hefir þú þau reglað rètt, Ríkur ávallt, en gefur þó samt

8. Örlætis drottinn! upp nú lát Efri loptanna fèsjóði, Út aus gróðri, svo kvaki kát Kornþurftug hjörð á jörðunni; Herra Jesú! sem hefir mett Húngraðan lýð á eyðigrund, Kom og gjör voru landi lètt, Lina þú vorri þrauta stund.

9. Afgángi þess blessaða brauðs Být þú nú út með húngruðum, Sem annars fara' í sult til dauðs; Sauði þá kenndu' í brjósti um; Þín hefir ekki höndin stytzt, Himneska nafn þitt vona' þeir á, Sem bjargræði sitt hafa misst, Signaði faðir! aumka þá.

10. Nær þú gefur, svo neytum vèr; En nemirðu þína blessun frá, Undir eins kemur eymd frábær, Eingin skepna þá lifa má; Andi þinn kann að skapa skír Skepnum sínum, hvað heilnæmt er, End-

urnýjum hans eðla hýr Allt forbetrar, sem jörðin ber.

11. Gef vorri fæðu kjarna' og krapt, Að komi' oss hennar næríng vel, Svo sem þú lagðir salla og sapt Sjálfur forðum í himnamèl; Ekki lifum vèr einúngis Af þessu brauði stundlegu, Heldur af orði hjálpræðis Himneska föðurs blessuðu.

12. Blessun tak ei úr brauði því, Sem bjarga voru lífi á, Heldur velsigna art þar í, Sem Elísæí brauðin fá. Húngruðum, drottinn! hjálpa nú, Hallæris þeirra mýk þú stund, Og fyrst fuglana fæðir þú, Forsorga oss á alla lund.

13. Alla fátæka annist guð, Sem ekkjuna í Sarepta, Svo efist ekki í eymd og nauð, Óþolinmæði' ei sigri þá; Heldur afþreyi' í helgri von Með hjartans iðrun, bæn og trú, Mildasti Jesú Maríu son! Miskuna oss og blessa þú.

14. Metta sál vora með þín orð, Miklu sætari veri þau oss, En hunáng þó þú berir á borð, Blessa þá og vorn rauna kross, Allt þángað til við borð þitt blítt

Barna guðs dýrðar ríki í Auglit þitt skoða fáum frítt Fullsælir vel af yndi því.

---

## Kvæði um Krists kraptaverk.

Maktin guðs er mikil og há, mædda að endurnæra, það vil eg læra í ljóða smíð að færa.

Þá lausnari heimsins holdi klæddist, Heilagur og synda hreinn, Af meyjarlífi fögru fæddist, Fornum reifum vafður sveinn, Margur af hans forsögn fræddist, Fram svo liðu stundir þá. Maktin guðs er mikil og há. Af laungum meinum lýðurinn græddist Lífs fyrir orðið skæra. Það vil eg læra í ljóða smíð að færa.

2. Kóngs maður einn af Kapernaum Kom til hans í góðri von, Bað hann (ljóst sem letrað sjáum) Að lækna þar sinn veika son. Anzaði Jesús orðum fáum, En við það þeim sjúka brá. M. g. e. m. o. h. Hann bauð og einnig anda þráum Annan þar ei særa. Þ. v. e. l. í. l. s. a. f.

3. Mágkona Pèturs kvalin af köldu Kanna mátti lánga þraut, Jesum þángað virðar völdu, Vægðar af honum fljóðið naut, Firna margt af fólki' ótöldu Færðu aðrir til hans þá. M. g. e. m. o. h. Þá, sem líf í eymdum öldu, Úr ángist gjörði færa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

4. Til lausnarans kom einn líkþrár maður Og lækníngar bað þeygi seinn, það veitti drottinn hjálpar hraður, Honum sagði: „vertu hreinn!“ Iktsjúkur í sæng óglaður Segir til hans: hann taki þá. M. g. e. m. o. h. Hann gekk burtu heilbrigðaður Með huggun sálar skæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

5. Jóhannes lætur letur út gánga, Lá þar einn af sóttum sár, þjáníng bar sá þrauta lánga þrjátíu heil og átta ár, Sífelld gjörði' hann sútin stánga, Sat við díkið Betesda. M. g. e. m. o. h. Heilsubót að hann lèt fánga Himnaljósið skæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

6. Máttlaus höndin veikleik vafði, þeim veitti drottinn heilsubót; Margur hann þar hjálpar krafði Hættri vafinn píslanót, Sem dofa, ikt og djöful hafði, Deyfu, blindni og líkþrá. M. g. e. m. o. h. Fóðrið sálar ei fyrir tafði Að friða þá og næra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

7. þá frelsarinn ofan af fjalli vendi, Og fagra ræðu hafði ent, Lærisveinum og lýðnum kenndi Lífsins orða æðstu mennt, Spítelskan áhrærði hendi, Hreinn varð strax að bragði sá. M. g. e. m. o. h. þjón höfðíngjans heilsu sendi, Hörmúng lèt ei særa. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

8. Um borg og kauptún boðaði Kristur Beinan veg til himna ranns; Sem herbergi fèkk líknar lystur, Leiddur þángað var til hans Einn sá djöfull bagaði bistur, Bæði firrtur að tala' og

sjá. M. g. e. m. o. h. Dýrðar blómið, Davíðs kvistur Dapran gjörði næra. Þ. v e. l. í l. s. a. f.

9. Þá Jesús yfir öldu-geima Almáttugur kominn var, Tvo besetna sá hann heima Sèr á móti hlaupa þar, Í dauðra gröfum höfðu heima, Hörfuðu síðan fjöllin á. M. g. e. m. o. h. Djöflana lèt í svínin sveima, Svartir þeim fortæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

10. Í tólf ár konu mjög rèð mæða Mein það fylgir kvennkyni, Svo maður eingiun mátti græða, Þó miklu þar til kostaði; Sem faldinn snerti' hún Kristí klæða, Kenndist vera frí þar frá. M. g. e. m. o. h. Við hana gjörði herrann ræða: Hughraust vertu hin kæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

11. Þá herrann Jesúm himins og landa Heyrðu gánga blindir tveir, Hrópa lúðir hátt, þar standa, Hjálpar af honum beiðast þeir; Þeim dimman framar gjörði' ei granda, Græddi rótin Jesse þá. M. g. e. m. o. h. Hann bauð og dökkum djöfuls anda Af dumbum burt sig hræra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

12. Kananeiska kvinnu þreytti Kvöl sú hennar dóttur sker, Við blíðan Jesúm bænar neytti, Böli því að lètta af sèr; Á afsvörunum ei sig steytti, Er hún tvisvar hlaut að fá. M. g. e. m. o. h. Aumri síðan aðstoð veitti Arons blómstrið skæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

13. Daufan, hvern þar mæddi enn meira, Mállaus var hann vafinn sút, Til Jesúm leiddi fólk-

ið fleira, Frelsarinn þá hrækti út, Fíngur í hans færði eyra, Fyrir það sterka hefata. M. g. e. m. o. h. Maðurinn gjörði' að mæla' og heyra, Magnast herrans æra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

14. Í Betsaída blindan líta Blessað vildi meyjar sáð, Samt þó ekki volaðan víta, En veita heldur læknis dáð; Í hans gjörði augu spýta Og yfir hann lagði hendur þá. M. g. e. m. o. h. Hann þurfti' ei leingur sjónlaus sýta, Svoddan dæmi' oss næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

15. Púkinn einn þar hrakti' og hrelldi, Er hrumur, dofinn var og sár, Eymdir nístu, froðu felldi, Fast hann þjáði andinn flár, Varð honum þrátt af vatni' og eldi Voði sýndur og dauðans þrá. M. g. e. m. o. h. Auman læknar æðsta veldi, Ímynd föðursins kæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

16. Efni því ei Lúkas leynir, Lausnarinn þá kominn var Í einhvern stað, sem glöggt ei greinir, Til græðslu honum feingu þar Djöfulóðan mann með meini, Mállaus var, sem letur-in tjá. M. g. e. m. o. h. Út var rekinn hinn óhreini, Fyrir herrans dygð frábæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

17. Þar hafði' ein kona kránkleiks anda, Kreppt og bjúg í átján ár, Fyrir yfirleggíng herrans handa Henni dvínar mæðan sár, Blessaður leysti víf úr vanda, Vertu (sagði hann) laus þar frá. M. g. e. m. o. h. Hún dýrkaði

skapara lýðs og landa, Fyrir líknar náð svo skæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

18. Blindur, þó sè búinn voði, Borinn var einn í þeirri neyð; Sagt er, að Jesús saur til hnoði, Og síðan á hans augu reið; Herrans eptir háu boði Hitti díkið Síló a. M. g. e. m. o. h. Sem í vatni því sig þvoði, Hann þáði sjón svo skæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

19. Vatnssjúkur á sabbatsdegi Settur fram fyrir herrann var. Lausnarinn spyr, hvort lækna megi. Lögspekíngar gefa' ei svar; Falskir þó við þessu þegi, Í þánka hugsa ráðin flá. M. g. e. m. o. h. Jesús vill þann veika eigi Volæði skuli særa. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

20. Tíu menn í líkþrár lúa Lángt frá stöðu' og kalla enn, Á mildan Jesú meistarann trúa, Miskunar biðja allir senn, En hann bauð þeim burtu' að snúa, Og birta skyldi prestum frá. M. g. e. m. o. h. Veikleikinn þá varð burt flúa Fyrir viljann drottins kæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

21. Til Jeríkó þá Jesús reisti, Játuðu tveir í einu þar, Að almátt hans þeir upp á treysti, Og af honum beiddust lækníngar; Báðum þeim var horfin hreysti, Hvorugur kunni neitt að sjá. M. g. e. m. o. h. Guðs son báða ljúfur leysti, Þá linaðist hryggðar snæra. þ. v. e. l. í l. s. a. f.

22. Þegar með svik og sára pretti Sækja Kristum Júdas rèð, Þá var Malkus þykkju metti þar í ferð og ráði með; Eyrað af honum

Símon setti, Sverði þegar til varnar brá. M. g. e. m. o. h. Höndina út að herrann rètti, Hann nam strax áhræra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

23. Svoddan vel, mín sála! mundu, Sanna mildi guðs og manns, Allir líf og lækníng fundu, Er leituðu á náðir hans; Hvað þig hrellir heims á grundu, Hann í trúnni vonaðu' á. Maktin guðs er mikil og há. Honum sè lof á hverri stundu, Heiður, prís og æra. Það vil eg læra í ljóða smíð að færa.

## Um sköpun heimsins og Krists híngaðburð.

Herrann skapaði lopt og láð, lýði og blómstrið fríða; Sá var hagur, sem það kunni smíða.

Í upphafi skapaði faðirinn fyrst Fríða jörð með dáðum, Skóga' og holt með skærri list Af skírum guðdóms ráðum, Yfir það setti' hann Adam víst, Allvíða það stendur skráð. Herrann skapaði lopt og láð. Var þá hvergi veröld bist, Svo vesöld þyrfti' að kvíða. Sá var hagur, sem það kunni smíða.

2. Veröldin breið með blóma stóð, Blessuð gæðum öllum, Hún var bæði græn og góð, glóuðu lauf á völlum, Fuglar súngu' um fiska-slóð, Feingu sinnar skyldu gáð. H. s. l. o. l. Lausn-

arinn af oss lètti móð, Hann lèt sèr undir svíða. S. v. h., s. þ. k. s.

3. Ljúfir skulum því lúta þèr, Lausnarinn allra manna! Af miskun komst í heiminn hèr, Hjálpar-skjólið sanna, Á herðum þínum heim oss ber Í himna dýrð, þar nóg er náð. Herrann skapaði lopt og láð. Svo vèr megum sýngja þèr Sífellt lofgjörð fríða. Sá var hagur, sem það kunni smíða.

---

## Um fæðíngu Krists, dómsdag og eilíft líf.

Hljómi raustin barna bezt Blíð á þessum degi, Og lofgjörðin allramest, Oss var gefinn og fæddur Lausnarinn gæzku gæddur, :,: Af meyjar kvið, kvið, kvið,:,: Af meyjar kvið með líkn og lið, Líkama vorum klæddur.

2. Austan kóngar komu þrír, Krist vorn finna vildu, Fylgdi þessum fórnin dýr, Frèttu' af barni skæru, Sem stjarnan óskar æru, :,:Gullið bezt, bezt, bezt,:,: Gullið bezt og myrra mest Með reykelsi skæru.

3. Í þessum fæddist heimi hann, Hulinn slæmum klæðum, Geymdur í stalli guð og mann; Hans göfug tign mun standa; Lausnarinn allra landa :,:Herfáng tók, tók, tók,:,: Herfáng tók og hryggðir jók Hann þeim myrkra anda.

4. Með sætum sigri sá reis upp Son guðs

þriðja' á degi, Batt þann vonda Belzebúb, Boðaði náð svo fríða Lausnarinn allra lýða, :,: Til himna fór, fór, fór, :,: Til himna fór sú heillin stór; Hann réð fyrir oss stríða.

5. En þó kemur aptur hann Á tilsettum tíma; þessi' hinn góði guð og mann Gjörir þá dóm að halda, Vondum verðkaup gjalda; :,: En kristna þá, þá, þá, :,: En kristna þá hann kallar á: „Komið í dýrð margfalda".

6. Hinna tala mun herrann til, Hefst þeim lítill friður: „Á yður veit eg eingin skil, Eingan yðar eg þekki, Farið á Belíals bekki :,: Með lífi' og sál, sál, sál :,:, Með lífi' og sál í logandi bál, Mig líta fáið ekki.

7. Þèr hafið þjáð og þvíngun veitt Þýðum herrans sauðum, Mína dýrð og mildi sneitt Með svo vondu háði, Yður því einginn náði; :,: Heljar raun, raun, raun, :,: Heljar raun þèr hafið í laun Með heitu neista sáði.

8. Herflegar hefndir þá Hafa, þeir illa gjörðu, Skilja vill þá skaparinn frá Skjótlega sínum sauðum, Sem leyst hefir lífs frá nauðum, :,: Hinir böl, böl, böl :,: Hinir böl og hryggðar kvöl Hafa hjá djöfli snauðum.

9. Heyra má þá harm og kvein Hátt með eymdar hljóðum, Sjá þeir þar sitt synda mein, Seint þó að því gættu, Þá syni guðs ei sættu. :,: Í heimi glaum, glaum, glaum, :,: Í heimi glaum þeir höfðu, taum Hvarma tár ei vættu.

10. Fagran munu þá fagnaðarsaung Fríðust guðs börn halda, Æfin finnst þeim ekki laung Um eilífar aldir alda. Gleðinni guð mun valda, :,:Ljóminn þá, þá, þá,:,: Ljóminn þá er lýðum hjá, þá liðin er æfin kalda.

11. Haltu mèr við hópinn þann, Himna faðirinn góði, Er leiðir þú í lífsins rann, þar ljómar eilífur dagur, Frábær, furðu fagur, :,:þar sèst ei nótt, nótt, nótt,:,: þar sèst ei nótt, ei sorg nè sótt, Sæll er þa vor hagur.

12 Hver sem elskar herrann Krist, Hann fær gleði sanna; Mín er þar til ljúfust lyst Lofgjörð honum vanda Fyrir hjástoð heilags anda, :,:Og dikta saung, saung, saung,:,: Og dikta saung um dægur laung, Drottni mínum til handa.

13. Mèr lízt nú kominn tími til, Að taka sig hèðan búa, Mínar syndir, minn guð! hyl, Mèr ei veröld lætur, Eg gef henni góðar nætur. :,:Heim til þín, þín, þín,:,: Heim til þín frá hryggð og pín Hafðu mig, Jesú sætur!

14. Valt er þetta veraldarhjól, Völt er heimsins blíða, þú rèttlætis sanna sól, Sálna hirðir mætur! Gef þú að mèr gætur, :,:Heim til þín, þín, þín,:,: Heim til þín frá hryggð og pín Hafðu mig, Jesú sætur!

15. Mig lángar hèðan, lausnari minn! Og lystir þar að búa, Sem eg hæstu huggun finn, því heimurinn illa lætur, Um daga' og dimmar nætur;

:,:Heim til þín, þín, þín,:,: Heim til þín frá hryggð og pín Hafðu mig, Jesú sætur!

16. Þá er eg glaður, guð! í þèr, Glaður í himnaríki, Þar gleði' um eilífð glaðvær er, Og gleði' útvaldra manna, Þá sælu gef mèr sanna. :,:Amen til, til, til,:,: Amen til eg óska vil, Einginn mun það banna.

## Reisu-sálmur.

Lagið: Gleð þig, guðssonar brúð!

Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín, Höndin þín helg mig leiði, Úr hættu allri greiði; Jesús mèr fylgi' í friði Með fögru eingla liði.

2. Móðurjörð minni frá Þín mildin gæzku há Leiddi með lukku blíða Og lètti öllum kvíða. J. m. f. í f. M. f. e. l.

3. Þín föðurleg náðin frí Framandi löndum í Forsorgaði og fæddi, Fullvel nærði og klæddi. J. m. f. í f. M. f. e. l.

4. Frá fári, sorg og sótt, Síð, árla, dag og nótt Vel mig jafnan verndaðir, Voldugi hjartans faðir! J. m. f. í f. M. f. e. l.

5. Hèr fyrir hverja stund Af hjartans innstu grund Þèr vil eg þakkir skýra, Þrenníng guðdómsins dýra! J. m. f. í f. M. f. e. l.

6. Vil eg nú víst til sanns Vitja míns föðurlands Í þínu nafni' alleina, Almættis tignin hreina! J. m. f. í f. M. f. e. l.

7. Flý eg nú því til þín, Þú hjartans vonin mín! Verndin þín vel mín gæti, Svo voða eingum mæti. J. m. f. í f. M. f. e. l.

8. Þó eg með illsku mennt Opt hafi straff forþènt, Samt mjúk þín miskun hlífi Mèr bæði' á sálu' og lífi. J. m. f. í f. M. f. e. l.

9. Í voða, vanda' og þraut Vel eg þig förunaut, Yfir mèr virztu vaka Og vara á mèr taka. J. m. f. í f. M. f. e. l.

10. Þá sjávarbylgjan blá Borðinu skellur á, Þín hægri hönd oss haldi Og hjálpi með guðdóms valdi. J. m. f. í f. M. f. e. l.

11. Frá stormi' og sterkum vind Og stríðri sjávar mynd, Frá óguðlegu' illþýði, Alls kyns voða og stríði. J. m. f. í f. M. f. e. l.

12. Þá vil eg þakka þèr, Nær þú hefir hjálpað mèr, Sem Jakob faðirinn forðum, Með fögrum bænarorðum. J. m. f. í f. M. f. e. l.

13. Þú skalt í allri nauð Ætíð vera minn guð; Þèr vil eg þjóna, trúa, Og þakkargjörð til búa. J. m. f. í. f. M. f. e. l

14. Mitt hjartans trúar traust Til þín er efalaust, Að mèr með miskun skærri Munir þú vera nærri. J. m. f. í f. M. f. e. l.

15. Ljóst þegar lífið dvín, Leið þú mig heim til þín Í föðurlandið fríða, Firrtan við allan kvíða. J. m. f. í f. M. f. e. l.

16. Amen, ó Jesú minn! Að þèr tak þrælinn þinn, Til skips þá gánga geri. Guðs einglar með

mèr veri. Jesús mèr fylgi' í friði Með fögru eingla liði.

---

## Áminníng að vera ánægður með sitt.

Málsháttt hafðu' í minni einn, Minnis verður hann stæður, Tók eg penna, þó tregur og seinn, Að tempra vísna glæður. Svo mun renna raddar teinn Rètt í orðskviðs máta: þetta mun drottinn dýrstur einn Duga' að sönnu láta.

2. Orðtækið gamla ei skaltú Í orða ræðu skerða, Sèrhverjum eptir sinni trú Síðar og fyr mun verða, Ef á stöðugum stofni sú Stendur, því munt játa: þetta mun drottinn dýrstur einn Duga' að sönnu láta.

3. Fuglarnir hafa faung ei stór, þá fæðu sinnar leita, Að morgni hver fastandi fór, Að fá þeir skyldu neyta, Á kvöldi aptur kemur hver, Kvíðalausir ei gráta; þetta mun drottinn dýrstur einn Duga' að sönnu láta.

4. En þó ei mestu efni hèr, Ó maður! hlotnast kunni, Örvæntíngar aldrei þèr Orð lát heyrast af munni; Segðu heldur, sem þèr ber, Svo með hyggju káta: „þetta mun drottinn dýrstur mèr Duga' að sönnu láta“.

# Kvæði.

Sat eg undir fjallinu fríða, heyrði' eg fagran fugla saung um dægur laung, ekki reikaði hugur minn þá víða.

Fróður beiða mig réð maður Mærð fram leiða sinnis glaður, Fjölnis veiða feingurinn hraður Fer þó tregur róms um gaung; Heyrði' eg fagran fugla saung. Við málið greiða stend eg staður, Stökurnar mjúkt að smíða; Ekki reikaði hugur minn þá víða.

2. Sá eg mörk af vildisverkum, Vafin börk á skógi merkum, Ein var björk með ilma sterkum, Aldins fegurst veitti faung; H. e. f. f. s. Mektarörk á mynni og kverkum Miðla smekknum blíða; E. r. h. m. þ. v.

3. Fuglar sveima' í fögrum ljóma, Fögnuð geyma' og saungva róma, Í garði þeim má heyra hljóma. Hljóðin lystug, mikil og laung; H. e. f. f. s. Alls kyns seima beztan blóma Ber sú mörkin fríða; E. r. h. m. þ. v.

4. Limið nýtt með laufum þéttum Leiptrar blítt á kvistum slèttum, Blakar títt með blóma settum, Blaktir mjúkt á hverri staung; H. e. f. f. s. Glansar frítt með gylltum blettum, Geislar fagrir bíða; E. r. h. m. þ. v.

5. Eg nam standa óg því undi, Öllum vanda firrtur mundi, Allra handa fagnaðarfundi Fángin þóttist hyggjan raung; H. e. f. f. s. Sár-

um anda síðan stundi, Sú nam gleðin líða: E. r. h. m. þ. v.

6. Vindar furðu hastir hrærðust, Hræsvelgs burðum allir nærðust, Blómstur í þurrðu flestöll færðust, Fèllu lauf af eikar spaung; H. e. f. f. s. Fölar urðu, sölnaðar særðust Sèrhver þöllin blíða; E. r. h. m. þ. v.

7. Fuglar súngu lystugt leingi Ljúfri túngu sælu geingi; Harma sprúngu frá eg feingi, Ferðin gjörðist mikil og laung; H. e. f. f. s. Í frosti þúngu fannst þá einginn, Fegnir í hylmíng skríða; E. r. h. m. þ. v.

8. Allur skógur er fallinn fagur, Fölnaður plógur, en sorgar slagur Eflaust nógur, hrörnar hagur, Horfin gjörvöll lysta faung; H. e. f. f. s. Vaknar rógur, dvínar dagur, Dýr og fuglar kvíða; E. r. h. m. þ. v.

9. Veraldar prýði' og glysleg gæði Get eg líði' og fölni bæði, Glaumurinn fríði' og fegurðar æði Flýr í svip um leynigaung; H. e. f. f. s. Líf með stríði' á lausum þræði Leikur og öll þess blíða; E. r. h. m. þ. v.

10. Siglukarfi hleiðólfs hverfi, Hafði' hinn djarfi minnst atgervi, Fèkk í starfi' af Friggjar erfi Fararspell með hverri raung; Heyrði og fagran fugla saung. Gyllíngs arfinn skeinkti' að skerfi Skírnis drykkinn þýða; Ekki reikaði hugur minn þá víða.

## Um veraldarinnar háttu.

Heims hrörna gæði, hnignar allt og þver.
Leikur líf á þræði, en lukkan völt er.

Brögnum skal nú bjóða Bragarins lítinn gróða. Guð eða virða góða Gjarnan vil eg ei hnjóða, Um hætta hegðun þjóða Hèr þó margt eg ræði. Heims hrörna gæði. Sízt, ef satt skal ljóða, Sjálfur haga' eg mèr. Leikur líf á þræði, En lukkan völt er.

2. Villast menn úr máta, Má það sannleik játa, Minnst sèr móti láta; Mun það eingin gáta; Margir stoltsa og státa Með stærilætis æði. H. h. g. Má sá mæddur gráta, Sem meira okið ber. L. l. á þ., E. l. v. e.

3. Veröld margan villir, Vitrum mönnum spillir; Holdið háskann hyllir, Hugmóð brjóstið fyllir; Ágirnd auðinn gyllir, Svo yfirvöldum næði. H. h. g. Margur á tá sèr tyllir, Tæpt þó standi hèr. L. l. á þ., E. l. v. e.

4. Maktin magnar kala, Meir en eg um tala; Margir metorð fala Mergð fyrir ríkisdala. Búk af bjórnum ala Og bera vegleg klæði. H. h. g. Huganum hèr með svala, Hvað sem á eptir fer, L. l. á þ., E. l. v. e.

5. Margir hugarhresstir Hátt eru stundum festir, Fá ár ríkja flestir, Fjörið dauðinn lestir, Einginn fót svo festir, Að fyrir því bragði stæði. H.

h. g. Allir erum vèr gestir, Eitt erfum, sem ber. L. l. á þ., E. l. v. e.

6. Veraldar versnar hagur, Velkist blóminn fagur, Gleði dvínar dagur, Dauðinn er ekki ragur; Í burt dó margur magur, Þó mammon nógan græði. H. h. g. Ekki' er unninn slagur, Auð þó hreppum vèr. L. l. á þ., E. l. v. e.

7. Úngur orku rèttur Opt á stól er settur, Voluðum voða þèttur, Varla þykist mettur; Degi síðar dettur, Og dreifist Krakasæði. H. h. g. Valdi' og virðíng flettur, Víkur frá því ber. L. l. á þ., E. l. v. e.

8. Stundleg stjórn vill þrotna Stoltari hefðar gotna, Eingir um eilífð drottna, Eikur háar brotna Sem trèð það lága' og lotna, Lík verða þau bæði. H. h. g. Ríkir í jörðu rotna, Ráð er að gæta' að sèr. L. l. á þ., E. l. v. e.

9. Líf með hógværð laga, Og láta' ei yfir klaga, Það er sæmdar saga, Að sýna' ei neinum baga; Um alla æfidaga Er sá sæll, því næði. H. h. g. Undir drottins aga Öllum lúta ber. L. l. á þ., E. l. v. e.

10. Hug við heiminn festa Hætta er hin mesta, Stundlegt blóm vill bresta, Búin er sorgin mesta; Synda særíng versta Sannur drottinn græði. H. h. g. Síðan sèr það bezta, Senn þegar æfin þver. L. l. á þ., E. l. v. e.

11. Guð frá grandi nauða Geymi ríka' og snauða, Hópnum herrans sauða Hjálpi' hans blóðið rauða,

Svo glæpa girndin trauða Gjöri' oss ei vandræði, Heims hrörna gæði. Líka' í lífi' og dauða Líkni drottinn mèr. Leikur líf á þræði, En lukkan völt er.

Undir eins brestur burði' og hug, Blánkaður fuglinn missir flug, Þá vængur verður dár; Framan af honum fjaðrir þrjár Feingið hafa allar sár.

2. Einn hefir fellt og aptur reist, Einn gat bundið og líka leyst, Gaf sár og græddi hag, Sorgir veitti' og gleði gaf, Gaf hann fyrst og tók síðan af.

3. Lánið því ekki leingur er, En lènt hefir sá, sem ráðin ber; Sitt taka maður má; Hvað miklu framar sá allt gott á Og allrabezt kann fyrir að sjá.



# REGISTUR.

# Eptirmáli.

Eptir því sem Hálfdan Einarsson segir í bókmenntasögu Íslands, hefir fyrsta útgáfa af þessum sálmum og kvæðum síra Hallgríms Pèturssonar verið prentuð 1755, önnur 1759, þriðja 1764, fjórða 1770 (og sama ár var kverið prentað í Kaupmannahöfn eptir fjórðu útgáfunni), fimmta 1773,[1] og virðist svo, sem Hálfdan Einarsson hafi sèð um prentunina á öllum þessum útgáfum. Hvar og hvenær sètta útgáfan hefir verið prentuð, veit eg ekki; en sjöunda útgáfan er prentuð í Viðey 1828, og á titilblaði hennar stendur: „7da útgáfa eptir þeirri 5tu fullkomnustu, sem útkom á Hólum 1773".

Þessi (ellefta) útgáfa er prentuð eptir tíundu útgáfunni, sem kom út í Reykjavík 1852, en þar að auk hefi eg við prófarkalesturinn haft hliðsjón af 7. og 4. útgáfunni; en 5. útgáfuna (Hólum 1773) gat eg ekki feingið. — Þegar 10. og 4. út-

[1]) H. Einari Sciagraphia historiae litterariae Islandicae, Havniae 1777, pag. 73: Poëmata sacra maximam partem inedita Halgrimi Petraei publicam videbant lucem 1755, aucta vero et emendata prodierunt Hol. 1759, 1764, 1770 et 1773, compendio vitae auctoris et recensu ejus lucubrationum a me praemissis. Edita sunt insuper haec poëmata juxta editionem Holensem antepenultimam Havniae 1770.

gáfan eru bornar saman, þá finnst töluverður orðamunur í þeim, einkanlega í æfisögu síra Hallgríms Péturssonar; hafa hinir síðari útgefendur breytt þar mörgum orðum, helzt þeim, sem hafa þótt dönskuleg. Þetta er eitt dæmi orðamunarins: 4. útgáfa 11. bls. í formálanum: „Með staðnum afhenti og síra Hallgrímur jarðirnar Katanes, Höfða og Ósspartinn, en hélt eptir Ferstiklu, Hrafnabjörgum og Staðartánga". 10. útgáfa, 11. bls.: „Með staðnum afhenti síra Hallgrímur jarðirnar Kattarnes, Staðarhöfða og Ósspartinn, en hélt eptir Ferstiklu, Hrafnabjörgum og Staðartánga". Gestur Vestfirðíngur, fimmta ár, Kaupmannahöfn 1855, 81. bls.: „afhenti hann með staðnum Katanes, Höfða og Óspartinn, en sjálfur hélt hann Ferstiklu, Hrafnabjörgum og Skálatánga".

Eg hefi tekið úr 4. útgáfunni fáein orð, sem mèr fundust fara betur, en rèttrituninni hefi eg haldið svo að kalla óbreyttri, eins og hún er í 10. útgáfunni, þótt hún sè ekki sem rèttust. Í eldri útgáfunum eru hendíngarnar aðgreindar með kommum, en í þessari með stórum upphsafsstöfum. Þó standa enn kommur á fáeinum stöðum milli hendínga, þar sem þær eiga ekki að vera; á stöku stað byrjar og hendíng með litlum upphafsstaf; vera má og, að sumir vilji skipta hendíngum öðruvís, en eg hefi gjört, á nokkrum stöðum, og bið eg góða menn að virða öll slík mis-

smíði á hægra veg. Að endíngu bæti eg hèr við formála, sem stendur á eptir æfisögu Hallgríms Pèturssonar bæði í 10. og 7. útgáfunni og mun vera saminn af Hálfdani Einarssyni, hafa staðið í 5. útgáfunni (Hólum 1773) og eptir henni vera tekinn í allar hinar síðari útgáfur. Eg kunni ekki við að láta hann gánga leingur frá einni útgáfu til annarar, án þess að láta vita, hvernig á honum stendur, en vildi þó ekki sleppa honum alveg, því að hann sýnir sambandið á milli 4. og 5. útgáfunnar og muninn á þeim. Hann er svona:

„Hvað þessari útgáfu viðvíkur, þá er hún á viðlíkan hátt löguð, sem hin síðasta af 1770, nema hvað undanfellt hefi þær stuttu bænarandvarpanir, sem þar finnast á bls. 173—179, þar ei einasta er til vonar, að þær þrykkist hið fyrsta ásamt þaunkum (svo kölluðum) *auctoris*, heldur og sýnast, nær *finales consonantiae* frá takast, líkar jafnt sundurlausri, sem bundinni ræðu; líka og þar fyrir, að rúm feingist fyrir viðbætinum, er inniheldur nær allt húngað til óþrykkt, en síra Hallgrími eignað ei af færri en 3 *exemplaribus*, af hverjum ekkert sýnist þess annars *apographum*. Að innsetja allar *variantes lectiones* hefi eg opt þeinkt, en sleppi því um sinn, þar það er gagnslítið, en gjörir undir eins kverið stærra og dýrara. Sálminn: Leið þú mig, guð! og lát

mig ei, hefi eg fundið í 2 *exemplaribus* einasta með 3 versum; en af hinum, samt 2 enn óþrykktum versum, samanstendur annar sálmur síra Hallgrími eignaður. Í Aldarháttar versi 9. er nú undan fellt: næm, eptir *exemplaribus* þeirra sælu guðs manna: föður míns, einu síra Eyjólfs á Völlum og síra Guðmundar Erlendssonar í Felli, þar þetta orðkorn sýnist úti mega látast í tilliti til meiníngar og bragarháttar.[1] Í Flærðarsennu (svo kallaðri) v. 2. sýnist heldur eiga í tilliti til meiníngarinnar vera: kreppir inn, heldur en að, eptir sál. Bechs sýslumanns *exemplari*. Úr sálminum: Sælar þær sálir eru, hefi eg burttekið 3 vers, eptir tilvísun *exempls.* síra Hallgrími tilheyrandi, og sett þau bak við nefndan sálm, því þau eru undir öðru lagi en hann. Sálmurinn: „Hjartað kátt höfum, þó gángi stirt", mun vissulega vera síra Jóns píslarvotts, eins og hinn: „Jesú frelsari og friðarherra", Sigurðar Pálssonar; ekki heldur munu samstæðurnar: „Hirt mig ei í heiptarbræði," nè versin: „Eitt má óvalt heita" etc., fyrir víst eignandi síra Hallgrími. Verður þetta því undanfellt í þessari útgáfu, í hverri finnst eitt og annað smávegis lagfært, eptir þeim *exemplaribus* feingið hefi,

[1] Eg hefi tekið þetta orð upp eptir 4. útg., því að skýríng vísunnar heimtar það. J. Þ.

síðan *penultima editio* útgekk, og góðir menn hafa mèr tilvísað, meðal hverra helztu er prófasturinn síra Vigfús Jónsson í Hítardal, hverjum og, eptir skyldu, aflegg hèr með mitt opinbert þakklæti, eins og hinum öðrum, þó um sinn ei sèu á nafn nefndir".

Reykjavík, í janúarmánuði 1858.

*Jón Þorkelsson.*

---

## Prentvillur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Bls. | $12_{4}$—$_{5}$ | sköpuuar | les | sköpunar |
| — | $73_{3}$ | Jesú | — | Jesús |
| — | $91_{12}$ | sín | — | sýn |
| — | $116_{8}$ | hlíða | — | hlýða |
| — | $120_{2}$ | stinur | — | stynur |
| — | $137_{11}$ | vonum Jesúm | — | Jesúm vonum |
| — | $154_{12}$ | vera | — | vora! |
| — | $198_{23}$ | haun | — | hann |
| — | $202_{14}$—$_{16}$ | nottinn | — | nóttin |
| — | $220_{25}$ | Hjótt | — | Hljótt |
| — | $244_{3}$ | sörg | — | sorg |
| — | $266^{24}$ | et | — | er |

---

Kosta óinnbundnir 48 sk.

